# Almanak

fyrir árið

# 1914

sem er annað ár eftir hlaupár og þriðja ár eftir sumarauka,
Reiknað eftir afstöðu Winnipegbæjar í Manitoba.

---

Safn til landnámssögu Íslendinga í Vesturheimi og fleira

---

TUTTUGASTA ÁR

---

WINNIPEG
ÚTGEFANDI OG PRENTARI ÓLAFUR S. THORGEIRSSON.
1913.

## Á þessu ári teljast liðin vera:

frá Krists fæðingu..............................1914 ár
frá sköpun veraldar.............................5881 ár
frá upphafi Íslandsbygðar......................1040 ár
frá siðabót Lúters..............................397 ár

Árið 1914 er sunnudagsbókstafur D.
Gyllinital 15.
Milli jóla og langaföstu eru 8 vikur og 3 dagar.

## MYRKVAR 1914.

Árið 1914 verða fjórir myrkvar, tveir á sólu og tveir á tungli.

1. Sólmyrkvi 24. febr., ekki sýnilegur hér, en aftur sýnilegur á miklum hluta Kyrrahafs strandarinnar.

2. Tunglmyrkvi nóttina milli 11. og 12. marz. Sýnilegur hér frá byrjun til enda.

3. Sólmyrkvi (almyrkvi) 21. ágúst, og byrjar með sólaruppkomu. Sýnilegur í norð-austur hluta Bandaríkjanna og í Canada.

4. Tunglmyrkvi 4. sept. Sýnilegur í vesturhluta Norður-Ameríku, á Kyrrahafinu, Austur-Asíu og Ástralíu.

**Árstíðirnar.** Í Vestur-Canada er talið að

Vorið byrji....................21. marz
Sumarið........................21. Júní
Haustið........................23. september
Veturinn.......................22. desember

## Tunglið

Fylgistjarna jarðarinnar er tunglið. Þvermál þess er 2,163 mílur og fjarlægð þess frá jörð vorri 288,000 enskar mílur. Braut sína umhverfis jörðina gengur það á því tímabili, sem alment er kallað tunglmánuður; er það tímabil alment talið 28 dagar, en er í raun réttri 27 dagar og 8 klukkustundir, eða rétt um það bil.

## Um tímatalið

Forn-Egyptar skiftu degi og nóttu í 12 kl.-stundir hvoru, — og hafa Gyðingar og Grikkir eftil vill lært þá venju af Babýlóniu-mönnum. Það er sagt, að deginum hafi fyrst verið skift í klukkustundir árið 293 f. Kr., þegar sólskífa fyrst var smíðuð og sett upp í Quirinus-mustirinu í Róm. Þangað til vatnsklukkurnar voru uppfundnar (árið 158 f. Kr.), voru kallarar (eða vaktarar) viðhafðir í Róm til að segja borgarbúum hvað tímanum liði. Á Englandi voru vaxkertaljós hötð fyrst frameftir, til að segja mönnum, hvað tímanum liði. Var áætlað að á hverri klukkustund eyddust 4 þumlungar af kertinu. Hin fyrsta stundaklukka (tíma-mælir—sigurverk) í líkingu við þær sem nú tíðkast, var ekki fundin upp fyr en árið 1250. Fornmenn á Norðurlöndum töldu flestir að dagur byrjaði með upprás sólar. Aþenumenn og Gyðingar töldu hann byrja á sólsetri, og Rómverjar, eins og vér, á miðnætti.

## Páskatímabilið.

Kirkjuþingið í Nicæa, er haldið var árið 325 eftir Krists fæðing ákvað og leiddi í lög kirkjunnar, að páskahátíðin skyldi ætíð haldin vera hinn **fyrsta** sunnudag eftir **fyrsta** tungl, er springi út næst eftir 20. marzmán. Samkvæmt ákvæði þess getur páskahátíðin átt sér stað á 35 daga tímabili, nefnilega á tímabilinu, frá 22. marz til 25. apríl, að þeim dögum báðum meðtöldum. Þetta tímabil er nefnt páskatímabilið. Af þessu leiðir, að ef tungl væri fult 21. marz og 22. marz bæri upp á sunnudag, þá yrði sá dagur (22.) páskadagur, fyr á ári geta páskar aldrei orðið. Þetta átti sér stað árið 1818. En sé tungl fult 18. apríl og 18. apríl bæri upp á sunnudag, yrði næsti sunnudagur, páskadagur, nefnilega 25. apríl. Það kom fyrir árið 1886.

## Páskadagur.

| | | | |
|---|---|---|---|
| 1914 .......... | 12. Apríl | 1917 .......... | 8. Apríl |
| 1915 .......... | 4. Apríl | 1918 .......... | 31. Marz |
| 1916 .......... | 23. Apríl | 1919 .......... | 20. Apríl |
| | | 1920 .......... | 4. Apríl |

## Sóltími.

Sólarhringur er sú tímalengd, er líður á milli þess, er sólin gengur yfir ákveðna hádegislínu, og er það hin eðlilegasta skifting tímans. En sökum hinnar mismunandi hreifingar jarðarinnar umhverfis sólina og sökum bugsins á sólargangslínunni (Ecliptic), er aldrei nákvæmlega jafn-langur tími milli þess, er sól gengur yfir ákveðna línu. Af því leiðir að það er lítt mögulegt að setja stundaklukku eftir sól. Til að ráða bót á þessum mismun, setja menn svo að önnur sól sé til, og að hún gangi með jöfnum hraða þvert yfir miðjarðarlínuna. Er sú ímyndaða sól þá stundum á undan og stundum á eftir hinni einu virkilegu sól. Er sá mismunur mestur 16 mínútur. Réttur sóltími er miðaður við hina virkilegu sól, en hinn svo kallaði „meðal sóltími" aftur á móti, er miðaður við hina ímynduðu sól. Til skýringar má geta þess að það er að eins á tveim dögum á árinu—á jafndægrum haust og vor—að „meðal sóltíma" og réttum sóltíma ber saman, því á þeim tveim dögum að eins er buglínan eða sólargangslínan yfir miðjarðarlínunni.

## Fyrstu peningar.

Eins snemma og sögur fara af, var gull og silfur notað sem gangeyrir, en lengi vel þektist málmurinn að eins, sem smábútar eða duft, og fram á þenna dag eru margir Kínar andstaðir því, að nota mynt. Á hinum miklu eyðimörkum Afríku er kaupeyrir gull-duft í ánsu tali.

Gríski sagnfræðingurinn Heródót kveður Sydíumenn þá fyrstu er slegið hafi gullpeninga og talið er að silfur hafi fyrst verið slegið á eyjunni Egina 860 árum fyrir Krist. Á fornmenjasöfnum finnast peningar slegnir á Persalandi árið 350 f. Kr. Elzta mynt sem þektist í Gyðingalandi var kölluð darisk eða kóngseyrir, eftir Darius keisara, var hún slegin um 450 árum fyrir Krist.

# VEÐURFRÆÐI HERSCHEL'S

er segir fyrir um veðrabreytlngar, er verða á öllum tunglkomum, og meðan hvert tungl er uppi árið um kring.

Tafla þessi er bygð á athugunum, er starfað hefir verið grandgæfilega að um langt tímabil, og er hún samin samkvæmt nákvæmum athugunum á aðdráttarafli sólarinnar og tunglsins, með tilliti til hinnar breytilegu afstöðu þeirrr við jörðina.

Það er auðvelt að sjá af töflu þessari, hvers konar veðurátta eða veðurbreyting muni verða með hverjum tunglfjórðungi, og hún fer svo nálægt því, sem fram kemur, að sjaldan eða aldrei skeikar.

| Ef nýtt tungl, fyrsta kvartil, fult tungl eða síðasta kvartil kemur | Á sumri: | Á vetri: |
|---|---|---|
| milli miðnættis og kl. 2, verður | Fagurt veður................ | Frost, nema sunnanvindur sé |
| " kl. 2 og 4 um morguninn | Kalt með skúrum............. | Snjór og stormasamt |
| " " 4 " 6 " " .... | Regn........................ | Regn. |
| " " 6 " 8 " " .... | Vindur og regn.............. | Stormasamt |
| " " 8 " 10 " " .... | Breytilegt veður............ | Kalt og regn, sé vindur af vestri; snjór sé vindur af austri |
| " " 10 " 12 " " .... | Tíðar skúrir................ | Kalt og kvast veður |
| " " 12 " 2 e.m........ | Mjög rigningasamt........... | Snjór og regn |
| " " 2 " 4 " ........ | Breytilegt veður............ | Fagurt veður og hlýtt |
| " " 4 " 6 " ........ | Fagurt veður................ | Fagurt veður |
| " " 6 " 8 " ........ | Fagurt, sé vindur af norðvestri.. | Fagurt með frosti sé vind. af n. eða n.a. |
| " " 8 " 10 " ........ | Rigning, sé vindur af s. eða s.v. | Regn eða snjór, sé vindur af s. eða s.v. |
| " " 10 " miðnættis........ | Fagurt...................... | Fagurt veður með frosti. |

## Fastastjörnur:

Föstum stjörnum er skift í flokka eftir birtu þeirra. Stjarna,sem gefur frá sér birtu á móts við meðal birtu tuttugu björtustu stjarnanna, sem sjást, er stjarna hinnar fyrstu stærðar (Magnitude). Smærri stjörnur en sjöttu stærðar sjást ekki með berum augum. fyrstu stærðar stjörnur eru hundrað sinnum bjartari en þær. Með berum augum má sjá um 5,000 stjörnur og er tala þeirra í flokkum þannig:

| | | | |
|---|---|---|---|
| Fyrstu stærður um | 20 | Fjórðu stærðar um | 425 |
| Annarar " " | 65 | Fimtu " " | 1100 |
| Þriðju " " | 190 | Sjötta " " | 3200 |

Sjónauki, þrjá þumlunga í þvermál, sýnir um 324,188 stjörnur. Flestir sjónaukar notaðir við stjörnufræðislegar athuganir eru miklu stærri og sýna þá náttúrlega fleiri stjörnur.

Bjartasta fastastjarnan heitir Siríus. Hún skipar að réttu agi sess út af fyrir sig. Hún er miljón sinnum lengra frá jörðinni en sólin. Hún hefir fylgihnött sem er sjö sinnum þyngri en sól vor. Síríus er fimm þúsund sinnum bjartari en fylgihnöttur hans,en er að eins tvöfalt þyngri. Þessi fylgihnöttur fer hringferð sína um Síríus á fjörutíu og níu árum eftir því sem næst verður komist.

Fjarlægð fastastjarnanna er jafnan miðuð við tímann sem ljósið þarf til að ferðast frá þeim til jarðarinnar. Ljóshraðin er um 186.300 mílur á **sekundu**. Ljósár er sú vegalengd nefnd sem ljósið ferðast yfir á heilu ári. Fjarlægð stjarnanna er því mæld í ljósárum.

Fáar fastastjörnur eru svo nálægar að mögulegt sé að mœla hve langt þær eru í burt. Sú sem er næst er að eins þrjú ljósár í burt. Aftur á móti er vegalengdin til Arcturus um hundrað ljósár. Arkturus er þrettán hundruð sinum bjartari en sól vor; og nálgast jörðina með fimm mílna hraða á sekundunni.

Vega er um þrjátíu ljósár í burt; og nálgast með tíu mílna hraða á sekúndunni. Eftir tólf þúsund ár verður hún orðin pólstjarna vor.

---

## Stœrst í heimi.

Mesti banki heimsins er Englandsbankinn í Lundúnum; elzti háskóli er University College í Oxford, stofnaður 1050; stærsta bókasafn heimsins er landsbókasafnið í París, er hefir næstum því 3,000,000 binda.

Stærsta leikhús heimsins er sönghöllin í París og er landspildan er hún stendur á þrjár ekrur að stærð; stærsta bronze-líkneski er standmynd Péturs mikla í St. Pétursborg, er vigtar 1100 tonn. Stærsta steinlíkneski er í Japan og er 44 feta hátt; stærsti háskóli er í Cairo, þar eru 10,000 nemendur og 310 kennarar.

Dýpsta kolanáma er skamt frá Lambert í Belgíu og er 3,500 feta djúp, stærsta skipakví er í Cardiff í Wales, rafmagnslampi sá er mest ljósmagn hefir er í vitanum við Sidney í Ástralíu, en stærsti vitaturn heimsins stendur á Cape Henry í Virginíu og er hann 165 fet á hæð.

## Ártöl nokkurra mekisviðburða.

| | Fyrir Krists burð. |
|---|---|
| Fall Tjóruborgar | 1182 |
| Stofnun Kartagoborgar | 878 |
| Stotnun Rómaborgar | 753 |
| Jerúsalem hertekin af Nabúkadnesar | 588 |
| Júlíus Cæsar fer til Bretlands | 55 |
| | **Eftir Krist.** |
| Jerúsalem eyðilögð af Týtusi | 70 |
| Constantinus keisari snýst til kristni | 313 |
| Rómverjar yfirgefa Bretland | 410 |
| Norðmenn vaða inn á Bretland. Bardaginn við Hastings | 1066 |
| Krossferðir byrja | 1096 |
| Tyrkir taka Miklagarð | 1453 |
| Biblían fyrst prentuð í Mentz | 1462 |
| Columbus fann Ameríku | 1492 |
| England og Skotland sameinast | 1602 |
| Þrjátíu ára stríðið byrjar | 1618 |
| Bretar taka Gibraltar | 1704 |
| Friðarsamningarnir gerðir í Utrecht | 1713 |
| Frímerkjalögin gengu í gildi | 1765 |
| Bandaríkin segja sig undan Bretum | 1776 |
| Fyrsta nýlenda sett á stofn í Ástralíu | 1788 |
| Napoleon Bonaparte verður keisari | 1804 |
| Bardaginn við Trafalgar. Fall Nelson's | 1805 |
| Franski leiðangurinn við Moskva | 1812 |
| Bardaginn við Waterloo | 1815 |
| Fyrsta gufuskip fer yfir Atlandshaf | 1815 |
| Gullið fundið í Californíu | 1848 |
| Fyrsta alheimssýning haldin í London | 1851 |
| Dominion of Canada stofnað | 1867 |

---

## Til minnis um Ísland.

Fyrst fundið Ísland af Írum á 8. öld. Af Norðmönnum 860
Fyrst varanleg bygð hefst 874.
Fyrsta Kötlugos, er sögur fara af 894.
Fyrstu lög og alþingi sett 930.
Fyrstur trúboði Friðrik biskup, saxneskur, 981.
Fyrsti lögsögumaður, Hrafn Hængsson, kosinn af lögréttu 930.

Fyrsta kirkja er í ritum talin bygð um 984, að Ási í Hjaltadal, en það mun sanni nær, að Örligur gamli hafi reist kirkju að Esjubergi nálægt 100 árum áður.

Fyrstur íslenzkur biskup, Ísleifur Gissursson, 1054.
Fyrstur fastur skóli á Hólum, 1552.
Fyrstur íslenzkur rithöfundur kunnur, og faðir íslenzkrar sagnunar, Ari Þorgilsson prestur, 1067, d. 1148.
Fyrsta Heklugos er sögur fara af, 1104.
Fyrsta klaustur reist á Þingeyrum, 1133.
Fyrsta nunnuklaustur í Kirkjubæ í Vestur-Skaftafellssýslu 1186.
Fyrstur konungur yfir Íslandi, Hákon Hákonarson (konungur Norðmanna), 1262—63.
Svarti dauði geisaði, 1402.
Seinni plágan, 1495.
Fyrsta prentsmiðja á Breiðabólstað í Vesturhópi um 1530.
Fyrstur prentari, Jón Matthíasson, sænskur prestur.
Fyrstur lúterskur biskup, Gissur Einarsson, 1539.
Fyrst prentað nýja testamentið, þýtt af Oddi lögmanni Gottskálkssyni, 1540.
Fyrstur fastur latínuskóli í Skálholti, 1552.
Fyrsta ísl. sálmabók, sem til er, prentuð 1555.
Fyrst prentuð biblían, þýdd af Guðbrandi biskup 1584.
Spítali stofnaður fyrir holdsveikt fólk, 1652.
Fyrsta galdrabrenna 1625, (hin síðasta 1690).
Prentsmiðjan flutt frá Hólum að Skálholti 1695, og að Hólum aftur 1703.
Stórabóla geysaði 1707.
Fyrsta Jónsbók (Vídalíns) kemur út 1718.
Fyrst drukkið brennivín á Íslandi á 17. öld.
Fyrst fluttur fjárkláði til Íslands 1760.
Fyrst drukkið kaffi 1772.
Fyrsta lyfjabúð á Nesi við Seltjörn, 1772.
Fyrstu póstgöngur hefjast 1776.
Hið íslenzka lærdómslistafélag stofnað í Kaupmannahöfn 1779.
Ákveðið að flytja biskupsstólinn og skólann frá Skálholti til Reykjavíkur 1785.
Verzlunareinokunin konunglega afnumin 1787.
Seinasta löggjafarþing haldið að Þingvöllum við Öxará 1768.
Prentsmiðjan á Hólum flutt að Leirárgörðum 1799.
Landsyfirréttur settur á laggirnar í Rvík 1800.
Fyrsta organ sett í Leirárkirkju 1800.
Hólaskóli fluttur til Reykjavíkur 1801.
Landið gjört að biskupsdæmi 1801.
Haldinn fyrsti yfirréttur í Reykjavík 1801.
Latínuskólinn fluttur frá Reykjavík til Bessastaða 1805.
Hið íslenzka biblíufélag stofnað 1816.
Fyrsti vísir til fréttablaða, Klausturpósturinn kemur út 1818. (Minnisverð tíðindi ekki talin; þau komu út 1796—1808).
Prentsmiðjan flutt frá Leirárgörðum til Viðeyjar 1819.
Búnaðarfélag Suðuramtsins stofnað 1835.
Fyrsti árgangur Fjölnis birtist 1835.
Fyrst gefin út Ný félagsrit 1841, rit Jóns Sigurðssonar.

Prentsmiðjan flutt frá Viðey til Reykjavíkur 1844.
Fyrsta alþingi í Reykjavík 1845.
Latínuskólinn fluttur til Reykjavíkur frá Bessastöðum 1846.
Prestaskólinn settur í Reykjavík 1847.
Fyrsti stjórnmálafundur haldinn á Þingvöllum við Öxará 1848.
Fyrsta blað Þjóðólfs prentað 1848.
Hrossasala til útlanda byrjar um 1850.
Prentsmiðja sett á stofn á Akureyri 1852.
Fyrsta póstgufuskip kom til Reykjavíkur 1858.
Spítali settur á stofn í Reykjavík 1863.
Forngripasafnið sett á stofn í Reykjavík 1863.
Barnaskóli í Reykjavík stofnaður 1863.
Þjóðvinafélagið stofnað 1870.
Fyrst fluttir inn skozkir ljáir 1871.
Settur háskóli í Reykjavík 1911.

## Stærð úthafanna.

| | | | | | |
|---|---|---|---|---|---|
| Norður-Íshafið er um | 4,781,000 | ferh. | míl. | flatarmál. |
| Suður-Íshafið ,, ,, | 30,592,000 | ,, | ,, | ,, |
| Indlandshafið ,, ,, | 17,084,000 | ,, | ,, | ,, |
| Atlantshafið ,, ,, | 24,536,000 | ,, | ,, | ,, |
| Kyrrahafið ,, ,, | 50,309,000 | ,, | ,, | ,, |

## Lengstur dagur.

| | klt. | m. |
|---|---|---|
| Reykjavík | 20 | 56 |
| Pétursborg | 18 | 38 |
| Stokkhólmi | 18 | 35 |
| Edinborg | 17 | 32 |
| Kaupmannahöfn | 17 | 20 |
| Berlin | 16 | 40 |
| London | 16 | 34 |
| París | 16 | 05 |
| Victoría, B. C. | 16 | 00 |
| Vínarborg | 15 | 56 |
| Boston | 15 | 14 |
| Chicago | 15 | 08 |
| Miklagarði | 15 | 04 |
| Cape Town | 14 | 20 |
| Calcutta | 13 | 24 |

## Þegar klukkan er 12

á hádegi í Washington, höfuðstað Bandaríkjanna, þá er hún í

| | | |
|---|---|---|
| New York | 12.12 | e. h. |
| St. John, Nýfundnal. | 1.37 | ,, |
| Reykjavík | 4.07 | ,, |
| Edinborg | 4.55 | ,, |
| London | 5.07 | ,, |
| París | 5.17 | ,, |
| Róm | 5.53 | ,, |
| Berlin | 6.02 | ,, |
| Vínarborg | 6.14 | ,, |
| Calcutta, Indland | 11.01 | ,, |
| Peking, Kína | 12.54 | f. h. |
| Melbourne, Ástralía | 2.48 | ,, |
| San. Francisco | 8.54 | ,, |
| Lima, Perú | 12.00 | áhád |

TÍMINN er í þessu almanaki miðaður við 90. hádegisbaug. Til þess að finna meðaltíma annara staða, skal draga 4 mínútur frá fyrir hvert mælistig fyrir vestan þenna baug, en bæta 4 mínútum við fyrir hvert mælistig austan hans.

JANÚAR hefir 31 dag 1914

MÖRSUGUR

| | | | |
|---|---|---|---|
| F | 1 | Nýársdagur—su. 7.58, sl. 4.09 | |
| F | 2 | Þrælahald aftekið í Bandaríkjunum 1865 | |
| L | 3 | | 11. v. vetrar |

*Barnamorðið í Betlehem, Matt. 2.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 4 | S.e.nýár--Konr.Gíslason d.1891--☾F.kv.8.55f.m. | |
| M | 5 | | |
| Þ | 6 | Þrettándi (jóladagurinn gamli) | |
| M | 7 | Knútsdagur--Eldbjargarmessa—su.7. 56, sl.4.18 | |
| F | 8 | Ól. Hjaltason, bisk. d. 1569 | |
| F | 9 | Napóleon 3. dáinn 1873. | |
| L | 10 | | 12. v. vetrar |

*Þegar Jesús var 12 ára, Lúk. 2.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 11 | 1. s. e. þrettánda Brettívumessa | |
| M | 12 | ☺ F. 0.55 f. m. | |
| Þ | 13 | Geisladagur | |
| M | 14 | su. 7.52, sl. 4.27 | |
| F | 15 | | |
| F | 16 | British Museum opnað 1759 | |
| L | 17 | Benjamín Franklín f. 1706 | 13. v. vetrar |

*Brúðkaupið í Kana, Jóh. 2.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 18 | 2. s. e. þr.—B. Lytton d.1873—☽S. kv. 8.16 e.m. | |
| M | 19 | Gullið fundið í Californíu 1848 | |
| Þ | 20 | Bræðramessa | |
| M | 21 | su. 7.46, sl. 4.37—Agnesarmessa | |
| F | 22 | | |
| F | 23 | Gustav Doré dáinn 1882 | ÞORRI |
| L | 24 | Friðrik mikli f. 1712 | 14. v. vetrar |

*Jesús gekk ofan af fjallinu, Matt. 8.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 25 | 3.s.e.þr.—●N.2.20 f.m.—Pálsm.—Kirkjufél. Ísl. [Vestur h. st. 1885 | |
| M | 26 | | |
| Þ | 27 | Mósart f. 1756 | |
| M | 28 | su. 7.39, sl. 4.49—Holb., danska skálkið d. 1754 | |
| F | 29 | | |
| F | 30 | | |
| L | 31 | Dr. Guðbr. Vigfússon d. 1889 | 15. v. vetrar |

## FEBRÚAR hefir 28 daga 1914

ÞORRI

*Jesús gekk á skip, Matt. 8.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 1 | 4. s. e. þrett.—Brigildarmessa | |
| M | 2 | Kyndilmessa—Heitdagur Norðlendinga 1365 | |
| Þ | 3 | Blasíusmessa—Mendelshon Bartholdy f. 1809--- ☾ F.kv.4.04 f.m. | |
| M | 4 | su. 7.27, sl. 5.01 | |
| F | 5 | | |
| F | 6 | | |
| L | 7 | Charles Dickens fæddur 1812 | 16. v. vetrar |

*Verkamenn í víngarði, Matt. 20.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 8 | Níuviknafasta | |
| M | 9 | Baldvin Einarsson d. 1833 | |
| Þ | 10 | Canada afh. Englendingum 1763—☺F. 11.06 f.m. | |
| M | 11 | su. 7.15, sl. 5.13 | |
| F | 12 | Abraham Lincoln f. 1809 | |
| F | 13 | | |
| L | 14 | Lúters síð. préd. 1546 | 17. v. v. |

*Fernskonar sáðjörð, Lúk. 8.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 15 | 2. s í föstu | |
| M | 16 | Melankton fæddur 1479 | |
| Þ | 17 | Mich. Angeló dáinn 1563—☽Síð. kv. 2.54 f. m. | |
| M | 18 | Lúter dáinn 1546—su. 7.02, sl. 5.25 | |
| F | 19 | | |
| F | 20 | Styrmir fróði d. 1245 | |
| L | 21 | Þorraþræll | 18. v. vetrar |

*Skírn Krists, Matt. 3.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 22 | Langafasta—Washington f. 1732 | GÓA |
| M | 23 | | |
| Þ | 24 | Sprendikvöld—● Nýtt 5.33 e.m. | |
| M | 25 | Öskudagur---su. 6.50, sl. 5.37 | |
| F | 26 | | |
| F | 27 | Longfellow fæddur 1807 | |
| L | 28 | | 19. v. vetrar |

GÓA

*Djöfullinn freistar Jesú, Matt. 4.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 1 | 1. s. í föstu—John Westley dáinn 1791 |
| M | 2 | Sett 1. þing Bandaríkjanna 1781 |
| Þ | 3 | Jónsmessa (h.f.) |
| M | 4 | su. 6.35, sl. 5.50—☾F. kv. 10. 34 e. m. |
| F | 5 | |
| F | 6 | Sveinbjörn Egilsson dáinn 1791 |
| L | 7 | 20. v. vetrar |

*Kanverska konan, Matt. 15.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 8 | 2. s. í föstu—Jón Thoroddsen dáinn 1868 |
| M | 9 | Bardag. milli Merrimac og Monitor 1862 |
| Þ | 10 | |
| M | 11 | su. 6.20, sl. 6.01—☺F. 9.49 e. m. |
| F | 12 | Síra Páll Þorláksson d. 1882 |
| F | 13 | Dr. Guððrandur Vigfússon fæddur 1827 |
| L | 14 | 21. vika vetrar |

*Jesús rak út djöful, Lúk. 11.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 15 | 3. s. í föstu |
| M | 16 | Gvöndardagur (Guðm. góði Hólab. d. 1237) |
| Þ | 17 | Magnús Stephensen (gamli) d. 1833 |
| M | 18 | su.6,06,sl. 6.11—Hinrik Ibsen f.1828—☽S. kv. [1.10 e.m. |
| F | 19 | Davið Livingstone f. 1813 |
| F | 20 | |
| L | 21 | Benediktsmessa—Jafndægur 22. vika vetrar |

*Jesús mettar 5000 manna, Jóh. 6.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 22 | Miðfasta—Göthe d. 1832—Góuþræll EINMÁNUDUR |
| M | 23 | Reils uppreistin í Canada hefst 1885— |
| Þ | 24 | Albert Thorvaldsend. 1844 |
| M | 25 | su. 5.50, sl. 6.23—Boðunardagur Maríu |
| F | 26 | Bethoven tónfræð. d. 1827—● N. 11.40 e. m. |
| F | 27 | John Bright d. 1889 |
| L | 28 | 23. vika vetrar |

*Gabríel engill sendur, Lúk. 1.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 29 | 5 s. í föstu—Jón Eiríksson, konferensráð d.1787. |
| M | 30 | |
| Þ | 31 | |

# APRÍL hefir 30 daga 1914

EINMÁNUDUR

| | | |
|---|---|---|
| M | 1 | su. 5.34, sl. 6.35—Bismark fæddur 1813 |
| F | 2 | Gambetta f. 1838 |
| F | 3 | ☾Fyrsta kv. 1.12 e. m. |
| L | 4 | Oliver Goldsmith d. 1744 — 24. vika vetrar |

*Krists innreið í Jerúsalem, Matt. 21.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 5 | Pálmasunnudagur |
| M | 6 | |
| Þ | 7 | |
| M | 8 | su. 5.19, sl. 9.45—Kristján IX. fæddur 1818 |
| F | 9 | Skírdagur—Kr. Jónsson skáld d. 1869 |
| F | 10 | ☺Fult 6.59 f. m.—Föstudagurinn langi |
| L | 11 | 25. vika vetrar |

*Krists upprisa, Mark. 16.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 12 | Páskadagur |
| Þ | 13 | |
| M | 14 | |
| M | 15 | su. 5.15, sl. 6.56.—Abraham Lincoln skotinn 1865 |
| F | 16 | Maguúsmessa (Eyjajarls h.f.) |
| F | 17 | Franklín dáinn 1790—☽Síð. kv. 1.23 f. m. |
| L | 18 | Sumarmál af 26. vikur vetrar |

*Jesús kom að luktum dyrum, Jóh. 20.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 19 | 1. s. e. páska—Melankton dáinn 1560 |
| M | 20 | Darvin d. 1882 |
| Þ | 21 | |
| M | 22 | su. 4.15, sl. 7.07 |
| | | HARPA |
| F | 23 | Sumardagur fyrsti—Jónsmessa(Hólab.h.s.) 1.v.s |
| F | 24 | Daniel Defoe d. 1731 |
| L | 25 | Oliver Cromwell f. 1599—● Nýtt 4.53 f. m. |

*Jesús er góði hirðirinn, Jóh. 10.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 26 | 2. s. e. páska—Þrælastríðið hætti 1865 |
| M | 27 | |
| Þ | 28 | |
| M | 29 | Krímstríðið hætti 1856—su. 4.38, sl. 5.18 |
| F | 30 | 2. v. sumars |

# MAÍ hefir 31 dag 1914

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | HARPA |
| F | 1 | Tveggja postula messa | |
| L | 2 | Karl Linné f. 1707 | |

*Krists burtför til föðursins, Jóh. 16.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 3 | 3. s. e. páska—Krossm. á vori ☾ F kv. 0.01 f.m. | |
| M | 4 | | |
| Þ | 5 | Napóleon Bonaparte dáinn 1821 | |
| M | 6 | s.u. 4.25, sl. 7.28 | |
| F | 7 | | 3. v. sumars |
| F | 8 | John Stuart Mill dáinn 1873 | |
| L | 9 | ☺F. 3.02 e.m. | |

*Sending heilags anda, Jóh. 16.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 10 | 4 s e páska—Helgavika—Eldaskildagi | |
| M | 11 | | |
| Þ | 12 | John Herschel d. 1871 | |
| M | 13 | s.u. 4.16 sl. 7.38 | |
| F | 14 | Vinnuhjúaskild. | 4. vika. sumars |
| F | 15 | Hallvarðsmessa—P. biskup Pétursson d. 1891 | |
| L | 16 | ☽ S.kv.3.43 e.m. | |

*Biðjið í Jesú nafni, Jóh. 16.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 17 | 5 s e píska--Þrenningarhát.-T.Sæmundss.d.1814 | |
| M | 18 | | |
| Þ | 19 | Gladstone dálnn 1898 | |
| M | 20 | su.4.05, sl.7.49—Chr.Col.d.1506 | |
| F | 21 | Uppstigningardagur | 5. v. sumars |
| F | 22 | Dýrid.—Sæmundur fróði d. 1133 | SKERPLA |
| L | 23 | | |

*Þegar huggarinn kemur, Jóh. 15.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 24 | 6. s. e. páska—Vict.drotning f 1819 ● N 8.06e.m | |
| M | 25 | Úrbanusmessa | |
| Þ | 26 | Jónas Hallgrímsson dáinn 1845 | |
| M | 27 | su.3.58, sl.7.58—Calv.d.1564 | |
| F | 28 | | 6. v. sumars |
| F | 29 | Gísli Brynjólfsson d. 1888 | |
| L | 30 | Eggert Ólafsson d. 1768 | |

*Hver mig elskar, Jóh. 14.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 31 | Hvítasunnud—Jón Guðmundsson, ritstj. d. 1875 | |

# JÚNÍ hefir 30 daga 1914

SKERPLA

| | | |
|---|---|---|
| M | 1 | ☾ Fyrsta kv. 7.34f. m. |
| Þ | 2 | Garibaldi dáinn 1883 |
| M | 3 | su. 3.52, sl. 8.05—Haukur Erlendsson d. 1334 |
| F | 4 | 7. v. sumars |
| F | 5 | |
| L | 6 | Alexander mikli dáinn 356 f. Kr. |

*Kristur og Nikódemus, Jóh. 3.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 7 | Trinitatish—Tómas Sæmunds f 1807 ☺F 10.40e. |
| M | 8 | Jón Hjaltalín, landlæknir dáinn 1870 |
| Þ | 9 | Charles Dickens dáinn 1870 |
| M | 10 | su. 3.50, sl. 8.09 |
| F | 11 | 8. v. sumars |
| F | 12 | W. C. Bryant dáinn 1878 |
| L | 13 | Jón Sveinsson, landlæknir dáinn 1803 |

*Hinn auðugí maðar, Lúk. 16.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 14 | 1. s. e. trin.—Sigurður Melsted, lektor d. 1897 |
| M | 15 | ☽ Síð. kv. 7.51 f.m. |
| Þ | 16 | |
| M | 17 | su. 3.49, sl. 8.13—Jón Sigurðsson f. 1811 |
| F | 18 | 9. v. sumars |
| F | 19 | |
| L | 20 | |

*Hin mikla kvöldmáltíð, Lúk. 14.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 21 | 2. s. e. trin.---Kristján Jónsson, skáld f. 1843. |
| M | 22 | Sólstöður; lengstur dagur. SÓLMANUDUR |
| Þ | 23 | ● Nýtt 1.28 e. m. |
| M | 24 | su.3.51, sl.8.14---Jónsm.---Kristni lögt.á Ísl.1000 |
| F | 25 | Ágsborgarjátningin 1530 10. v. sum. |
| F | 26 | Jón alþm. á Gautl. d 1889 |
| L | 27 | |

*Hinn týndi sauður, Lúk. 15.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 28 | 3. s. e. trin.---Victoria drotning krýnd 1838 |
| M | 29 | Pétursmessa og Páls. |
| Þ | 30 | ☾F kv 10.55 e m |

# JÚLÍ hefir 31 dag 1914

Sólmanudur

| | | |
|---|---|---|
| M | 1 | Dominiondagur--su. 4.39, sl. 8. 4 |
| F | 2 | Þingmaríum.---Sviðhúnsm. h.f. 11. v. sum. |
| F | 3 | |
| L | 4 | Frelsisdagur Bandaríkjanna (1776) |

*Verið miskunnsamir, Lúk. 6.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 5 | 4. s. e. trin. |
| M | 6 | |
| Þ | 7 | ☺Fult 7.31 f. m. |
| M | 8 | s.u. 4.01, sl. 8.10 Seljumannamessa |
| F | 9 | 12. v. sumars |
| F | 10 | |
| L | 11 | |

*Jesús kennir af skipi, Lúk. 5.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 12 | 5. s. e. trin.—Julius Cæsar f. 100 f. Kr. |
| M | 13 | Margrétarmessa |
| Þ | 14 | |
| M | 15 | su.4.06, sl. 8.04---☽S.kv.1.03 f.m.---Sviðh.m.h.s. |
| F | 16 | [Krossfar. tóku Jerús. (1099) 13. v. sum. |
| F | 17 | |
| L | 18 | |

*Réttlœti Faríseanna, Matt. 5.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 19 | 6. s. e. trin. |
| M | 20 | Þorláksmessa (á sumri) |
| Þ | 21 | Robert Burns dáinn 1796 |
| M | 22 | su. 4.15, sl. 7.55---●N.8.09 e.m.---Hundad.byrja |
| F | 23 | [Aukanætur 14. v. sumars |
| F | 24 | |
| L | 25 | Jakobsmessa |

*Jesús mettar 4000 manna, Mark. 8.*

| | | |
|---|---|---|
| S | 26 | 7. s. e. trin. Heyannir |
| M | 27 | Atlantshafs-ritsíminn fullgerður 1866 |
| Þ | 28 | |
| M | 29 | su. 4.27, sl. 7.44--Ólafsm. h.f.---☾F.kv.5.22 e.m. |
| F | 30 | William Penn d. 1718---Bismark d. 1898 15.v.s. |
| F | 31 | |

# ÁGUST hefir 31 dag 1914

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | HEYANNIR |
| L | 1 | Bandadagur---Jón Espólín d. 1836 | |
| | | *Um falsspámenn, Matt. 7.* | |
| S | 2 | 8. s. e. trin.---Ben. Sveinsson, sýslum. d. 1899 | |
| M | 3 | Ólafsmessa h. s. | |
| Þ | 4 | H. C. Anderson d. 1875 | |
| M | 5 | su.4.35, sl.7.35---☺F.6.12 e.m.---Br. Sveinsson, | |
| F | 6 | [biskup d.1675--Krists dýrð | 16. v. sumars |
| F | 7 | | |
| L | 8 | Canning d. 1827 | |
| | | *Hinn rangláti ráðsmaður, Lúk. 16.* | |
| S | 9 | 9. s. e. trin.---Capt. Marryat d. 1818 | |
| M | 10 | Larentiusarmessa | |
| Þ | 11 | | |
| M | 12 | su. 4.46, sl. 7.24 | |
| F | 13 | Bóluhj. d.1876—☽S.kv.6.27 e.m. | 17. v. sum. |
| F | 14 | Napóleon 1. d. 1769 | |
| L | 15 | Maríumessa h. f. | |
| | | *Jesús grætur yfir Jerúsalem, Lúk. 19.* | |
| S | 16 | 10. s. e. trin. | |
| M | 17 | Sveinbjörn Eyjólfsson dáinn 1852. | |
| Þ | 18 | | |
| M | 19 | su. 4.56, sl. 7.0---Gestur Pálsson dáinn 1891 | |
| F | 20 | | 18. v. sumars |
| F | 21 | ●Nýtt 5.57 f. m. | |
| L | 22 | | |
| | | *Faríseinn og tollheimtumaðurinn, Lúk. 18.* | |
| S | 23 | 11. s. e. trin.---Hundadagar enda | |
| M | 24 | B.Thor.d.1841 | TVÍMANUDUR |
| Þ | 25 | | |
| M | 26 | su. 5.07, sl. 6.56 | |
| F | 27 | Ágústin d.430---☾F.kv.10.23 e.m. | 19. v. s. |
| F | 28 | | |
| L | 29 | Höfuðd.---Jóh. skír. hálsh. | |
| | | *Sá hinn daufi og málhalti, Mark. 7.* | |
| S | 30 | 12. s. e. trín.—Jón b. Víðalín. d. 1720 | |
| M | 31 | | |

## SEPTEMBER hefir 30 daga 1914

TVÍMANUDUR

Þ 1
M 2 su. 5.19, sl. 6.41—Grundtvig d. 1872
F 3 Cromwell d. 1658 20. v. sumars
F 4 Franska lýveldið 1870—☺ F 7.32 f. m.
L 5

*Samarítinn og Levítinn, Lúk. 10.*

S 6 13. s. e. trín.—McKinley forseti skotinn 1901
M 7
Þ 8 Maríumessa—Jerúsalem hertekin 70
M 9 su. 5.28, sl. 6.26.—Svoldarorusta 1000. Fall Ólafs
F 10 [Tryggvasonar 21. v. sumars
F 11
L 12 Bard. við Quebec. Fall Wolfe hersh. 1759 ☽ 11.17 f

*Tíu líkþráir, Lúk. 17.*

S 13 14. s. e. trín.—Bretar taka Quebec 1759
M 14 Wellington d. 1852
Þ 15
M 16 su. 5.38, sl. 6.11—Moscow-borg brend 1812
F 17 Imbrudagar—Sæluvika 22. v. sumars
F 18
L 19 ● Nýtt 3.04 e. m.

*Enginn kann tveimur herrum að þjóna, Matt. 6.*

S 20 15. s. e. trín.—Walter Scott d. 1832
M 21
Þ 22
M 23 su. 5.50, sl. 5.55—Jafnd. á hausti—Snorri Sturlu-
[son veginn 1241. HAUSTMANUDUR
F 24 23 v. sumars
F 25 Björn Gunnlaugsson f. 1788
L 26 ☾ F kv 5.34 f m

*Ekkjunnar sonur af Nain, Lúk. 7.*

S 27 16. s. e. trín.
M 28 L. Pasteur d. 1895
Þ 29 Mikaelsmessa
M 30 su. 6.00, sl. 5.39

# OKTOBER hefir 31 dag 1914

| | | | |
|---|---|---|---|
| | | | HAUSTMANUDUR |
| F | 1 | | 24. v. sumars |
| F | 2 | | |
| L | 3 | Pétur Pétursson biskup f. 1787—🌕 F. 11.30 e. m. | |

*Vatnssjúki maðurinn, Lúk. 14.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 4 | 17. s. e. trin. | |
| M | 5 | | |
| Þ | 6 | Eldadagar | |
| M | 7 | su. 6.11, sl. 5.25—Edgar Poe d. 1849 | |
| F | 8 | | 25. v. sumars |
| F | 9 | Chicago brann 1871 | |
| L | 10 | | |

*Hvers son er Kristur? Matt, 22.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 11 | 18. s. e. trín. | |
| M | 12 | Columbus fann Ameríku 1492—☽ S. kv. 3.04 f. m. | |
| Þ | 13 | | |
| M | 14 | su. 6.25, sl. 5.10—Kalixtusmessa | |
| F | 15 | Gregoriska tímatalið innleitt 1582 | 26. v. sumars |
| F | 16 | | |
| L | 17 | | |

*Limafallssjúki maðurinn, Matt. 9.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 18 | 19. s. e. trin.-Lúkasm.-Brynjólfur Péturss. d. 1851 | |
| M | 19 | Jónatan Swift d. 1794—🌑 N. 0.04 f. m. | |
| Þ | 20 | Síra Jón Þorláksson d. 1819 | |
| M | 21 | su. 6.33, sl. 4.50 | |
| F | 22 | | Veturnætur af 27. v. sumars |
| F | 23 | W. Penn steig á land í Ameríku 1681 | |
| | | | GORMANUDUR |
| L | 24 | Fyrsti vetrardagur | 1. v. vetrar |

*Brúðkaupsklæðin, Matt. 22.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 25 | 20. s. e. trín.—☾ F. kv. 4.15 e. m. | |
| M | 26 | | |
| Þ | 27 | Síra Hallgrímur Pétursson dáinn 1674 | |
| M | 28 | su. 6.44, sl. 4.42 | |
| F | 29 | | |
| F | 30 | | |
| L | 31 | Reformation Lúters 1517 | 2. v. vetrar |

NÓVEMBER hefir 30 dag 1914

GORMANUÐUR

*Jesús predikar um sœlu, Matt. 5.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 1 | 21. s. e. trín.—Allra heilagra messa | |
| M | 2 | Jenny Lind d. 1887—🌕 F. 5.20 e. m. | |
| Þ | 3 | Fall Gustavs Adolfs 1632 | |
| M | 4 | su. 6.57, sl. 4.30 | |
| F | 5 | | |
| F | 6 | | |
| L | 7 | Jón Arason og synir hans hálshögnir 1550 | 3. v. v. |

*Tíu þúsundir punda, Matt. 18.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 8 | 22. s. e. trín.—Milton d. 1674 | |
| M | 9 | Skúli Magnússon d. 1794 | |
| Þ | 10 | Lúter f. 1483—☾ Síð. kv. 5.07 e. m. | |
| M | 11 | su. 8.08, sl. 4.20—Marteinsmessa | |
| F | 12 | | |
| F | 13 | Árni Magnússon f. 1663 | |
| L | 14 | Rasmus Kristján Rask d. 1832 | 4. v. vetrar |

*Skattpeningurinn, Matt. 22.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 15 | 23. s. e. trín. | |
| M | 16 | Jónas Hallgrímsson f. 1807 | |
| Þ | 17 | Suez skurðurinn oppnaður 1869—🌑 N. 9.35 f.m. | |
| M | 18 | su. 7.19, sl. 4.13 | |
| F | 19 | | |
| F | 20 | | |
| L | 21 | Maríumessa | 5. v. vetrar |

*Blóðfallssjúka konan, Matt. 9.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 22 | 24. s. e. trín | |
| M | 23 | | |
| | | | YLIR |
| Þ | 24 | ☽ F. kv. 7.10 f. m. | |
| M | 25 | su. 7.30, sl. 4.05. | |
| F | 26 | | |
| F | 27 | Grímur Thomsen d. 1896 | |
| L | 28 | Washington Irving d. 1850 | 6. v. vetrar |

*Krists innreið í Jerúsalem, Matt. 21.*

| | | | |
|---|---|---|---|
| S | 29 | 1. s. í jólaföstu—Aðventa | |
| M | 30 | | |

# DESEMBER hefir 31 dag 1914

YLIR

Þ 1 | Eggert Ólafsson f. 1726—Eligiusmessa.
M 2 | su.7.40, sl.4.00—Bard. við Austerlitz 1865—☺F
F 3 | [11.52 f.m.
F 4 |
L 5 | Mozart d. 1791 7. v. vetrar

*Teikn á sól og tungli, Lúk. 21.*

S 6 | 2. s. í jólaföstu—Nikulásmessa
M 7 | Jón Sigurðsson dáinn 1879
Þ 8 | Maríumessa—Getnaðard. Maríu lögt. á Ísl. 1364
M 9 | su. 7.48, sl. 3.58
F 10 | ☾ Síð. kv. 5.03 f. m.
F 11 |
L 12 | Skúli Magnússon, landfógeti f. 1711 8. v. vetrar

*Jóhannes í böndum, Matt. 11.*

S 13 | 3. s. í jólaföstu—Lúcíumessa
M 14 |
Þ 15 |
M 16 | su.7.54,sl.3.59-Imbrudagas-Sæluv.-●N.8.06 e.m
F 17 | Páll amtm. Briem d. 1904
F 18 |
L 19 | Björn prófastur Halldórsson d. 1882 9. v. vetrar

*Vitnisburður Jóhannesar skírara, Jóh. 1.*

S 20 | 4. s. í jólaföstu
M 21 | Tómasmessa
Þ 22 | Sólhvörf, skemstur dagur
M 23 | su. 7.56, sl. 4.01—Þorláksdagur

MÖRSUGUR

F 24 | Aðfangadagur—Nóttin helga—☺ F. 1,50 f. m.
F 25 | Jóladagur
L 26 | Annar í jólum 10. v. vetrar

*Símon og Anna, Lúk, 2.*

S 27 | S. milli jóla og nýárs
M 28 |
Þ 29 | Gladstone f. 1809
M 30 | su. 7.59, sl. 4.09—Bjarni Thorarensen f. 1786
F 31 | Gamlársdagur




WOODROW WILSON.

Almanak.

20 ár. Winnipeg 1914

# *WOODROW WILSON*

*Bandaríkja-forseti*

## *og stjórnmálahugsjónir hans.*

Eins og nú er ástatt, er tveim stjórnmálamönnum veitt meiri eftirtekt en nokkurum öðrum. Það eru þeir *Lloyd George*, fjármálaráðgjafi Breta, og *Woodrow Wilson*, forseti Bandaríkja. Þessu sinni vill *Almanakið* leitast við að fræða lesendur sína um hinn síðarnefnda, með því hann mun þeim öllu síður kunnur.

1.

*Fáein æfiatriði Wilsons.*

Woodrow Wilson er fæddur 28. des. 1856 í Staunton, Virginía. Faðir hans var *Joseph R. Wilson*, prestur í kirkjudeild presbytéra og guðfræðikennari. Hann útskrifaðist frá *Princeton*-skóla 1879. Tók hann þá að lesa lög við háskólann í Virginía og gegndi lögmannsstörfum í *Atlanta, Georgia*, 1882—3. Árið 1886 varð hann doktor í heimspeki við Johns Hopkins háskólann, fyrir ritgerð um *stjórn sambandsþingsins*[1]. Hann var aðstoðarkennari í sögu og þjóðmegunarfræði 1885—88 við *Bryn Mawr* háskóla, og

1) *Congressional Government* 1885. Hefir oft verið gefin út síðan.

1889—90 við *Wesley*-háskóla. Árin 1890—1902 var hann kennari í lögfræði og stjórnvísi í Princeton. Hann var gerður forseti þess skóla 1. ágúst 1902. Var hann fyrsti leikmaður, er settur hafði verið í þá stöðu. Þessarri trúnaðarstöðu sagði hann upp 20. okt 1910. Og í nóvembermánuði var hann kosinn ríkisstjóri í New Jersey. Mikla eftirtekt hafði hann vakið meðan hann var háskólastjóri. Því hann leitaðist við að laga skólann sem mest eftir lýðstjórnarhugmyndum, með því að afnema ýms félög í efri deildum skólans, þar sem einungis auðmannasynir áttu aðgang. Urðu heilmargir auðmenn, er útskrifast höfðu þaðan í æsku, honum mjög andvígir fyrir bragðið.

Snemma á æfinni tók Wilson að gefa sig við ritstörfum. Hann var ekki nema 22 ára gamall, þegar hann hafði látið birtast ritgerðir í tímariti einu[1]), þar sem hann lagði fram aðal-hugsanirnar, er hann síðar kom fram með í doktors ritgerð sinni. Bók hans um *ríkið*[2]) varð þegar í miklu áliti. Hann reit bók um sögu Bandaríkja[3]), sem út kom 1893, og aðra stutta Bandaríkjasögu. Tvö bindi af ritgerðum um bókmentaleg efni birtust eftir hann sama árið[4]). Hann reit ágæta æfisögu *Washingtons* 1896[5]), og enn eitt bindi af sögu Bandaríkja við alþýðu hæfi[6]). Árið 1908 birtust eftir hann fyrirlestrar um stjórnarskipan Bandaríkjanna samkvæmt grundvallarlögum[7]).

Af þessu er auðsætt, hvílíkur starfsmaður Wilson hefir verið. En einkum er það eftirtektavert, hve

---

1) *International Review* 1879.

2) *The State:* Elements of Historical and Practical Politics, Sketch of Institutional History and Administration 1889.

3) *Division and Reunion* 1829—1889.

4) *An Old Master* og *Mere Literature.*

5) *George Washington, A Biography,*

6) *History of the American People* 1902.

7) *Constitutional Government in the United States,* 1908.

hugurinn hefir eindregið hneigst að stjórnmálum, frá því er hann fyrst tók að hugsa og rita. Það er vísindablær yfir bókum hans öllum og auðsætt, að hér er maður með óvenju mikla þekkingu á þeim hlutum, sem hann ritar um, og óvenjulega glöggan skilning. Hann grefur niður fyrir rætur hlutanna, enda hefir honum oft verið borið það á brýn, að hann rífi upp með rótum hitt og þetta, er unnið hafi langa hefðarhelgi. En ef það er að hans hyggju í veginum fyrir öðrum affarasælli gróðri, hefir honum ávalt fundist sjálfsagt að láta það víkja. Hann hefir verið ótrauður að segja álit sitt í hverjum hlut, og aldrei virzt um það hugsa, þótt það bryti bág við álit annarra.

Eins og áður var sagt, var Wilson kosinn ríkisstjóri í New Jersey 1910. Kom hann þar á mörgum umbótum í löggjöf ríkisins. En einkum þótti það afreksverk mikið, að hann vann bug á „vélinni" (*the machine)* í flokki sérveldismanna. En svo eru samtök einstaklinga innan einhvers stjórnmálaflokks nefnd, sem gerð eru í því skyni, að þeir einir ráði öllu.

2.

*Wilson kosinn forseti Bandaríkja 1912.*

Kosningabaráttan í Bandaríkjum 1912, var að mörgu leyti á annan veg, en menn hafa átt að venjast. Með sérveldismönnum hafði *Bryan* lengi verið foringinn og merkisberinn við kosningarnar. En eins og kunnugt er, klofnaði flokkur samveldismanna á tilnefningarþinginu. Taft var forsetaefni þess hluta samveldismanna, er öllu vildu halda í sama horfinu. En Roosevelt merkisberi framfaramannanna—*The Progressives.* Hver flokkanna fyrir sig hafði sína sérstöku stefnuskrá. Býsna mörg atriði voru þau sömu í þeim öllum, eins og til dæmis umbætur á réttarfari landsins, böglasendingar með póstum í stórum stíl, og her-

skipastóll nægilega mikill. En stefnuskrá hinna gömlu samveldismanna var lang-íhaldsömust. Hún lagði að venju áherzlu á verndunartolla, til að styðja iðnað landsins. Í ræðu þeirri, er Taft flutti, er hann tók á móti kosningu, hélt hann því fram :. Að varðveita lýðstjórnar skipulag með óháðu dómsvaldi, og aukning umsýslu með frjálsri peningaveltu. — Sérveldismenn lögðu áherzlu á sína gömlu kenningu um sérveldi hvers ríkis, að sami maður sæti ekki i forsetaembætti, nema um eitt kjörtímabil, afnám verndunartolla, ákveðna löggjöf gegn auðfélögum, sem óháð væri skýringum dómstólanna. — Framsóknarvængurinn af flokki samveldismanna *(Progressives)* lagði mesta áherzlu á mannfélagsmál til almennings heilla og réttlæti í iðnaðarmálum, umbætur í réttarfari og dómsmálaskipan, heilbrigðisráðstafanir fyrir verkalýðinn, bann gegn vinnu barna og næturvinnu kvenna. Auðfélögin vildu þeir láta standa undir eftirliti nefndar, er skipuð væri af stjórninni. Og atkvæðisrétt kvenna settu þeir á stefnuskrá sína.

Af því flokkarnir voru þrír, varð hver um sig að verjast hinum tveimur. Hinir gömlu samveldismenn voru fremur óhepnir í meðferð mála, enda var fremur vonlítið fyrir þá, þegar í byrjan. Þeir sneru sér einkum til íhaldsmanna með þjóðinni, og reyndu að sýna fram á, að stefna Roosevelts og þeirra, er honum fylgdi, yrði til að kollvarpa þeim stofnunum þjóðarinnar, er dýrmætastar hefði reynst.

Sérveldismenn lögðu alla aðal-áherzluna á böl verndunartollanna, og álitu það orsök hins stórspilta bandalags milli fésýslu og stjórnmála. Sigur þeirra við kosningarnar varð jafnvel meiri en menn höfðu búist við, þrátt fyrir það, að flokkur samveldismanna var klofinn. Taft fekk meiri hluta að eins í tveim ríkjum, Utah og Vermont, og 8 atkvæði kjörnefndarinnar. Roosevelt varð sigursælli í sex ríkjum, og á-

vann sér um leið 88 atkvæði kjörnefndarinnar. Öll hin ríkin kusu Wilson, og gáfu honum 435 kjörnefndaratkvæði. Þó nú sigur þessi væri mikill, virðist hann stafa mest af klofningnum í flokki samveldismanna. Wilson hlaut tveim miljónum fleiri atkvæði en Roosevelt, en samt fekk hann ekki meiri hluta allra atkvæða. Báðar deildir sambandsþingsins eru á bandi sérveldismanna, en meiri hlutinn í senatinu lítill. Í fulltrúadeildinni eru nákvæmlega tveir þriðju sérveldismenn. Wilson var settur inn í forseta-embættið 4. marz 1913.

3.

*Hið nýja frelsi.*

Til þess var tekið, hve vel Wilson hefði látið sér takast að tala um velferðarmál þjóðarinnar í ræðum sínum og fyrirlestrum á undan kosningum. Engum duldist það þá, að hann var að flytja hugmyndir, sem ekki höfðu komið upp í huga hans í gær, heldur hugmyndir, sem hann lengi var búinn að velta í huga sér, þaul-hugsa og rita heilar bækur um. Menn urðu hvarvetna varir við, að hér höfðu menn fyrir sér lærðan mann. Enda var talað um hann um þvert og endilangt landið sem stjórnmálamanninn lærða — *the scholar in politics.* Menn höfðu ekki átt því að venjast. Flestir forsetar Bandaríkjanna hafa verið ólærðir alþýðumenn. Það hefir verið litið svo á, að svo þyrfti forsetaefnin að vera, til þess að vinna sér traust lýðsins. En Wilson er maður óbrotinn og blátt áfram, þó lærður sé, sannur sonur lýðveldisins að því leyti. Þekkingarhroki er ekki til hjá honum, til þess er hann of mikill maður. En hann tók fólkið á kné sér eins og góður kennari í skóla. Hann talaði beint út úr hjarta sínu um þá hluti, sem honum virtust úr lagi komnir með þjóðinni, og sagði svo álit sitt um, á hvern hátt að komast mætti út úr ógöngunum.

Bók kom út eftir kosningarnar undir nafni hans. Hún nefndist: Hið nýja frelsi.[1] Það eru ræður hans, hinar helztu, í samandreginni mynd, þær er hann flutti í kosningarbaráttunni. Ræður þessar voru allar fluttar, án þess hann hefði hugsað um annað en efnið fyrirfram. En þær voru ritaðar upp eftir honum af hraðriturum hvert skifti og birtust í blöðunum. Einn af vinum Wilsons, *William Bayard Hale,* hefir stytt þær, þrýst þeim saman, tekið þær hugsanirnar, sem honum fundust hafa mest gildi og gefið út í bók þessarri, sem Wilson sjálfur hefir séð áður en prentuð var, en látið óbreytta. Málið sem á henni er verður þess vegna fremur daglegt samræðumál, heldur en vanalegt bókmál. En einmitt þetta gerir hana einkennilega og hugnæma. Og víst er um það, að þeir sem skilja vilja þá viðburði, sem nú eru að gerast í hinu mikla lýðveldi, ætti að lesa þessa bók, enda hefir hver maður gott af að tileinka sér efni hennar. Í henni eru hugmyndir Wilsons um stjórnarfarið í landinu. Þær eru hugmyndir hans að svo miklu leyti, sem hann hefir gerst fulltrúi þeirra. En eiginlega eru það hugmyndir, sem heyra til heilli flóðöldu, sem lengi hefir verið að rísa upp á því mikla mannfélags hafi. Hann siglir á öldutoppinum, sem lyftir honum svo hátt í bili, að hann ber við himin. Hreyfingarnar þögulu og umbrotin í öldudjúpinu brjótast út í mælskum, en látlausum orðum á vörum hans. Það hlýtur að vera ómaksins vert að gera sér ljóst, hvaða hugmyndir það eru, sem slíkur maður er að flytja þjóð sinni.

## 4.
## *Hið gamla skipulag breytist.*

Eitt atriði liggur til grundvallar öllum ágreinings-

---

1) Woodrow Vilson: *The New Freedom,* A call for the Emancipation of the Generous Energies of a People, 1913, — 294 bls.

umræðum í stjórnmálum. Enginn hlutur er gerður nú í dag eins og átti sér stað fyrir tuttugu árum. Lífið í Bandaríkjum er ekki eins og það var fyrir tuttugu árum, né heldur eins og það var fyrir tíu. Hagsmunalegar ástæður hafa breyzt og skipulag lífsins tekið nýjum stakkaskiftum. Atriði, sem sett voru í stefnuskrá flokkanna fyrir tíu árum, eru öldungis úrelt nú. Mannfélagsskipulagið verðum vér að laga eftir velferðar og hagsældarkröfum fjöldans. Ný samtök og alls konar sambönd hafa hlaðist upp eins og hár veggur. Ný þjóð hefir skapast. Og gömlu fötin fara henni illa.

Umsýslan er með öðrum hætti en áður[1]). Það var sú tíð, að um auðfélög var ekki að tala. Nú eru þau aðal-atriðið. Áður ráku menn sig á einstaklinginn í allri umsýslu. Nú er einstaklingurinn horfinn. Nú eru allir þjónar einhvers auðfélags. Þó þú viljir, getur þú nú ekki náð fundi þess, sem stefnu auðfélagsins ræður. Þú verður að þjóna í blindni. Áður voru það einstaklingarnir, sem áttust við. Nú eru þao geisistór félög, sem alla umsýslu reka. Sú löggjöf, sem vér lifum undir um vinnulýð og verkgefanda, eru öll til orðin í gamalli tíð, og þess vegna úrelt og óhæf. Verkgefandinn er nú sálarlaust umsýslufélag. Erindrekar félaga þessarra hafa hrúgað saman fólki hundruðum og þúsundum saman. Enginn verður nokkuru sinni var við húsbónda sinn, heldur að eins við ráðsmanninn, erindrekann. Verkgefandinn er heill hópur voldugra manna nú á dögum, en ekki einstaklingur. En daglaunamaðurinn heldur áfram að vera einstaklingur eftir skoðan laganna. Það er alt annað en áður var. Þá umgengust húsbóndi og vinnumaður daglega hver annan. Enginn sér umsýslufélag fremur en menn sjá landsstjórnina.

---

1) *The Old Order Changeth.*

Ranglætið, sem nú á sér stað, er sjaldnast einstaklingi að kenna. Þeir eru ekki svo sérlega margir, sem leika sér að hafa það í frammi. Það er mannfélagsskipulagið, sem er sálarlaust. Löggilt félag er myndað. Fjöldi manns gerist hluthafar. Stjórnendur eru kosnir. Forseti er kosinn af þeim eða úr hópi þeirra. Eiga nú starfsmenn félagsins við forsetann? Á almenningur við hann? Er hægt að koma fram ábyrgð á hendur honum? Nei, afar-erfitt. Setjum svo, að verkstjóri skipi vinnumanni að nota vél, sem er hættuleg og óhæf, og hann verði fyrir meiðslum. Hann getur oftast nær engri ábyrgð fram komið á hendur verkstjóra, því dómstólarnir segja, að þeir sé báðir vinnumenn og sá, sem meiðir sig, fær engar skaðabætur. Hverjum er um að kenna? Skipaði stjórnarnefndin fyrir um notkan vélarinnar? Síður en svo. Og enn síður formaður félagsins. Þess vegna fá engir skaðabætur.

Hér í þessu frjálsa landi er nú svo komið, að allir eru hræddir um sig, hræddir við eitthvert vald, sem þeir eigi kunna að nefna, einhvern mátt, sem þá og þegar getur lagt þá undir. Iðnaðurinn er ekki frjáls eins og hann eitt sinn var. Menn eru ekki lengur frjálsir að fyrirtækjum sínum. Þeim sem lítinn höfuðstól hefir veitir erfiðara og erfiðara í samkepninni við fjárdólginn. Hvers vegna? Af því landslögin banna eigi hinum sterka að murka lífið úr þeim, sem er minnimáttar. Hér þurfa lög til að vernda þá, sem eru að verða menn, en ekki hina, sem þegar eru orðnir það. Miðstéttirnar hafa alls nægtir og líður vel. En það sem varhugaverðast er, er þetta, að þær eru hættar að skapa velmegan. Engin þjóð má eiga velmegan sína undir fámennri valdsstétt. Velmegan landsins má ekki liggja í höndum hinna fáu, sem hana hafa eignast. Hún á að spretta upp af hyggjuviti og metn-

aði óþektra manna, sem eiga eftir að afla sér frægðar og frama.

Því miður hefir sú óhæfa smeygt sér inn, að fáeinir menn fá vald yfir stjórninni, til að afla sér alls konar hlunninda. Þetta hlunninda-net hefir verið þanið út yfir hvert iðnaðar-fyrirtæki landsins. Nú er svo komið, að ófært þykir að byrja nokkurt fyrirtæki, nema með því að afla sér góðvildar sameinuðu auðmannanna. Er þetta frelsi? Sú var tíðin, að stjórninni var nóg að fara í einkennisbúning lögreglumanna og segja: Nú má enginn gera öðrum nokkurt mein. Bezta stjórnaraðferðin þótti sú, að stjórna sem allraminst. En nú verður ný löggjöf að skapa ný skilyrði, ef lífið á að verða okkur bærilegt. Áður var það svo í landi þessu, að hver fjölskylda átti húsið, sem hún bjó í, og landblettinn, sem það stóð á. Hver fjölskylda bjó út af fyrir sig. En nú er búið í marghólfuðum stórhýsum, marg-lyftum, á fletjum og gólfum, sem upp er hlaðið eins og spilahúsum. Í sumum Norðurálfubæjum, eins og t. d. Glasgow, eru gangarnir í slíkum stórhýsum skoðaðir sem alfaravegur, stræti, þjóðbraut, þar sem löggæzlumenn ganga fram og aftur, og borgin sér um nóga birtu. Miljónafélögunum má líkja við slík marghólfuð stórhýsi. En ljósið má ekki vanta í göngunum og ekki löggæzlumenn. Það eru til borgir, sem er svo illa stjórnað, að þjóðinni er til stór-vanza. Þar eru samningar gerðir við auðmenn og einkaréttur fenginn þeim í hendur, sem drepa niður velferð almennings og hagsmunum. Einkum er þetta í stórborgunum. Sú tilfinning fer vaxandi, að almenningur fái ekki að ráða málum sínum sjálfur. Menn segja: ,,Við greiðum atkvæði. Okkur er boðin sú stefnuskrá, sem við heimtum, við kjósum mennina, sem halda ræðurnar og gefa loforðin. en við fáum alls ekki neitt. Til hvers er að greiða atkvæði? Sömu mennirnir styðja *vélarnar* í báðum

flokkum með fjárburði og þess vegna jafn-árangurslaust að snúa sér í báðar áttir. Samvizkulaus maður með mælska tungu gæti komið landinu í bál og brand. Er það ekki á allra vitund frá einu landshorni til annars, að eitthvað er stórkostlega rangt?

Hið gamla er að breytast fyrir augum vorum. Nokkur hiti og hávaði fylgir. Það þarf að rífa niður og reisa af nýju. Við stöndum augliti tll auglitis við byltingu, ekki blóðuga, — Bandaríkin eru ekki gefin fyrir að úthella blóði,—en kyrláta byltingu. Vér þurfum nú fremur en nokkuru sinni áður á stjórnvitringum og ættjarðarvinum að halda.

5.

*Í hverju eru framfarir fólgnar?*

Löggjöfin í landinu er orðin langt á eftir tímanum. Ástæður hafa breyzt, en lögin staðið í stað. Þau voru samin til að varðveita og ráða umsýslu einstaklinga. Þau tóku ekkert tillit til umsýlu auðfélaganna; hún var ekki til. Nú er svo komið, að stjórnin sem átti að vera í höndum fólksins, er komin í hendur stjórnmálahrottanna. Ósýnilegt. vald hefir hafið sig upp fyrir lýðveldið. Dettur nokkurum í hug að neita því, að stór-mikil óánægja á sér stað í landinu? Efast nokkur um, að hún sé á góðum og gildum rökum bygð? Annars vegar fjölgar jafnaðarmönnum um helming. Hins vegar er hrópað: Hróflið ekki við neinu; það er gott eins og það er; annars fer illa. Að standa kyr eins og nátt-tröll, — vera *stand-patter* — á nú að vera æðsta dygðin. En það er eðli Ameríku manna gagnstætt að standa grafkyrrir eins og nátttröll. Orðið framför lætur þeim vel í eyrum; það örvar hjartslátt þeirra fremur en önnur orð.

Suður í Florida eru mannræflar, sem ávalt líður illa. Þeir eru nefndir *ræflar* (crackers). ,,Vinur minn, sem var þar á ferð'', segir Wilson, ,,bað að

sýna sér ,ræfil'. Honum var svarað svo: ,Ef þú sér eitthvað mórautt í skóginum, eins og það væri trjástofn, þá getur þú vitað fyrir víst, að það er annaðhvort trjástofn eða *ræfill*. En ef það hreyfist, þá er það *trjástofn*[1])". Breyting er út af fyrir sig engin dygð. Sálarfræðingarnir segja, að ef eg myndi ekki hver eg var í gær, gæti eg ekki vitað hver eg er í dag. Að eg fæ gert grein fyrir sjálfum mér í dag, er vegna þess að eg get látið daginn í dag koma heim við daginn í gær. Komi þeir ekki heim hver við annan verð eg ruglaður og veit ekki hver eg er og verð að fara milli manna og spyrja þá, hvað eg heiti og hvaðan eg komi. Breytingin er engisverð ef hún er ekki til bóta. Flytji eg burt úr húsinu mínu, af því eg er óánægður með það, verð eg að fá mér betra hús eða reisa annað fullkomnara, ef tilbreytingin á að vera réttmæt. Öll framför er undir því komin, í hverja átt haldið er. ,,Þess vegna var eg vanur að segja, þegar eg hafði á hendi stjórn einnar af mentastofnunum landsins að mig langaði til, að hinir ungu menn nýju kynslóðarinnar yrði sem allra ólíkastir feðrum sínum. Ekki vegna þess, að feður þeirra skorti mannkosti eða gáfur eða þekkingu eða þjóðrækni, heldur vegna þess, að feður þeirra, sem þegar eru komnir á efri ár, höfðu fyrir löngu náð stöðu sinni í mannfélaginu, og kunnu nú ekki lengur að byrja, þeir voru hættir að klífa hærra, hættir að laga mannfélagið eftir hugmyndum sínum".

Framfarir! Hefir þér nokkuru sinni til hugar komið, að þetta væri nýtt orð? Í mörg þúsund ár hafa menn hugsað sér alt hið glæsilegasta að baki sér, — frægðina, framann og glæsimenskuna. ,,Á þeim tíma voru risar". Nú er þetta breytt, — gjörbreytt. Nú eigum við stöðugt hið glæsilegasta, dýrlegasta fram undan. Hið umliðna og hið nálæga er ekkert í

1) *What is Progress?*

samanburði við það. Framför — framþróan — þetta eru nútíma orð. Nú er hugmyndin sú, að hverfa frá hinu liðna, til að seilast eftir hinu nýja og ókomna. Hvernig eigum við að fara með hið liðna? Sýna því lítilsvirðing eða lotning? Grundvallarlögunum, löggjöfinni, dómstólunum? Við getum ekki slitið af oss hið liðna, við getum eigi ákveðið, hvernig líf vort verði að morgni, með því að taka nýtt pappírsblað og skrifa þar eitthvað. Við verðum að vefa hið nýja inn í hið gamla. Stærsti ávinningurinn í sambandi við að veita einni háskólastofnan forstöðu, fanst Wilson í því fólginn, að komast í kynni við hugsandi menn úr öllum áttum heims. Eitt sinn átti hann tal við lærðan Skota, sem einkum var frægur fyrir þekkingu sína á 17. öldinni. Hann sýndi fram á, að hver öld drægi alla hluti inn undir sín sjónarmið. Eftir að Newton fann þyngdarlögmálið, var um alt hugsað frá sjónarmiði þyngdarlögmálsins. Síðan Darwin var uppi, er um alt hugsað frá sjónarmiði kenningar hans, — sjónarmiði framþróunarinnar. Stjórnarskrá Bandaríkjanna var samin frá sjónarmiði þyngdarlögmálsins. Forsetinn, dómsvaldið, sambandsþingið er eins konar stæling sólkerfisins.

En stjórn er ekki eins og vél; hún er líf. Henni er ekki að líkja við himinhnettina, heldur við lífsheildina. Hún verður að gera reikning sinn við Darwin, en ekki við Newton. Stjórn er ekki hópur blindra afla. En hún er hópur manna með sömu ætlunarverk og sömu markmið. Stjórnarskipulagið verður að vera samkvæmt hugmyndum Darwins um lífið. Mannfélagið er lífsheild og verður að þroskast. Alt sem framfaramaðurinn krefst er fólgið í þessu, að hann hafi leyfi til að skýra stjórnarskrána frá sjónarmiði Darwins, — sjónarmiði framþróunarinnar. Fjöldi amerískra borgara hafa numið staðar við frelsis yfirlýsinguna, sem menn rituðu nöfn sín undir 4.

júlí 1776. Þeir eru fullir bræði við Georg III. En þeir hafa alls enga hugmynd um frelsisbaráttuna, sem verið er að heyja þann dag í dag. Velferðarmál vorra daga eru ekki nefnd þar á nafn. Við verðum að þýða frelsis-yfirlýsinguna á nútíðarmál, ef vér eigum ekki að vera ættlerar.

Hvers konar harðstjórn eigum vér nú í höggi við? Félög, sem náð hafa haldi á löggjöf og dómsvaldi til að auka eigin hagsmuni, en hnekkja hagsæld fólksins. Lögunum er beitt og gangi mála vorra stýrt auðfélögum í vil. Stjórnmálavélarnar ganga í bandalag við fjárbrögðin. Á þann hátt verður stjórnin ekki lýðstjórn, heldur fédólgastjórn. Úr greipum þessarrar argvítugu harðstjórnar erum við nú að rífa okkur. Það er komið skrið á. Nátt-tröllið *(the stand-patter)* veit ekki um neitt skrið. Það sefur lengst inni í helli. Þegar það vaknar, sér það engan; landið verður tómt. Heimurinn hefir ekki staðið í sömu sporum. Honum er gjarnt til að hvika. Hann skilur þá eftir, sem ekki vilja verða samferða.

Við verðum að klífa torsóttan veg, upp á örðugasta hjallann, þar sem stjórnmálaskúmarnir þagna og hver fær litið öðrum beint í augu, án þess að hafa nokkuru að leyna. Við höfum lofað því, að hér skyldi allir frjálsir, allir jafningjar, öllum skyldi sömu tækifærin gefin. Og nú verðum við að sanna, að sú hafi meiningin verið.

6.

*Frjálsir borgarar hafa engra fjárhaldsmanna þörf.*

Þeirri stjórnmálastefnu hefir verið haldið fram, að völdin ætti að vera í höndum þeirra, sem mest fé hafa í veltu. Alexander Hamilton kom fyrstur fram með þá kenningu. Hann var mikill heimspekingur, en ekki mikill Ameríkumaður. Lincoln neitaði þeirri kenningu. En stjórnmálaflokkurinn, sem tók við af

honum, og átti að hafa trúna á alþýðunni að grundvelli, gleymdi fljótt kenningum Lincolns, og áleit, að miklir fésýslumenn ætti að vera fjárhaldsmenn alþýðu. Fáeinir menn eigi að skapa hagsæld alþýðu. Stjórn Bandaríkja hefir verið lögð í hendur auðkýfinga og iðnrekenda Bandaríkja. Þessir góðviljuðu fulltrúar hafa tekið af oss stjórnarómökin. Yfir nöfnin þeirra gæti nærri hver maður samið lista. Sá sem fer til Washington veit, að ráðin eru sótt til bankamanna, verksmiðjueigenda, kaupmanna, formanna járnbrauta og eimskipafélaga. Þeir eru spurðir til ráða, og látnir skera úr, en ekki fólkið. Ætli stjórnin að gera eitthvað, fær hún það ekki. „Það má ekki með neinu móti. Það gjörir út af við alla velgengni“.[1] Hvar er velgengnin? Hjá okkur, segja þeir. Fólkið hefir staðið hjá og horft á, stundum þenna flokkinn, stundum hinn. Engir sérfræðingar eiga að leika *forsjón* fyrir luktum dyrum. Það er til sú forsjón, sem við eigum allir að lúta. En þetta er léleg forsjón. Fjárhaldsmenn eru óhæfa. Alþýða er enginn ómyndugur aumingi. Enginn einn veit, hvað bezt er fyrir alla. Alþjóð Bandaríkja ein veit hvað henni er fyrir beztu, — miklu betur en nokkur hópur manna. Þeir sem eru að reyna að brjótast áfram og koma fyrir sig fótum í umsýslu Bandaríkja, — það eru mennirnir sem vita, miklu fremur en hinir, sem í efstu riminni standa. Auðlegð seinni ára er ausin af uppsprettum einokunarinnar. Við þær uppsprettur sitja þeir, sem ekki vilja láta lýðinn ráða. Þeir voru 6 sem vildu ráða í *New Jersey*. Nú kannast sumir þeirra við, að betra var að hafa fleiri í ráðum. Vér eigum að hafa trú á vitsmunum og réttsýni fólksins. Hin mikla synd stjórnmálamannanna er, að skoða hlutina frá sínu eigin sjónarmiði, en eigi sjónarmiði heildar-

---

1) *Freemen Need no Guardians.*

innar, — fólksins. Byltingin, sem Lincoln tengdi nafn sitt við, var í því fólgin, að láta landinu vera stjórnað frá sjónarmiði alþýðu, ekki sjónarmiði sjálfkjörinna stjórnmálamanna. Hans líka þurfum við þann dag í dag. *Roosevelt* og *Taft* eru báðir ágætismenn, og hafa samúð við þjóðina. En þjóðmálahugsan þeirra er flækt í neti þeirra, sem skapað hafa verndartolla og auðfélög. Þess vegna vilja þeir ráða, en ekki láta þjóðina ráða. Stjórn landsins hefir verið í höndum mestu fésýslumanna. Þeir hafa myndað eins konar stjórnarnefnd. Forseti Bandaríkja hefir verið forseti slíkrar nefndar. En slíkt er engum boðlegt; það er óhæfa. Forseti Bandaríkja á að vera forseti þjóðarinnar. Taki forsetaefni við 100,000 dölum í kosningasjóð af einhverjum flokki manna, sem hafa sömu umsýslu og mikið í veltu, þarf ekki að ganga að því gruflandi, að ætlast er til, að munað sé eftir þeim, þegar tollur er ákveðinn. Sá sem tekur við slíku fé er fjötraður.

Leggið stjórnina aftur þjóðinni í hendur! Ameríka þolir enga fjárhaldsmenn. Hvernig er unt að lagfæra toll-löggjöfina þjóðinni í hag, meðan erindrekar einokunarinnar sitja að völdum í Washington? Eða fjármál landsins? Er unt að koma þeim í lag, meðan þeir sem við stjórnvölinn sitja spyrja bankamennina eina til ráða? Sömu einokunarhendurnar þenja sig ut yfir auðsuppspretturnar, sem fólgnar eru í skauti landsins. Sýnist ykkur að spyrja þá, sem þær krumlur eiga, hvað gera skuli?

7.

*Lífið rís úr moldu.*

Viðreisn þjóðanna kemur að neðan, ekki að ofan. Snillingarnir rísa upp úr múgnum, og blása nýju lífi í æsku og lífsþrótt þjóðanna. Hin sanna lífsspeki er saman ofin úr reynslu alþýðunnar. Það er með

mannkosti og lífsþrótt eins og safann í trjánum. Múgurinn óþekti er hreyfiafl og lyftistöng alls hins bezta, sem gerist með þjóðunum. Almúginn, sem framleiðir alla sanna leiðtoga og endurnýjar dug og dáð þjóðarinnar, á að stjórna Ameríku. Sá sem syndir mót straumi, getur bezt dæmt um straumþungann, — ekki sá sem stendur á bakkanum og horfir á, heldur hinn, sem er að berjast um í straumnum fyrir lífi sínu, — ekki sá sem orðinn er að manni, heldur hinn, sem langar til að verða að manni. Þessa menn þarf að spyrja — megin þjóðarinnar, miðlungsmennina. Flestir okkar eru meðalmenn. Fáeinum meðalmönnum lyftir hepnin hærra. Slíkur meðalmaður var Lincoln. Þess vegna erum við svo hreykin af honum. Hann túlkaði mál Ameríku betur en nokkur annar hefði getað úr hópi mentaðra stétta, — forréttinda fólksins. Öll framtíðarvon landsins byggist á því, að frá ókunnum heimilum komi menn, sem verða fyrirliðar í stjórnmálum og iðnaði, og kunna að túlka þarfir fólksins. Þeir þurfa að þekkja hugsanir þeirra, sem koma þreyttir heim á kveldin Hvað hefir skapað allan okkar auð? Miljónir manna, sem daglega vinna baki brotnu. Og það er hrós þessa lands, að eiga von allra framtíðar leiðtoga sinna þaðan.

„Eg átti að flytja erindi á mentastofnan", segir Wilson[1), „fyrir svo að segja eintómum auðugra manna sonum, og eg sagði þeim, að eg kendi í brjósti um þá. Það verður líklega ekkert úr ykkur, þið reynið líklega aldrei að vinna neitt þarfaverk fyrir þjóðina ykkar. Þið viljið ekki leggja svo mikið á ykkur. En einhver almúgamaður, með blóðugt bak undan svipuhöggum sárra nauðsynja, kemur fram og sýnir, að hann skilur múginn og kann að túlka sárustu þarfir; honum fylgir múgurinn, og ber hann að verð-

---

1) *Life Comes from the Soil.*

ungu á háhesti". Hvað var það, sem kom í veg fyrir, að höfðingjastjórn miðaldanna fúnaði ekki ofan í skarnið fyrr en raun varð á? Katólska kirkjan. Enginn prestur svo umkomulaus eða af svo lágum stigum, að hann gæti ekki orðið páfi. Og þá voru það prestarnir, sem öllu réðu við hirðirnar, fyrir dómstólunum. Safinn var stöðugt að rísa frá rótum þjóðlífsins. Þessarri umrás þarf að halda við. Að stífla hana hefir dauðann í för með sér. Þegar valdasjúkir stjórnmálamenn eða auðkýfingar, gera samtök til að stífla þessa blóðrás, er ódáðaverk unnið. Þjóðin verður að skilja, að frelsan hennar öll er komin undir valdinu, sem sefur í brjósti sjálfrar hennar. Á engu utan að komanda frelsunarvaldi þarf hún að eiga von. Upp frá þögulum brjóstum jarðarinnar rísa straumar lífs og starfsþróttar. Frá hinu kyrrláta þjóðarhjarta eru fagnaðarlindir vonar og ákvörðunar að streyma þann dag í dag, sem endurnýja og umskapa yfirborð jarðarinnar til meiri dýrðar.

8.

*Alls herjar þing þjóðarinnar.*

Þjóðin er hætt að þinga. Sambandsþingið starfar eins og nefnd innan luktra dyra. Flokkarnir samþykkja stefnuskrár sínar innan luktra dyra. Við verðum aftur að koma saman og þinga eins og forfeður vorir. Oft er þingað til ills eins. „Þegar eg var drengur", segir Wilson, „voru tveir flokkar með sérveldismönnum í Virginia. Fyrirliði annars flokksins hét Marsi. Hann sendi áskoran til mótflokksins í sýslunni um hólmgöngu á málfundi. Sýslubúum var ekki um áskoranina, en þótti lítilmannlegt að skorast undan, og kusu bezta ræðumann sinn, sem nefndur var Tumi, til að ganga á hólm við stjórnmálaberserkinn. Tumi var stór maður og sterkur, hinn lítill og

væskilslegur. Marsi talaði fyrst og var mælskur; hann hafði lag á að komast inn í huga þeirra, sem jafnvel voru skoðunum hans fjandsamlegir, og fá þá að einhverju leyti á sitt mál; það var auðsætt. Hinum vitrari fór ekki að lítast á blikuna, unz einn stóð upp og kallaði hástöfum: 'Kallaðu hann lygara, Tumi, og láttu fara í handalögmál!' Þetta er endalaust venjan í ágreiningsumræðum. Sá sem engin rök hefir, sér enga úrkosti aðra. Það drepur sannleiksástinni niður og öllum þjóðþrifum. En á þessu er að verða stórmikil breyting til batnaðar. Það eru ekki mörg árin síðan konur fóru að sitja á stjórnmálafundum. Þær gera það ekki svo mikið vegna kvenréttarmálsins. Þær gera það vegna þess, að andrúmsloft stjórnmálafundanna hefir breyzt þessi síðustu 5 til 10 ár. Og nærvera þeirra gefur breytingunni byr undir vængi. Menn koma nú saman til að hugsa um velferðarmálin. Það er verið að opna skólahúsin fyrir slíkum þjóðmála umræðum. Norðurálfumaður, sem hér hafði verið í 8—10 ár, sagði við mig: 'Eg fann Ameríku fyrst í gærkveldi. Eg var á þjóðmálafundi í skólahúsi.[1]) Skólahúsið er deiglan mikla, sem alt bræðir saman. Í skólahúsunum eigum við að ganga í skóla hver hjá öðrum. Cooper Union í New York er ágætt málfundafélag. Þar koma allir, menn og konur, og ræflarnir líka, ef ekki til annars, þá til að ylja sér. Spurningarnar, sem þar eru lagðar fram á eftir ræðunum, eru beztu spurningarnar, sem eg hefi heyrt. Þær koma vanalega frá mönnum af lágum stigum, almúgamönnum, sem erfitt eiga uppdráttar. Þeir kunna að bera fram spurningar, sem ganga til hjartans. Þar er þjóðarsálin að brjótast fram með hugsanir sínar. Enginn einn maður skilur öll Bandaríkin. Þau eru of stór til þess. Vér þurfum alls herjar ráð, alls herjar úrlausnar-viðleitni. Bæjafólk

1) *The Parliament of the People.*

skilur ekki bændur. Bœndur skilja ekki bæjafólk. Til þess hefir það ekki nærri nóg mök hvert við annað. Kona úr bæ hafði lengi dvalið úti á landsbygð; hún var spurð, hvað henni hefði þótt skemtilegast. 'Að sjá bóndann gefa hverri kú blaðsíðu í búreikningum sínum'. Hugsan hennar var svona fjötruð við bæjalífið, að henni fanst það skemtilegast, sem í rauninni var leiðinlegast. Hví er áin svona mikil, er hún fellur í hafið? Ferðastu upp með henni og þú skilur. Smálækirnir, sem falla í hana á leiðinni, gera hana mikla. Svo er það með almenningsálitið. Lækirnir koma frá býlum og búðum og skólahúsum út um alt land. Menn ganga með hugsanir í hjarta, sem þeir eiga engin orð fyrir. Þeir sárþrá að heyra einhvern tala þau orð. Í mentunarefnum er mest um það vert, að fá menn til að skilja. Enginn veit sérlega mikið. En löngunin til að grafast eftir þarf að vakna og löngunin til samanburðar. Sá þekkir ekki sitt eigið land, sem ekki þekkir önnur lönd. Sá þekkir ekki sitt eigið land, sem ekki þekkir aðra landshluta nokkurn veginn eins vel og sveitina sína. — Við getum ekki bygt á þekkingu sérfræðinganna; hún svíkur. Sjónarmiðið er svo einhæft. Öll sú þekking þarf að sáldast af þekkingu alþýðu; hún er svo heilbrigð. Sérfræðingarnir, bankamennirnir, iðnaðareigendur hafa stjórnað Bandaríkjum. Við höfum reynsluna. Sumir tala fyrirlitlega um múgstjórn. Hvað er múgur? Það er mannfjöldi í þéttum hnapp, sem gripinn verður af æstum geðshræringum. En mennirnir, sem koma yfir hól og dal, fjöll og firnindi, tveir og tveir, eða nágrannar í dálitlum hóp, til að greiða atkvæði, — er það múgur? Maður, þú veizt ekki hvað þú talar. Það eru erindrekar þjóðarvelferðarinnar.

Ný öld er að hefjast. Við eigum að hreinsa loftið. Við eigum að gefa gaum að hugsunum þjóðarsálarinnar. Við hugsum ekki um hagsmuni einstakra

stétta. Við hugsum um velferð heildarinnar. Sú velferð er frelsismerkið, sem fram þarf að bera.

9.

*Ljóskveiking.*

Ef losast á úr klóm sjálfkjörinna forræðismanna, verður að setja þjóðmáladyrnar galopnar, og láta ljósbirtuna skína inn. Fyrirkomulagið verður að breytast. Tilnefning til embætta verður að taka úr höndum fáeinna manna — sjálfgerðra stjórnmálavéla, og fá þær þjóðinni. Fjármálaleiðirnar mega ekki lengur vera á huldu; þeim verður að breyta í þjóðbrautir, alfaravegu. Þeir sem draga fyrir á velmegunarmiðum almennings, eiga að skoðast sem skuldbundnir þjónar. Mannfélagið verður að gera upp reikning sinn við þá. Ef stjórnmálaleikurinn er opinber, hví að leika hann í leyni? Stjórnmál verður að lækna eins og tæringu. Láta þau lifa undir beru lofti, í vöku og svefni. Spillingin þrífst í leyndum. Spiltum þjóðmálamönnum er ant um, að fá að vera í friði innan luktra dyra. Bezt er að vera á almannafæri, þar sem allir þekkjast. Á ferðalögum er oft freisting til að leyfa sér það, sem annars er álitið óleyfilegt, — af því enginn þekkir. Enginn er brögðóttur í birtunni. Nú viljum vér draga alt sjúkt út undir beran himin, og bræla refina inni í grenjum þeirra. Ætlunarverkið er, með exi að höggva upp alt kjarrið, svo þar fái ekkert dulist. Sagan um Írann er góð: „Pat, ert þú að grafa holu? Nei, eg er að grafa mold, og skil eftir holu". Líklegast hefir það verið sami Írinn, sem menn sáu grafa kring um húsveggina og spurðu: „Hvað ertu að gera, Pat?— Eg er, það veit trúa mín, að hleypa myrkrinu út úr kjallaranum". Einmitt þetta er nú nauðsynjaverkið mesta — að hleypa myrkrinu út úr kjallaranum. Tökum til dæmis sambandið milli stjórnmála og fé-

sýslu. Það er ekki í sjálfu sér rangt. Það er rangt að svo miklu leyti sem það er í myrkri. Fésýslumenn, sem einhverju vilja fá breytt í löggjöf sér til hagsmuna, eða hindra löggjöf, sem þeir óttast að hnekki gróðabrögðum þeirra, koma sér saman um að leggja fram stórfé til að fá sínu framgengt. Þingin bíða ósjaldan þeirra manna, sem ekki ætti þar að koma nærri, svo þeir segi til hvað gera skuli. Tvenns konar spilling í stjórnmálarekstri á sér stað. Önnur er fólgin í beinum mútugjöfum. Hin í spillingu viljans, sem er enn hættulegra mál. Fésýslumenn hafa smám saman þózt sannfærast um, að stjórnmála-*vélin* verndaði, — væri nauðsynleg verndan. Þá er langt komið frá æsku hugsjónunum, þegar skírlífi sómatilfinningarinnar var svo mikið, að hver smásletta var eins og blóðug ben. Þetta eru menn loks farnir að skilja. Vörnin bezta er vitund almennings. — Löggjöfin er í leyndum. Lögin samin af sérfræðingum. Þeir smeygja inn smá-aukaákvæðum, smá-atviksorðum, hér og þar. Þeim veitir almenningur enga eftirtekt, ekki löggjafarnir sjálfir einu sinni. En á bak við þessi atviksorð geta fésýslumennirnir falið sig. Þau eru brjóstvirki þeirra. Svona hafir toll-löggjöfin verið samin. Hún var ekki bygð á landsþörfum. Hún var samkomulag fáeinna einstaklinga. Þau hefði orðið á annan veg, ef þau hefði verið lögð fyrir þjóðina og rædd á almannafæri. Stjórn verður að vera augljós og opinber í öllum efnum. Stjórnmálamaður, sem gengur með leyndarmál um fólksins eigin hag, sem hann vill ekki trúa almenningi fyrir, er hin mesta óhæfa. Ekkert loftslag er eins heilnæmt og loftslag almennings vitorðsins. Þess vegna er það lífsnauðsyn að láta almenning sjá og skilja. Hvar sem opinber umsýsla er á ferðum, fyrirtæki sem snerta almennings heill, hvar sem stjórnmála stefnuskrá er samþykt, hvar sem menn koma sér saman um embættismanna-

efni, verður guðleg rödd þjóðarviljans að mæla þessum orðum: „Verði ljós!“

10.

*Tollmálið.*

Eins snemma og árið 1828 voru toll-lög samþykt. Það var kallaður *tollur viðurstygðanna*. Hann var algerlega stefnulaus, af handahófi. Það var líkast því, að allar umsýslutegundir landsins hefði sent erindreka til Washington. Þeir hefði allir látið tillögur sínar í körfu, og svo hefði öll karfan verið löggilt. Nú eru sérfræðingar komnir í staðinn. Þessi sérfræðinga nefnd er svo umsetin af öðrum sérfræðingum úr öllum landshornum. Þeir stinga smám saman fram örlitlum, saklausum smábreytingum og skýra svo vel, að mestu skarpleikamönnum getur dulist, að breytingin dregur miljónir dala úr vasa almennings. Þeir leggja t. d. það til, að kolaefni til rafljósa sé haft í tveggja feta bitum, en ekki tólf þumlunga. Í *Payne-Aldrich*-tollinum átti þetta sér stað í hverju smáatriði. Þessu komu toll-sérfræðingarnir til leiðar. Gegn þeim eru aðrir menn máttvana. Þekkingin er hættuleg þegar henni er beitt í eigingjörnum tilgangi. — Framleiðslukostnaðurinn er gott dæmi. Hér dylst hann öllum. Sagt, að hann sé stöðugt að breytast og hvergi í landinu sá sami. Bandaríkastjórn sneri sér til Þýzkalands. Þýzka stjórnin bað verksmiðjueigendur um eins nákvæma skýrslu og þeir gæti gefið. Þeir sömdu skýrsluna, sem send var stjórninni hér. Hún lagði skýrsluna fyrir fjármálanefndina. Samt mun hún aldrei hafa séð hana. *Aldrich* geymdi hana vandlega í skrifborði sínu. Þegar hann var um hana spurður, sagði hann, að það væri óskammfeilin tilraun af hálfu þýzku stjórnarinnar, að hafa áhrif á toll-löggjöf Bandaríkja. Fésýslan í landinu stendur ekki í sambandi við stjórnina, heldur við óvandaða stjórn-

mála erindreka. Hve nær sem hún kemst í eðlilegt samband við stjórnina, lagfærist mikið, sem nú er úr lagi.

Tollmálið er ekki hið sama og það var fyrir 20—30 árum. Það var sagt, að ekkert gerði til, þó við værum ekki í samkepni við umheiminn. Samkepnin væri svo mikil í þessu mikla landi, að hún nægði til að halda verðlagi hæfilega lágu. Það var eitt sinn mikið satt í þessu. En nú er þetta breytt. Nú hafa menn fært sér verndunartollinn í nyt til að láta alla keppinauta taka höndum saman. Verksmiðjunet hefir myndast, sem ræður öllum markaði Bandaríkja og öllu verðlagi. Þess vegna verður kostnaðurinn við lífið meiri og meiri með hverju ári. Smáiðnaðurinn, sem þeir *Webster* og *Clay* báðu um verndan fyrir, er orðinn að risa. Þetta sáu menn eins og *Blaine* og *McKinley*. Þess vegna komu þeir fram með gagnskifta hugmyndina. En lítið er hún komin áleiðis enn. Elfurin sem skilur oss frá Kanada, skilur oss frá kostnaðarminna lífi, þrátt fyrir innflutningstoll Kanada. Sá, sem innflutta vöru kaupir, borgar stjórninni dálítið tollgjald. En venjulega kaupum við þá alls ekki innflutta vöru, heldur heima unna vöru, og hefir verksmiðjueigandinn þá gert verð hennar jafn-hátt eða hærra en innfluttu vöruna, *að viðbættum tolli.* Fær stjórnin þann toll? Nei, alls ekki. Verksmiðjueigandinn. Áður var sagt, að við ættum að kaupa af amerískum verksmiðjueiganda fremur en útlendum, til þess hann gæti komið fótum fyrir sig. Nú er sagt við eigum að kaupa af honum fyrir verð frá 15% til 120% hærra, en við þurfum að borga útlendum verksmiðjum, jafnvel þó *barnið* sé orðið sex fet og búið að fá skegg. Með þessu móti gætum við átt vermibeð í *Connecticut* og *Michigan*, eða einhvers annars staðar, sem amerískir verkamenn ynni við með troðfullan nestismal *(full dinner-pail)* og fram-

leitt *banana*-ávexti, sem seldir væri fyrir 25 cents hver. Og ef að einhver fáráðlingur benti á, að meiri þjóðarblessan væri að kaupa *banana* frá *Jamaica,* þar sem þrír fást fyrir 25 cents, yrði það þá sjálfsagt talin goðgá.

Nú er hugmyndin sú, að skera öll þessi einkaleyfi einstaklinga og félaga út úr toll-löggjöfinni. Það er hugmynd sérveldismanna — *demókrata.* ,,Eg hefi verið demókrati einlægt síðan sigað var á þá hundum'', sagði gömul kona við mig[1]. Demókratar eru engir stigamenn. Þeir eru nálega helmingur atkvæðisbærra borgara. Haldið þér, að þá langi til að leggja landið í eyði með toll-lögum, sem drepa niður allri þjóðarheill. Lakast er, að tollunum er haldið við með lygum. Það er sagt, að þeir sé vegna vinnulýðsins. En það hefir verið marg-sýnt og sannað, að ósjaldan verða þeir til þess, að kaupgjald verður svo lágt, að ekki er lífvænt. Tökum stálið til dæmis. A verkstæðunum þar verða menn að vinna 7 daga í viku, tólf stundir hvern dag, og á öllum 365 dögum ársins vinna þeir ekki fyrir fæðu og fatnaði, og þettaer ein þeirra iðngreina vorra, sem náð hafa risavexti. Það er ekki alfrjáls verzlan, sem enn er á dagskrá. En við ætlum að fara út í garðinn og reyta illgresi. Það er mál til komið. Við komum eins konar smá-barnaskóla á fót í New York. Hann var nefndur Skelfinga-búð. Þar voru sýndar vörur, merktar verði sem þær eru seldar fyrir í Bandaríkjum og erlendis. Saumavél, sem kona getur keypt í Mexicó fyrir 18 dali, verður hún að borga með 30 dölum í Bandaríkjum. Hún verður steinhissa, þegar augu hennar opnast. Einn af senatórunum hefir bent mér á, að semja ætti lög um, að hvern hlut skyldi marka áður keyptur er, með tollverði og toll-laust. Þeir sem trú hafa á verndunartollum ætti að borga toll-verðið, aðrir verð hlutarins að frá dregn-

1) *The Tariff,* bls, 153.

um tolli. Það myndi sannfæra. Hin nýja toll-löggjöf má ekki taka til greina einstaklings-hagsæld, heldur hagsæld lýðsins, hagsæld þjóðarinnar.

11.

*Fyrsti sigurinn.*

Miklu lengra mætti halda að rekja hugsjónir Wilsons í stjórnmálum. En af því sem sagt hefir verið, hafa menn nokkura hugmynd um, hvernig hann lítur á landsmál. Og vér höfum álitið þetta ómaksins vert, af því hvarvetna er verið að hugsa um hið sama. Í raun og veru eiga hugsjónir hans hvarvetna jafn-vel heima, hvort heldur vér látum hugann staðnæmast í Kanada eða á Íslandi. Og sú bylting, sem nú er að verða í Bandaríkjum, í stjórnmála-stefnu þeirra, hefir þýðingu afar-mikla fyrir heim allan. En þar er við ramman reipi að draga. Enginn harðstjóri er eins ægilegur og auðvald og einokan. Hve mótspyrnan er óumræðilega sterk, hafa menn séð nú á hinu fyrsta sambandsþingi, sem háð hefir verið síðastliðið sumar eftir kosningu Wilsons. Samt hefir honum hepnast að vinna sigur í þessum fyrsta bardaga. Töll-lög hafa þegar verið samþykt, sem lækka verðlag á lífsnauðsynjum að miklum mun. Næsta mál, sem nú liggur fyrir, er *fínans*-mál þjóðarinnar, — það að koma bankamálum hinnar mestu viðskiftaþjóðar heims í viðunanlegt horf. Toll-lögin nýju mælast hvarvetna vel fyrir, að því er séð verður, og geta dregið miklu stærri dilk með sér til umbóta en menn enn þá gera sér í hugarlund. Nú hefir nýtt mál komið upp, sem enginn sá bóla á, um forseta-kosningarnar, — afskifti Bandaríkja af óstjórninni í Mexico. Vonandi er, að Wilson forseta takist þar að greiða fram úr með vitsmunum og viljafestu, sem hann virðist hvorttveggja eiga í ríkum mæli. En þess konar er aldrei að vita, hvernig fer eða hvaða afleiðingar kann

að hafa, og getur orðið þrándur í götu einhvers annars, sem vinna átti til þjóðþrifa og almenningsheilla. Svo getur það líka orðið til þess að sýna, hve fær þessi nýi þjóðarleiðtogi er, til að vera fyrir framan og standa við stjórnvölinn í stórsjóum.

12.

*Wilson talinn einn helzti stjórnmálamaður, sem nú er uppi.*

Blöð og tímarit á Englandi tala þegar um Wilson sem einn af allra-merkustu stjórnmálamönnum heimsins. Einu merkasta blaði Englands[1] hafa nýlega farist orð svo: „Þar sem Wilson forseti er, hefir Ameríka framleitt hugrakkasta stjórnmálamann heimsins og um leið þann, sem bezt er að sér. Það má nota þrjú stórmál fyrir mælistiku til að taka mál af honum með, — þverneitan hans um að viðurkenna hið blóðuga valdarán *Huerta,* það að hann kipti að sér hendinni þar sem um lán hinna sex stórvelda var að ræða (til Kínverja)— og tolllögin. Í hvert skifti hefir hann tekið svo hiklaust í strenginn að sjaldgjæft er um stjórnmálamenn. Og í hvert skifti hafa viðburðirnir réttlætt aðgerðir hans. Roosevelt gerir gis að stjórnmálastefnu hans gagnvart Mexico, en oss virðist hún eitt göfugasta fordæmi, sem unt er á að benda á vorum dögum. Afleiðingar af aðgerðum hans í sex-stórvelda-lánsmálinu urðu þær, að það lélega samband leystist upp. Sigur hans yfir tollverndaninni höfum vér fyrir oss, eins stórmarkverður og fullkominn og hann er“.

*F. J. Bergmann.*

---

1) *London News and Leader.*



# Eftirbátur ættarinnar.

*Það sem lífið kendi heimalningnum.*

(Þýtt úr ensku af Adam Þorgrímssyni)

---

Stallwert hét óðalserfinginn; hann átti fimm sonu — Gottfreð, Vilhjálm, Karl, Jóhann og Friðrik litla, sem var tólf árum yngri en sá yngsti hinna— „lambið“ hjarðmannsins.

Ekki er getið um hvernig á því stóð, en það hafði gengið svo um margar aldir, að að eins einn af sonum óðalsbóndans erfði jörðina og hjörðina, og gerðist hjarðmaður. Ef synirnir voru fleiri, þá fóru þeir í herinn eða til borgarinnar, eða tóku eitthvað annað fyrir. Hjörðin var að eins ætluð einum, og sá sonanna var auðvitað mestur og dýrmætastur í augum föðursins, því að hann erfði tignarnafn hans.

Það var fljótséð, hver þessara bræðra mundi verða hæfastur til að erfa ættaróðalið. Það var Gottfred; hann var elztur og efnilegastur þeirra allra, fríður og tignarlegur og hvers manns hugljúfi. Hann var þegar farinn að vinna með föður sínum við rúninginn, og vera hjá fénu í hans stað, þegar vont var veður, eða þegar gamli maðurinn var lasinn. Fallegasta stúlkan í þorpinu var trúlofuð honum, og þau biðu bæði gæfu hans. Lífið virtist brosa við honum.

Bræður hans þurftu að fara burtu og berjast fyrir stöðu í lífinu; en hann þurfti ekki að berjast — fyrir honum lá að eins hið göfuga hlutverk, að verða hjarðmaður. En það voru tvær hliðar á hjarðmannslífinu, eins og á öllu öðru í heiminum; en það var æskunni hulið. Gottfreð sýndist framtíðin öll svo augljós; hann vissi ekki um móðuna, sem huldi útsýnið og gylti takmörk hins einfalda sjónhrings hans. Sál vor sefur í reifum löngu eftir að barnsvaggan er gleymd í ruslaskemmunni. En einhvern tíma vaknar hún og rís upp.

---

Vakningin kom þannig:

Einn fagran dag í ágústmánuði kom bréf til hjarðmannsins frá frænda hans í Ameríku, sem hann var fyrir löngu búinn að gleyma. Í því bréfi skýrði hann honum frá öllum undrum þeirrar álfu, og frá því, hvað atvinnan væri mikil og vel borguð í borginni, þar sem hann var, og hann sagðist skyldi senda tveim sonum hans fargjald, ef þeir vildu koma til hans.

Það var fljótráðið hverjir skyldu fara. Það var eiginlega að eins um tvo að ræða, og það voru þeir Vilhjálmur og Karl. En það var undarlegast, að Gottfreð var mest áfram um að fara, einmitt sá sem þegar hafði fengið ákveðið lífsstarf; hann vildi fá að skifta við annanhvorn hinna, og fara sjálfur. Hann varð sem frá sér numinn alt í einu. Hann fann til einhvers, sem hann hafði aldrei fundið til áður, augu hans loguðu, og hann sá það sem bræður hans sáu ekki.

"Það getur einhver hinna lært fjármenskuna, eg er elztur og þróttmestur; láttu mig fara, faðir minn", sagði hann, og talaði alvarlega og sannfærandi, eins

og hann var vanur. — Hann, óðalserfinginn, bað að lofa sér að yfirgefa arfinn og fara einn út í heiminn.

Faðir hans féll í stafi yfir því, að honum skyldi geta komið annað eins til hugar, og hann bældi þessa hugsun óðara niður með ströngum og ákveðnum fortölum. Hann sagði, að það væri fyrsta skylda hans, að taka að sér hjörðina, því að hann hefði verið fæddur og upp alinn til þess, það væri að svíkjast undan merkjum, ef hann yfirgæfi alt nú, — það gæti ekki komið til álita og væri úttalað mál. Og það var nóg. — Gottfreð settist stillilega niður á þrífótinn við hlið móður sinnar. Hún rétti honum hendina og hann tók um hana með báðum höndum. Og hann fór ekki burtu.

Vilhjálmur og Karl fóru, brosandi, rjóðir og hraustlegir. Þeir fóru til Brimarhafnar, þaðan til Hoboken og þaðan til nýju álfunnar — nýja heimsins, þar sem svo margir góðir vegir voru þeim opnir. Jóhann hélt áfram að vinna á ökrunum. Friðrik litli tíndi steina allan daginn í sólarhitanum, næsta sumar, og Gottfreð stundaði auðvitað fjárgeymsluna, eins og hann hafði alt af gert áður.

Eitt ár leið — og tvö ár. Þá gerðu þeir Vilhjálmur og Karl, Jóhanni boð um að koma, og hann fór líka. Ameríka var undraland; það var alt satt, sem sagt hafði verið um tækifærin til að komast áfram þar, og um kaupgjaldið. Karl var giftur og átti hús sjálfur í fjarlæga landinu, þar sem alt flaut í mjólk og hunangi. Þegar Gottfreð hafði fylgt bróður sínum úr garði og var að ganga upp brekkuna, þar sem hann hafði borið kistuna hans með honum fyrir stundu síðan, sagði hann Lenchen, kærustunni sinni, sem enn þá beið eftir honum, og hafði verið að hjálpa honum að búa Jóhann að heiman, frá því, hve margir vegir væru opnir fyrir menn í Ameríku, og hve gott væri að vera þar. Hún blés þungan, þegar hún heyrði

það alt. Hún vissi að hún yrði lengi að bíða gæfunnar, og fann til þess ekki síður en Gottfreð.

Enn liðu tvö ár. Þá kom Vilhjálmur heim kynnisför. Þá var nú mikið um dýrðir. Alt þorpsfólkið þyrptist á járnbrautarstöðina, eða ruddist út í dyrnar og gluggana, til þess að geta séð þenna mikla ferðamann. Heima hjá foreldrum hans voru húsdyrnar skreyttar blómfléttum til þess að fagna honum. Faðir hans hafði sent Gottfreð með hjörðinni þann dag, en fór sjálfur á járnbrautarstöðina og stóð þar fremstur í þyrpingunni, til að taka á móti Vilhjálmi. Allir stóðu á öndinni af geðshræringu, þegar lestin stöðvaðist.

Svo kom tigulegur maður út á stöðvarpallinn, í gráum fötum með vindil í munninum. Fyrst þekti hann enginn, en svo brosti hann og þá kallaði faðir hans upp yfir sig: „Ó, það er Wilhjálmur".

Sumir voru feimnir við þetta glæsimenni og drógu sig í hlé, en aðrir ruddust í gegn um þröngina til þess að rifja upp við hann gamlan kunningsskap; Friðrik litli æpti hástöfum og gamli málarinn fekk óstyrk af geðshræringu. Þetta var mikilfengleg stund!

Nú var hann kominn mitt á meðal þeirra og þau heilsuðu honum öll með innilegu handabandi. Lenchen var þar líka, og stóru augun hennar voru enn stærri en vanalega og rjóðu kinnarnar hennar enn rjóðari, hún hafði alveg gleymt Gottfred, sem var hjá hjörðinni uppi á fjöllunum, fyrir þessum glæsilega bróður hans.

Vilhjálmur heilsaði öllum svo innilega, og margtók við hvern og einn hvað hann væri glaður yfir að sjá hann. Hann var svo kurteis og göfuglegur og höfðinglegur í allri framkomu — nærri því eins og presturinn.— Og einmitt í því að einhver hafði orð á því, hvað hann væri líkur honum í framgöngu, þá kom presturinn sjálfur; og allir fundu af eigin hugviti

sínu að Vilhjálmur var á einhvern undarlegan hátt orðinn jafningi þessa mikla manns. Hann tók feimulaust í hendina á prestinum og svaraði kveðju hans með hans eigin orðum.

Svo fóru þau öll upp veginn heim að þorpinu. Vilhjálmur gekk á milli prestsins og föður síns, en Lenchen gekk á eftir þeim með Friðrik litla, sem rogaðist með ferðatösku bróður síns.

Gamla konan var heima og beið sonar síns við dyrnar. Þegar hún sá hann, rak hún upp fagnaðaróp, en gat ekki staðið upp til að fagna honum; hann varð að koma til hennar, lúta niður að henni og leggja handlegginn utan um hana og kyssa hana. ,,Ó, elskulegasti sonurinn minn!" sagði hún, en enginn hafði heyrt hana segja það áður. Foreldrarnir báðu herra prestinn að gera sér þann heiður að þiggja eitthvað með þeim á þessari fagnaðarstund. Lenchen fór óðar að búa til kaffið, og móðirin hafði bakað stóra, indæla köku daginn áður. Svo settust þau öll við borðið og átu og drukku.

Litlu seinna fór að rigna, svo að presturinn gat ekki farið heim. Það rigndi mikið en það var ekki nema skúr! En hvað alt var yndislega ánægjulegt! Að heyra samtal þeirra Vilhjálms og prestsins! Það var eins og háleitasti skáldskapur, eins og biblíulestur! Það var skemtilegra en alt annað!

,,Ójá", sagði presturinn brosandi, þegar hann stóð loks upp til að fara; ,,Það er breitt haf á milli Ameríku og föðurlandsins".

,,Já, það segirðu satt", svaraði Vilhjálmur og flýtti sér að hjálpa prestinum í yfirfrakkann, ,,það segirðu satt!"

Presturinn hló og svo kvaddi hann Vilhjálm með vingjarnlegu handabandi, alt öðruvísi en Stallwertsfólkið hafði átt að venjast. Og hann kvaddi líka gamla hjarðmanninn með meiri innileik en hann var

vanur. Það var eins og Vilhjálmur hefði lyft allri ættinni til hærri metorða í félagslífinu.

Presturinn fór, en öll hin sátu um stund og töluðu saman; svo fóru þær. gamla konan og Lenchen, að tilreiða kveldverðinn. Vilhjálmur, faðir hans og Friðrik litli horfðu á þær. Það var mikill mismunur á gömlu lotnu móðurinni og ungu fallegu kærustunni hans Gottfreðs. Vilhjálmur virti Lenchen fyrir sér.

,,Og hvernig líður Gottfreð?" spurði hann alt í einu. Það var eins og þeim yrði öllum hálf bylt við Enginn hafði munað eftir Gottfreð eða minst á hann fyr.

,,Ó, honum líður mjög vel", sagði faðir hans. Svo varð einkennilega vandræðaleg þögn, og meðan á henni stóð opnaðist hurðin og Gottfreð kom inn, gagndrepa af skúrinni, sem komið hafði meðan hitt fólkið sat frá sér numið af ánægju við kaffið og kökurnar með prestinum.

Vilhjálmur spratt á fætur og heilsaði bróður sínum með innilegu handtaki og hjartnæmustu heillaóskum. Þeir stóðu hver hjá öðrum nokkra stund, hjarðmaðurinn gagndrepa og áhyggjulausi ferðamaðurinn, þur og vel klæddur.

,,Hvað er að tarna! Þú ert orðinn hreinasti herramaður, Vilhjálmur!" sagði Gottfreð brosandi og kinkaði kolli að bróður sínum. Svo fór hann út úr stofunni til þess að hafa fataskifti.

,,Er hann heilbrigður?" spurði Vilhjálmur.

,,Já, já", svaraði faðir hans.

,,Það er eins og hann sé orðinn gamall", sagði Vilhjálmur, og svo kom sama vandræðalega þögnin aftur. Það var eins og Gottfred væri hálfvegis utan við alla gleðina. Lenchen var orðin föl; það var eins og hún væri hrædd við eitthvað. Vilhjálmur sá hversu henni var brugðið og brosti framan í hana. Fölvinn hvarf, og hún varð blóðrjóð út undir eyru.

Vilhjálmur ætlaði að dvelja einn mánuð heima. Þegar hann var búinn að vera hálfan mánuð, bauð yfir-skógvörðurinn honum að fara með sér á dýraveiðar. Þeir óku í veiðivagni skógvarðarins út að veiðikofanum, og þegar þeir fóru eftir þjóðveginum, sáu þeir Gottfreð með hjörð sína langt í burtu.

,,Þetta hlýtur að vera leiðinlegt líf'', sagði Vilhjálmur, ,,og þó man eg vel eftir því þegar við vorum börn, að eg öfundaði Gottfreð, þegar faðir okkar sagði að hann yrði hjarðmaður, af því að hann væri elztur''.

,,Við vitum oft ekki hvers við óskum'', svaraði skógvörðurinn ; ,,sá, sem öfundar, óskar, og sá, sem óskar, gróðursetur fræ, sem framtíðin lætur bera ávöxt þegar hann vill það ekki''.

,,Já, það er satt'', sagði Vilhjálmur. En svo hristi hann höfuðið. Það var eitthvað sem gerði hann órólegan. Og hann gat ekki hrundið því frá sér alt kvöldið. — Auðvitað var það mikilsvert að fara út í heiminn og komast vel áfram, vinna sér fé og virðingu. Það var ánægjulegt að vita til þess, að maður hafði frelsað sjálfan sig frá öllum þessum lítilfjörlegu störfum í fátæklegu sveitaþorpi. Það var gleðilegt að vita, að ekkert gat nokkurn tíma farið aftur á bak og að tíminn hélt stöðugt áfram. En þó var það eitthvað, sem gerði hann órólegan.

Gamli maðurinn var mjög lasinn og veikburða altaf meðan Vilhjálmur dvaldi þar. Hann var líka svo áhyggjufullur út af framtíð Friðriks litla. Hann talaði við Vilhjálm í einlægni um allar áhyggjur sínar, og sagði honum að Gottfreð mundi að sjálfsögðu sjá fyrir móður sinni, en hann gæti varla séð um Friðrik líka.

,,Eg skal taka Friðrik með mér'', sagði Vilhjálmur. Þá ljómaði andlit föðursins af gleði ; þess hafði

hann einmitt óskað í hjarta sínu. „Þú varst alt af traustið mitt", sagði hann, þó að enginn hefði heyrt hann segja það fyr.

Og svo var Lenchen. Stóru augun hennar voru enn stærri en áður, en rjóðu kinnarnar hennar urðu æ fölari, nema þegar Vilhjálmur kom þeim til að roðna. Hún kom á hverjum degi til að hjálpa gömlu konunni, eins og hún var vön, en hún var feimin og utan við sig. Vilhjálmur varð enn órólegri. Það var eitthvað á seiði. Hann vissi ekki hvað hann átti að gera.

Eitt kvöld gengu þeir saman út í skóginn, Vilhjálmur og Gottfreð. Alt var kyrt og hljótt og loftið fölblátt, eins og oft er í fjallbygðunum.

„Vilhjálmur!" sagði Gottfreð alt í einu í skerandi rómi, sem gekk gegnum merg og bein; „þú mátt ekki halda að eg sé heimskur eins og sauður, þó að eg hirði sauði. Eg hefi meiri hugsun og skilning en þú heldur".

„Við hvað áttu?" spurði Vilhjálmur.

„Eg á við Lenchen", sagði Gottfreð, og stórir svitadropar spruttu af enni hans; „hún elskar mig ekki framar; hún elskar þig. Þú verður að fara með hana til Ameríku með þér. Farðu með hana með þér eins og Friðrik. Það fer bezt á því".

Vilhjálmur varð hljóður við. „Allir þorpsbúar vita að þið eruð trúlofuð", sagði hann loks.

„Hamingja hennar er mér meira virði en umtal fólksins", svaraði Gottfreð, „talaðu ekki meira um þetta við mig, bróðir minn, eg þoli það ekki; taktu hana að eins með þér þegar þú ferð".

Þegar mánuðurinn var liðinn, fór Vilhjálmur aftur, og Friðrik fór með honum og Lenchen líka. Hún ætlaði líka að vinna handan við hafið, og innvinna sér mikla peninga, og svo ætlaði hún að koma heim.

---

Veturinn eftir dó faðir þeirra bræðra. Þá varð Gottfreð eigandi óðalsins, og hjarðmaður í fylsta skiln-

ingi. Hann fylgdi fénu daglega, alt árið um kring, í hita og kulda, skini og skúrum. Augu hans voru stór, eins og í Lenchen, og innfallin og þreytuleg. Það var annað naprara en kuldinn, annað heitara en sólskinið, og annað augljósara en nýfallin mjöllin. Gottfreð var sá eini af sonum móður sinnar, sem ekki komst til virðingar og metorða, og sá eini, sem ekki gaf henni vasapeninga. Hann sá fyrir lífi hennar, en það var ekki talið neins virði. Það var að eins talið, sem þar var fram yfir. Húsið var fult af alls konar smá skrautglingri, sem hún hafði keypt fyrir gullið, sem kom handan yfir hafið. Gottfreð borgaði brauðið og kartöflurnar, en hver er þakklátur fyrir brauð og kartöflur?

Arin liðu. Lenchen kom ekki aftur, hún giftist Vilhjálmi, og nokkru seinna kom mynd — ljómandi, gljáandi ljósmynd — af barninu þeirra; það var drengur, og hét í höfuðið á föðurafa sínum. Ó, hvað móðir Gottfreðs grét mikið, þegar hún sá myndina. Og þó var þetta ekki það eina sem gladdi hana. Karl var orðinn kaupmaður og stjórnaði verzlaninni sjálfur og græddi mikið. Jóhann var bankaritari, og hafði komist að því starfi af því að hann kunni svo vel þýzku. Vilhjálmur var þó ríkastur þeirra allra, hann græddi á tá og fingri. Það hjálpaðist alt að því að gera gömlu móðirina ánægða og upp með sér. Friðrik litli hafði jafnvel sýnt það líka, að hann var hæfileikamaður. Það gat vel verið að Vilhjálmur sendi hann á háskóla.

Það var eiginlega að eins einn eftirbátur í ættinni.

Það var um fagurt kvöld, mörgum, mörgum, *mörgum* árum seinna, að snyrtilegur maður og góðlegur steig út úr járnbrautarlestinni í þorpinu. Hann var á að gizka um fertugt. Þar var enginn til að taka á móti honum, því að enginn átti von á honum; og þó var hann Friðrik Stallwert, borinn og barnfæddur í þessu þorpi, alveg eins og Vilhjálmur bróðir hans.

Hann gekk upp veginn, léttur í spori, og enginn þekti hann. Þegar hann kom að hliðinu á óðalssetri bróður síns, spurði hann mann, sem hann hitti, í hvaða átt Gottfreð hefði rekið féð þann morgun. Maðurinn sagði honum það, og hann gekk samstundis sama veg. Og úti í fjallshlíðinni hitti hann bróður sinn; hann sat þar þögull; hundarnir hans voru að hlaupa þar fram og aftur, og féð var á beit fram undan honum.

Hann var einkennilegur, þessi lotni, gráhærði öldungur, sem sat þarna aleinn.

Friðrik gekk upp til hans. „Gottfreð!" sagði hann, með tárin í augunum, „eg er litli drengurinn, þekkirðu mig?"

Gottfreð — sem nú var orðinn sextíu og fimm ára gamall — sneri sér við og breiddi út faðminn á móti fertuga bróðurnum sínum.

„Friðrik, litli drengurinn!" hrópaði hann upp yfir sig, þrýsti honum fast að sér og kysti hann á báðar kinnarnar.

„Ó, Gottfreð!" sagði bróðir hans, „eg hefi komið um langan veg og þráð þessa stund, því að — því að eg hefi ekki fyr en nýlega lært að meta hve göfugu lífi þú hefir lifað.

„Göfugu lífi?" sagði gamli fjárhirðirinn, „mér hefir ekki verið gefið tækifæri til að gera neitt göfugt — það eina sem himnaföðurnum þóknaðist að láta mig gera, var að vera hér heima í fásinninu".

„Bróðir minn!" sagði Friðrik, með sorgblandinni viðkvæmni og alvöru — það er skemtilegt og ofur auðvelt að fljúga út í sólskinið, að safna hunangi í nægtabúr lífsins; en þó eru sumir svo gerðir, að þeir kjósa heldur það hlutverk að vera inni í myrkrinu og byggja heimilið. Sumir elta hina tælandi, hverfulu lífsgleði, en aðrir verða eftir í skugganum. Okkur finst þetta eðlilegt af því, að við erum svo skilnings-

sljóir, en það er ekki eðlilegt í raun og veru, því að alla langar til að njóta lífsins í fullum mæli. Þú stóðst eftir í skugganum''.

Gamli hjarðmaðurinn hristi höfuðið. ,,Það var ekki af því að eg kysi það sjálfur'', mælti hann; ,,þakkaðu mér það ekki, eg var neyddnr til að vera kyr heima''.

,,En þú færðir fórnina'', mælti bróðir hans.

,,Já'', svaraði hjarðmaðurinn. ,,Það var fórn, en ekki sjálfviljug fórn. Eg þurfti margt að læra, ekki síður en þið hinir, en á alt annan veg — alt öðruvísi. Taktu eftir. Eg ætla að segja þér hvernig lífið hefir kent mér'', hrópaði hann alt í einu, og breiddi út faðminn, og það var eins og sæist í svip hans alt það, sem hann hafði lifað í þessum eyðilega dal, öll þessi ár. ''Mér var kent, fyrst að nokkru leyti á móti vilja mínum, en síðar lærði eg með glöðu geði. Eg valdi mér ekki hlutskiftið í fyrstu, en síðar var það að óskum mínum. Óveðrið, kuldinn, hungrið, sumarhitinn, stundirnar, sem aldrei flugu, heldur gengu hægt og hægt, hinar endalausu hugleiðingar, endalausu bænir, hinn endalausi, seinunni lærdómur, það varð mitt hlutskifti.

,,Af því að þú varst þrekmestur okkar allra'', sagði Friðrik.

,,Já, eg veit það líka'', svaraði hjarðmaðurinn. ,,Sá, sem stendur í skugganum, finnur fljótt hvað það er, sem heldur honum þar. Það er svo undur skemtilegt að fara út í heiminn og vinna til fjár og frama; það þarf sterkan mann til að sitja kyr og sjá alt tekið frá sér, og bera það þegjandi án þess að mögla. Sá sem stendur í skugganum lærir líka alt þetta. Eg hefi lært það''.

Friðrik stóð á öndinni.

,,Þegar Lenchen fór frá mér'', sagði hjarðmaðurinn, ,,þá misti eg kjarkinn, og veturinn eftir, þegar

móðir okkar og eg stunduðum föður okkar veikan, þá varð eg viðkvæmur eins og kona. Ef eg hefði ekki verið þannig lamaður, þá hefði eg að líkindum gert uppreist; ef eg hefði haft nokkra von, þá mundi eg líklega hafa farið út í heiminn að freista framtíðarinnar. En eg hafði mist alt. Og svo þegar faðir minn dó, þá sátum við móðir mín ein við arninn, og þá fann eg til þeirrar sælu sem það veitir, að vera sjálfur verndari og veitandi. Það var það fyrsta sem eg lærði".

Friðrik var hljóður.

,,Og svo dó móðir mín, og eg hefi verið hér einn í fjölda mörg ár", sagði öldungurinn, ,,og eg lærði sífelt meira og meira. Eg hafði aðra til að hugsa um. Lenchen skildi foreldra sína eftir, þegar hún fór, eins og þú vissir, og — —"

,,Já, en Vilhjálmur —" greip Friðrik fram í.

"Þau sendu þeim peninga", sagði hjarðmaðurinn blátt áfram, en með mikilli áherzlu, ,,en eg sá um alt hitt. Mér er orðið það vel ljóst, hvers vegna eg stóð í skugganum. En það er furðulegast af öllu, að nú er eg hamingjusamur. Eg barðist við sjálfan mig í mörg, löng ár, en nú er eg sæll".

,,Sæll?" sagði Friðrik.

,,Sæll", sagði bróðtr hans. Eg er aldrei einn. Allur heimurinn situr hérna í fjallahlíðunum hjá mér, og kennir mér og lærir með mér. Eg get ekki lýst því, kæri bróðir minn, því að eg á engin orð yfir það. En það sem tíminn hefir fært mér, er dýrmætara en Lenchen, verðmeira en peningar, og dýrðlegra en jarðnesk hamingja. Eg get ekki lýst því, því að mig vantar orð til þess. Eg er ekki prestur, og mér er ekki létt um að tala; en það er nokkuð líkt því, sem eg hefði farið á markað og selt alt sem eg átti, en verið svikinn og fengið kopar í staðinn fyrir silfur, en fundið svo, þegar heim kom, að eg hafði fengið gull í stað silfurs.

Friðrik fyltist lotningar.

Gamli hjarðmaðurinn hallaðist fram á stafinn sinn og hneigði höfuðið hægt — undur hægt.

,,Svona er það, kæri bróðir. Þú veizt að við förum út í lífið til þess að höndla eitthvert hnoss, og við þráum það svo mikið, og finst að það muni veita okkur fullkomna gleði. Eg var ykkar þróttmestur, eg var hugrakkastur. Eg vissi að eg gat hlotið hvað sem eg leitaði eftir, því að það lá í eðli mínu. Mig langaði til að fara út í heiminn og sækja eitthvað stærra og meira en þorpið gat veitt, en foreldrar mínir og Lenchen héldu í mig. Eg varð að hætta við það. Þá fór eg að gera mér í hugarlund, hvað yndislegt væri að eiga heimili og góða konu. Eg sá í huganum Lenchen með barn í fanginu. Ojæja, eg varð að missa þá von. Það var þungbært; það var alt þungbært. Og þegar árin liðu og æskuþrótturinn bilaði, var lífið enn þungbærara. Eg varð að heyja baráttuna hérna í fjallshlíðinni. Þegar eg sýndist sitja hugsandi og rólegur, þá var eg að heyja stríð. Eg gat ekki farið út í heiminn og barist, eg þurfti alt af að vera kyr hjá hjörðinni. Eg komst ekkert. Algóður guð hafði lokað mig inni í sjálfum mér. Þannig þurfti eg að lifa í mörg ár. Reynslueggin risti æ-dýpra, eftir því sem eg eltist; hnífurinn var alt af að. Það var sárt í fyrstu. En eftir nokkurn tíma fór eg að sjá; svo fór eg að heyra; og svo fór eg að skilja. Loks var það blessaðan sumarmorgun, þegar eg fylgdi hjörðinni út í árgeislana, að sólin skein mér skærara en áður. Eg gat varla andað. Alt varð mér ljóst um síðir. Augu mín opnuðust. Eg hafði farið á mis við alt, sem menn berjast vanalega fyrir í lífinu, en í stað þess hafði eg fundið það, sem þeir, sem berjast fyrir veraldlegri hamingju, finna aldrei — frið við guð".

Þegar hann sagði þetta, var sem svipurinn sýndi sál hans alla.

Friðrik gat ekkert sagt. Hann var sem utan við

sig. Lesarinn hefir ef til vill þegar rent grun í, að hann var prestur, og hann hafði farið þessa för með háleitustu hugsanir og hugmyndir. Hann laut niður, lyfti upp votu lafinu á gömlu kápunni, sem bróðir hans var í og bar það að vörum sér. „Bróðir minn", sagði hann hikandi; „viltu nú yfirgefa alt? Viltu koma með mér í fjarlæga landið og hjálpa mér í köllun minni þar? Viltu segja söfnuði mínum hvað þú hefir lært?"

Gottfreð brosti. „Kæri bróðir", sagði hann; „það er of seint. Eg get aldrei gert það. Þú getur reynt það ef þú vilt. Það er ekkert nýtt. Það er í hverjum manni — í hverju landi. Það er í hverjum sólargeisla og hverjum tunglsgeisla. Drottinn vor Jesús Kristur hefir gert það ljóst. Þeir finna það, sem fylgja honum".

Friðrik Stallwert kom inn í litla veitingahúsið í þorpinu seint um kvöldið og bað um heitan kvöldverð.

„Bróðir minn kom með mér sagði hann við gestgjafann.

„Hann er einnkennilegur maður hann bróðir yðar", sagði gestgjafinn; „hann er næsta ólíkur fólki sínu".

„Já, ekki líkur fólki sínu", sagði presturinn eins og utan við sig.

En Gottfreð kom ekki. Eftir að bróðir hans fór inn að biðja um máltíðina, stóð hann lengi úti og horfði yfir dalinn með purpuralitum kvöldskuggunum og hálfnöktum, grænum trjástofnunum í skógarjaðrinum. Þegar hann hafði horft þannig svo lengi sem hann vildi, settist hann niður undir stórt tré, sveipaði að sér kápunni, hallaði sér aftur á bak, dróg djúpt andann og lokaði augunum.

„Faðir í þínar hendur fel eg minn anda", sagði hann viðkvæmt — og var þegar örendur. Þar var enginn sársauki, enginn efi.



# SAFN

TIL

# Landnámssögu Íslendinga í Vesturheimi.

*Nokkrir þættir um Íslendinga austan Manitoba-vatns í Siglunes-bygð, Narrows-bygð, við Dog Lake og Moose Horn Bay.*

*Eftir JÓN JÓNSSON frá Sleðbrjót.*

(Ritað að mestu eftir sögusögn eldri landnema.)

Þess er áður getið í þætti Álftvetninga, að nokkrir menn þaðan fýstust að leita sér landa og bústaða lengra norðvestur með Manitoba-vatni; höfðu þeir frétt það, eftir sögnum hérlendra manna, að víða væru góðir landkostir meðfram vatninu umhverfis Narrows, og fiskiveiði væri þar allmikil og arðvænleg. Fluttust því norður þangað nokkrir búendur, bæði úr Álftavatnsbygð og víðar að. Mjög erfitt gekk landnemum þessum fyrstu árin, því vegir voru engir, nema smábrautir eftir Indíana. Landnemar voru flestir fátækir og áttu ilt til aðdráttar, því engin verzlun var þá nær en í 60—70 mílna fjarlægð. Nær engir þeirra, er norður fóru, áttu hesta, og fáir eki-uxa, og önnur áhöld til ferðalaga voru mjög af skornum skamti. En brátt rættist úr fyrir landnemum þessum; þeir komu fljótt upp gripum, því landrými var nóg og heyforði auðfenginn. Fiskiveiðin var hin bezta, en markaðsleysi bagaði því að þeim gæti orðið hún að fullum notum, því ekki var hægt að selja fisk nær en í Westbourne, og eru þangað um 70 mílur frá Narrows. Stundum urðu fiskimenn

að draga fisk sinn til Delta og enda til Reaburn, og er það um 100 mílur. Og verðið var þá svo lágt á fiski, að nú, þegar um fleiri atvinnuvegi er að velja, mundi það hafa þótt ógjörningur, að verða að flytja að markaði fisk fyrir svo lágt verð. En hér fór sem víða annarstaðar, fyrstu landnemarnir sýndu svo mikinn dugnað, þrautseigju og sparsemi, að eignir þeirra margfölduðust á fám árum. Um það leyti er landnám byrjaði, var þurt landið og lágt í Manitoba-vatni. En er landnemar höfðu verið þar nokkur ár, kom flóð í vatnið, óvenjulega mikið. Bithagi og engi nokkuð upp frá vatninu (um 2 mílur) varð yfirflotið af vatni, svo sigla mátti á bátum yfir lönd er áður hafði mátt slá og þurka hey á. Varð þetta hinn mesti hnekkir fyrir búendur. Ýmsir þeirra, er sezt höfðu þar að, yfirgáfu þá lönd sín og leituðu í aðrar bygðir. En þeir, sem eftir vou, urðu sumir að flýja heimili sín, og nær allir að sækja heyskap langar leiðir frá heimilum sínum. Var það þá oft, að konurnar urðu að vera heima, með einhverja léttinga, og annast um kýrnar og mjólka þær, og var það oft þrekraun mikil. Mun um ýmsar þær konur, er þá voru á þessu svæði, mega kveða að þeim látnum það, er Guðmundur Friðjónsson sagði um ekkjuna:

"En kalt þótti frúnum að kafa......
í klakaspor ekkjunnar látnu."

Ein af þeim konum, er þá bjuggu hér við vatnið, Stefanía (Mattthews) Stefánsdóttir frá Stakkahlíð, kona Jóns Metúsalemssonar, hefir sagt mér frá smá-atriði, sem sýnir svo vel hvernig flóðið var, að eg set þá sögu hér:—"Eg var heima, með eina stúlku með mér; Jón og drengirnir voru að heyja norður í skógum 6—7 mílur hér frá; þá var flóðið sem hæst. Kýrnar voru hérna austur á sléttunum, svo sem mílu í burtu; þar var áður þurt og búið að girða um landið með skógviðargirðingu. Við lögðum nú af stað til að sækja kýrnar og komumst nærri til þeirra, en þá brugðu þær við og heim á leið aðra leið en við komum, og runnu eftir malarbakka við vatnið. Vatnsmagnið var svo mikið, að við þorðum eigi á eftir þeim, því kvöld var komið og farið að skyggja. Við lögðum því sömu leið og við komum heim aftur og héldum okkur við girðinguna, því sunnanvindur var og flóðið hækkaði óðum; þegar við fórum heim, var vatnið svo djúpt, að

það flaut um brjóstin á okkur, þótti okkur því vissara að hafa girðinguna til að grípa í. Við 'þökkuðum okkar sæla' fyrir að komast heim í bólið kýrlausar og mjólkurlausar það kvöldið." — Árið 1911 var slegið og þurkað hey á þessum slóðum, og varð að fara talsverðan veg til að brynna hestunum, þegar verið var að vinna þar. Þá var vatnið búið að ná lágmarki sínu. Nú í sumar (1913) er þetta land alt yfirflotið vatni, svo að ekki er hægt að heyja á því.

Hér á eftir verða taldir þeir, er fluttu hér í Narrows- og Siglunes-bygðir, fyrstir Íslendinga, á síðasta tugi næstliðinnar aldar:


*Helgi Einarsson*

Sá er fyrstur reið á vaðið, að kanna lönd hér, var Helgi Einarsson, síðar kaupmaður við Narrows. Helgi er sonur Einars Kristjánssonar, frá Neðra-Nesi í Mýrasýslu, Sigurðssonar bónda í Vallakoti í Borgarfjarðarsýslu; var sá Sigurður ættaður úr Breiðafjarðar-eyjum. Kona Einars en móðir Helga, var Guðrún Helgadóttir, bónda í Neðra-Nesi í Borgarfjarðarsýslu. Helgi kom vestur um haf með föður sínum 1887, og settust þeir að í Álftavatns-nýlendu, eins og áður er getið í þætti Álftvetninga. Haustið 1887 fór Helgi norður til Nar-

rows að skoða sig um, og sérstaklega að rannsaka hvernig þar hagaði til um fiskiveiði. Ekki fluttu þeir feðgar samt norður fyr en í Apríl 1889. Þá bygðu þeir sér hús við Narrows og bjuggu þar síðan. Einar var fyrsti póstafgreiðslumaður þar, og Helgi tók við því starfi er Einar dó árið 1907. Helgi lagði þegar stund á fiskiveiðar og tók bráðlega að kaupa fisk af öðrum fiskimönnum, og heldur því starfi enn í dag. Griparækt stundaði hann líka, en fremur mun það hafa verið í hjáverkum, því hugur hans mun meira hafa hneigst að veiðiskap og verzlun. Hann byrjaði matvöruverzlun, og járnvöruverzlun, ásamt fiskiverzluninni árið 1903 á Narrows. Þeirri verzlun hætti hann 1911, því hann skorti fé til að reka hana svo vel væri. Fluttist hann þá norður til Fairford, sem er um 40 mílur norðvestur af Narrows; stundar hann þar fiskiveiði og kaupir þar fisk og selur vörur í smáum stíl enn. Má vera hann færi sig upp á skaftið er frá líður, því hann hefir óbilandi trú á enska máltækinu: "Reyndu aftur" þó eitthvað gangi erfitt, og æðrast lítt, þó boðar skelli á bátinn, hvort sem það er á Manitoba-vatni eða í lífsbaráttunni. Helgi lét fyrstur Íslendinga smíða bát til ferða um Manitobavatn; var hann 20 fet í kjöl. Síðar kom hann upp gasolíubát og síðast gufubát, er hann nefndi Ísland. Hefir hann farið margar ferðir eftir Manitobavatni endilöngu og oft komist í hann krappan, en jafnan náð einhverri lending.

Helgi er greindur maður, hugsar um margt og er einkennilegur um margt. Ekki hefir hann auðsæll verið, en í margt hefir hann ráðist og oft haft mikil peningaráð í svipinn. Hann er vinsæll maður og af öllum, er hann þekkja, talinn bezti drengur.

Einar Kristjánsson, faðir Helga, bjó við Narrows til dauðadags. Sonur hans, Kristján, býr þar enn og hefir numið þar land.

*JÓN METÚSALEMSSON (Matthews).*—Jón er sonur Metúsalems Jónssonar (hins sterka), bónda í Möðrudal. En móðir Jóns var Kristbjörg Þórðardóttir frá Kjarna í Eyjafjarðarsýslu, Pálssonar, Guðlaugssonar. Kona Jóns Metúsalemssonar, er Stefanía Stefánsdóttir, Gunnarssonar, bónda í Stakkahlíð í Loðmundarfirði í Norður-Múlasýslu. Var Stefán bróðir Sigurðar prófasts Gunnarsson á Hallormsstað. Móðir Stefaníu var Þorbjörg, og var hún systir Kristbjargar móður Jóns Metúsalemssonar. En móðir þeirra systra var Björg systir séra Halldórs á Sauðanesi, föður séra Björns í Laufási, föður Þórhalls biskups.



Um för Jóns Metúsalemssonar vestur um haf og dvöl hans í Álftavatnsbygð fyrstu árin, er áður ritað í þætti Álftvetninga.*) Jón flutti norður að Narrows árið 1893, og höfðu synir hans áður farið norður að kynna sér hvernig til hagaði. Með Jóni fluttust norður synir hans 5: Björn, Sigurður, Jón, Stefán og Metúsalem, og settust hér allir að með honum. Sá harmur bar að höndum þeim hjónum, Jóni og Stefaníu, að tveir synir þeirra, Sigurður og Jón, druknuðu í Manitobavatni 3. Maí 1901, annar 26 en hinn 23 ára. Þeir voru báðir efnismenn og var fráfall þeirra harmsefni, ekki einungis ættmennum, heldur einnig sveitungum þeirra, því þeir höfðu áunnið sér virðing og vinsæld þeirra. — Jón Metúsalemsson bjó fyrstu tvö árin norðan við Narrows. Síðan flutti hann suður á Siglunes sunnanvert, og nam þar land

---

*) Þar er sú missögn, að eitt barn hans, er lézt á leiðinni frá Winnipeg, hafi veikzt í Quebec. Það var í Winnipeg, að barnið veiktist.—Höf.

og býr þar enn, og hafa synir hans 3, þeir er eftir lifa, numið land umhverfis hann. Um tíma flutti Jón sig til stundardvalar vestur yfir vatn til Kinosota; gjörði hann það til að geta látið börn sín ganga á skóla um stund, því hér var þá enginn skóli. Synir Jóns tveir, Stefán og Metúsalem, og dóttir þeirra hjónanna, Ragnhildur, hafa alt af verið í föðurgarði og stundað búskap í félagi við foreldra sína; þó hefir Stefán á síðari árum verið allmikið að heiman, bæði unnið við trésmíðar, því hann er smiður góður sem faðir hans, og næstliðið ár var hann verzlunarstjóri við verzlun Armstrong Trading Co.s við Moose Horn Siding; en er nú kominn heim, er þetta er ritað. Metúsalem hefir alt af stundað búið með föður sínum og fiskiveiði á vetrum. Önnur dóttir Jóns og Stefaníu, Aðalbjörg, er saumakona; hefir lengst um dvalið í Bandaríkjum (Minneapolis), en er nú flutt vestur að hafi, og er heimili hennar í Seattle, Wash. — Öll hafa þau systkin góða greind, eins og þau eiga kyn til. Ætti eg að segja eitthvert einkenni, sem fremur öðru einkendi þessi gömlu heiðurshjón og börn þeirra, mundi eg telja það, að hvenær sem einhver í nánd við þau þarf hjálpar í alvarlegum vandræðum, má hann telja sér eins vísa hjálp "Mathews-fólksins", eins og hann gæti sjálfur veitt sér hana, og vandræðin eru þannig, að úr sé hægt að bæta; og sjaldan mun borgun tekin fyrir það. Það er gamalt og gott íslenzkt einkenni, sem haldist hefir vel í þessari ætt.

Jón Mathews er nú á fyrsta ári yfir sjötugt, og ber ellina og hvítar hærur vel. Hann er starfsmaður með afbrigðum og hefir alt að þessu slegið alt það hey, er hann hefir þurft. Hann og synir hans, Stefán og Methúsalem, eiga nú 6 lönd hér í bygðinni. Þeir höfðu um eitt skeið eitt hið stærsta gripabú er hér var. Þeir hafa bygt vandað hús og stórt á landi Jóns, eins og vönduð hús eru í bæjum, með miðstöðvarhitun. Jón er smiður góður; lærði hann trésmíði hjá J. Chr. Stephanssyni á Akureyri. — Hann hefir góða greind, og les alt það er hann nær í um Ísland og hag þess. Hann og kona hans hafa sýnt þrautseigju og dugnað í frumbyggja-raunum hér, sem margar og miklar hafa verið. Fáir munu þeir

hér í bygð, hvað sem skoðanamun líður, sem ekki líta með virðingu til hvíthærða öldungsins af Möðrudalsfjöllum.

*BJÖRN MATHEWS,* sonur Jóns var fyrst með föður sínum; byrjaði hann smáverzlun, en varð að hætta henni, því hann skorti fé sem þurfti til að reka hana. Var hann um tíma (tvö ár) suður í Bandaríkjum og vann þar ýmsa vinnu; græddist honum við það þekking á ýmsu. Um Björn mætti langt mál rita, því æfisaga hans er svo mikið ofin inn í sögu sveitarinnar, að þær verða varla aðskildar. Hann hefir í mörg ár braskað og oft verið sá langmesti atvinnuveitandi í bygðinni. Hann hefir verið kaupmaður fyrir sjálfan sig, verzlunarstjóri fyrir aðra (Armstrong Trad.Co.), fiskikaupmaður fyrir Hon. Hugh. Armstrong, sögunarmylnu eigandi með ýmsum o. fl. Ekki hefir Björn átt langan aldur í neinum félagsskap, og eru til þess margar orsakir og er sú ein, að eðli hans er þannig, að um hann má segja eins og séra Rögnv. Pétursson sagði svo heppilega um fornkunningja minn Björn Halldórsson frá Úlfsstöðum, "að hann er meira lundlaginn til að segja fyrir en hlýða", enda mun sú lyndiseinkunn fylgja flestum þeim er stórhuga eru og aldrei gugna við að gjöra tilraun til að láta hug og hönd fylgjast að. — Þráðurinn í æfisögu Björns



Mathews er þessi: Árið 1899 fluttist hann í Birch Island (Birkieyju) og byrjaði þar búskap, stundaði mest fjárrækt og fiskiveiði, og aflaði sér mikilla peninga með hvorutveggja. Bú hafði hann þar þangað til árið 1908 að hann flutti alfarinn til lands og nam land við hliðina á föður sínum og bræðrum á Siglunesi. Hefir hann bygt þar steinhús tvílyft, um 60 fet á lengd og um 30 fet á breidd, og ekkert til sparað að vanda það sem bezt. Er í því gufuhitun. Hefi eg heyrt ýmsa víðförla menn segja, að þeir hafi á engu *einu* heimilisréttarlandi séð jafn dýra og stórkostlega bygging. — Eftir að Björn hafði verið tvö ár í "eynni" byrjaði hann verzlun "í landi" hjá föður sínum, en hætti henni aftur eftir fá ár, því hann var þá um of búinn að festa fé sitt í lánum, til þess að geta rekið verzlunina. Galt hann góðviljans, eins og margan hefir hent. Nokkru síðar keypti hann sögunarmylnu í félagi við enskan mann, Mat. Hall, stórbónda við Westbourne; eftir tvö eða þrjú ár gekk Mat. Hall úr félaginu; keypti þá hans hlut Ásmundur Freeman frá Bluff, vestan við Narrows; settu þeir Björn og hann sögunarmylnu niður á Siglunesi, þar sem Björn býr nú. Að ári liðnu seldi Ásmundur sinn hluta og keypti af honum Gyðingafélag, sem aðsetur hefir í Winnipeg og á Oak Point (Lake Manitoba Trad. Co.); settu þeir upp verzlun við Siglunes, settu gufubát á vatnið, er gekk milli Oak Point og Sigluness og dró að þeim sögunarvið vestan frá Crane River (norðvestan til við Manitobavatn) og víðar frá þar um slóðir. Eftir eitt eða tvö ár slitu þeir Gyðingarnir félagi við Björn og skiftu eignunum. Fékk Björn í sinn hlut búðina á Siglunesi og sögunarmylnuna með öllum áhöldum. En hinir gufubátinn og timburleifar o. fl. Skömmu eftir að þau skifti voru gjörð brann sögunarmylnan til kaldra kola, og urðu flest áhöldin nær ónýt. Nam sá skaði svo þúsundum doll. skifti, því alt var óvátrygt. Þegar hér var komið seldi Björn búðina Armstrong Trad. Co., og gjörðist verzlunarstjóri fyrir það félag á Siglunesi; hélt hann þeim starfa þar til í vor, að hann sagði stöðunni lausri.

Björn hefir, eins og áður er getið, veitt mörgum atvinnu, bæði við sögunarstarfið, fiskiveiðar o. fl., og hefir það hjálpað ýmsum frumbyggjum hér áfram um stund. Af því sögun-

armylnan var hér og timbur fáanlegt í sveitinni af öllum tegundum, þá eru í þessari sveit fleiri vel bygð íbúðarhús, en í flestum sveitum öðrum á líku reki.

Björn kvongaðist 22. Júlí 1898 Guðrúnu Guðmundsdóttur Lundal; eiga þau 5 börn: Otto Wathne, Sigurð Jón, Guðmund, Margréti og Aðalbjörgu.—Björn er að eðlisfari greindur maður, glaðlyndur og ör í orði; höfðingi í lund og allra manna hjálpsamastur, og hefir því oft aflað sér margra vina. —Hann hefir látið einn sona sinna heita eftir norsk-íslenzku hetjunni Otto Wathne, og ætla eg að stórhugur Wathnes hafi haft nokkur áhrif á framsóknarhug þann, er Björn hefir í hvívetna sýnt. En eftir á hann að leysa þann hnútinn, sem Wathne leysti, og það er að verða stórefnamaður, en byrja félaus. Flestir þeir, er þekkja Björn, munu unna honum þess að honum takist að leysa þann hnút, því þrátt fyrir sundurleitar skoðanir, mun hann eiga talsverð hlý ítök í huga flestra þeirra, er hann hefir haft viðskifti við.

*SÆMUNDUR JÓNSSON BORGFJÖRÐ,* sonur Jóns bónda á Syðstufossum í Andakíl í Borgarfjarðarsýslu, Þórarinssonar bónda í Stafholtsey. Móðir Sæmundar var Guðrún Sæmundsdóttir, hreppstjóra á Skarði í Lundareykjadal. Kona Sæmundar, Helga Gísladóttir, var ættuð úr Leirársveit; móðir hennar Ingibjörg var uppeldisdóttir Halldórs sýslumanns Einarssonar í Höfnum. Sæmundur flutti vestur um haf 1887 frá Traðarkoti í Gullbringusýslu. Nam hann land í Nýja Íslandi og bjó þar 4 ár, sagði síðan lausu landinu og flutti til Argyle-bygðar og bjó þar tvö ár. Flutti í Siglunessbygð 1892 og nam þar land og bjó þar í 10 ár. Árið 1902 misti Sæmundur konu sína; brá hann þá búi og seldi land sitt Birni Mathews og flutti til Winnipeg, og var þar um stund. Síðan flutti hann til Nýja Íslands með Gísla syni sínum og námu þeir þar og keyptu 3 lönd. Eftir fá ár lézt Gísli sonur hans þar. Var hann efnismaður mesti og öllum harmdauði, er til hans þektu. Flutti Sæmundur þá aftur til Winnipeg og dvelur þar lengst um síðan. Tveir synir Sæmunder eru á lífi, Jón bóndi í Árnessbygð í Nýja Ísl., er býr þar á landi föður

síns; en hinn er Þorsteinn Borgfjörð, stórbyggingamaður (contractor) í Winnipeg, einn hinn mikilhæfasti maður meðal Vestur-Íslendinga og talinn með hinum auðugustu þeirra. — Sæmundur er nú nær 68 ára gamall, en ern og hraustur og léttur í spori eins og unglingur. Hann hefir góða greind að eðlisfari, og les alt það, er hann nær í, af íslenzku máli og er minnugur vel, og fylgir vel með því sem er að gjörast. Hann er nú orðinn ríkur maður, þó fátækur kæmi hér vestur, hefir brotið sér sína braut með forsjá og þrautseigju og borið andstreymi lífsins og ástvinamissi með forn-íslenzkum kjarki.

*JÓNAS KRISTJÁN JÓNASSON.*—Hann er Skagfirðingur að ætt og uppruna, sonur Jónasar Jónssonar læknis í Hróarsdal, en uppalinn hjá merkisbóndanum Agli Gottskálkssyni á Skarðsá í Sæmundarhlíð. Árið 1883 giftist Jónas jungfrú Þóru Þorsteinsdóttur frá Reynistað og flutti sama ár vestur um haf og settist að nálægt Hallson í Norður Dakota. Árið 1892 andaðist kona Jónasar; höfðu þau eignast 2 börn, annað dó á unga aldri, en sonur þeirra, er Þorfinnur Egill heitir, er oftast með föður sínum. Árið 1893 giftist Jónas í annað sinn, Guðrúnu Guðmundsdóttur



Finnbogasonar frá Stefánsstöðum í Skriðdal. En tengdaforeldrar hans, Guðmundur og Guðlaug, eru nú hjá honum elli sinni. Þau Jónas og Guðrún eiga 9 börn, sem öll eru á heimili þeirra, nema elzta dóttirin, Björg, sem gift er Jóni Aðalvarði Guðmundssyni Hávarðssonar frá Hnefilsdal á Jökuldal. — Jónas flutti frá Dakota árið 1895 í Siglunessbygð og hefir búið þar síðan. Árið 1902 segist hann hafa reist fyrsta timburhúsið í bygðinni; var það flóðárið mikla, þegar flestir flúðu bygðina, og varð hann að flytja timbrið á sleðum að vetrinum um 70 mílur vegar.

Jónas er búmaður góður og einn efnaðasti maður þessarar bygðar, og hefir hyggindi þau er í hag koma; hann á eitt fallegasta heimili hér, sem ber vott um aðgætið búmannsauga. Hann hefir haft töluverða verzlun og aflað sér fjár með því auk búskaparins; hefir hann farið forsjállega að í þeim sökum og ekki reist sér hurðarás um öxl. Jónas hefir töluvert látið sig skifta almenn málefni. Mun hann hafa verið fyrsti hvatamaður að því að skóli var stofnaður hér, og hafði áður prívatkennara fyrir sín börn og nokkurra nágranna sinna. Hann hefir verið í stjórn lestrarfélags bygðarinnar og verið féhirðir þess frá því það hófst, og farið það vel úr hendi. Í Goodtemplarafél. bygðarinnar er hann líka og var formaður þess um alllangt skeið; er hann einn af þeim fáu, er þann flokk fylla af eldri mönnum. Hann er gleðimaður á mannfundum og einn þeirra fáu, er heldur þar uppi sönglist og ræðuhöldum. Hann er gestrisinn og glaður heim að sækja. Ef heimilið er undirstaða þjóðfélagsins, og því munu fáir neita, þá er óhætt að telja Jónas með nýtustu bændum hér.

*DAVÍÐ GÍSLASON* er Borgfirðingur að ætt, sonur Gísla bónda Jónssonar og Sólborgar Gísladóttur, er lengi bjuggu í Breiðholti í Flókadal. Kona Davíðs er Guðrún Andrésdóttir Guðmundssonar, en móðir Guðrúnar var Kolfinna Jakobsdóttir; bjuggu foreldrar Guðrúnar lengi að Hvassafelli í Norðurárdal í Mýrasýslu. Davíð flutti vestur um haf frá Hvassafelli árið 1899; dvaldi eitt ár í Winnipeg og flutti síðan í þessa bygð, og nam þar land og hefir bygt eitt hið snotrasta íbúðarhús í bygðinni með miðstöðvarhitun. — Davíð er

skýrleiksmaður, glaðlyndur og glettinn í orði og fjörgar jafnan hópinn, hvar sem hann er staddur. Hann er með nýtustu bændum hér, býr forsjálega og er dugnaðarmaður með afbrigðum og kominn í góð efni. Þau hjónin eiga 6 börn, hraust og efnileg.

*SIGURGEIR PÉTURSSON*, sonur merkisbóndans Péturs Jónssonar í Reykjahlíð, Jónssonar prests Þorsteinssonar hins ríka í Reykjahlíð. Móðir Sigurgeirs var Guðfinna Jónsdóttir bónda á Grænavatni. Bróðir Péturs í Reykjahlíð var Hallgrímur prófastur á Hólmum. Voru þeir margir bræðurnir og alment nefndir "Reykjahlíðarbræður".

Sigurgeir er tvígiftur. Fyrri kona hans var Hólmfríður Jónsdóttir Jónssonar bónda á Grænavatni. Það lifa tvö börn þeirra Geirfinnur og Kristjana, og verður þeirra síðar getið í þessum þáttum. Seinni kona Sigurgeirs er María dóttir hins alkunna merkismanns Jóns Jóakimssonar bónda á Þverá í Laxárdal í Þingeyjars. Móðir Maríu var Herdís Ásmundsdóttir, bónda á Stóruvöllum í Bárðardal. Kona Ásmundar var Guðný, ættuð frá Mjóadal í Bárðardal; var hún náskyld Sigurði bónda á Gautlöndum, föður Jóns alþingismanns á Gautlöndum. — Þau Sigurgeir og María eiga tvær dætur, Hólmfríði og Bergljótu, báðar enn í föðurgarði.

Sigurgeir flutti vestur um haf árið 1893; var fyrst í Argyle-bygð, en flutti síðan hingað og nam hér land og hefir búið hér síðan. Hefir hann bygt reisulegt íbúðarhús á landi sínu, með miðstöðvarhitun, og býr rausnarbúi.

Sá harmur bar Sigurgeiri og skyldfólki hans að höndum, snemma vetrar 1909 að sonur hans Arnþór druknaði ofan um ís á Manitobavatni. Arnþór sál. var mesti efnismaður, og vinsæll og öllum harmdauði, er kynni höfðu af honum.

Sigurgeir Pétursson er greindur maður og naut öllu meiri uppfræðslu í æsku en jafnaldrar hans margir. Hann er höfðingi heim að sækja og alíslenzk gestrisni á heimilinu. Hann hefir manna mest hvatt menn hér til félagsskapar um þau mál, er lúta að framtíðarhag bygðarinnar. Og sá tími mun einhvern tíma upp renna, að bygðarmenn hér sjá að hann hefir farið þar með rétt mál og að samheldni og samtök

eru sveitarbót. Hann hefir ásamt Geirfinni syni sínum verið helzti hvatamaður þess að hefta vínnautn í bygðinni og stofna Goodtemplarafélagið hér. Er þeim málum svo komið að talsverður meiri hluti æskulýðsins er í þeim hópi með töluverðum áhuga. Einnig var Sigurgeir með helztu forgöngumönnum þess, að hér var stofnað lestrarfélag og var formaður þess fyrstu árin. Hann fylgir með einlægum áhuga öllum hreyfingum í íslenzku þjóðlífi, bæði heima á Íslandi og hér vestra, og er ætíð reiðubúinn að leggja lið til góðrar hluttöku í málum þeim, er Vestur-Íslendingar vilja styrkja heima á Íslandi. Sigurgeir er nú rúmlega sextugur að aldri, en ern og nokkuð hraustur enn, og er með réttu talinn með nýtustu bændum bygðarinnar.

*GEIRFINNUR S. PÉTURSSON*, sonur Sigurgeirs, sem um er ritað hér að framan, hefir bú í félagi við föður sinn og er á sama heimili. Kona hans er Jóhanna Guðmundsdóttir bónda Jónssonar við Dog Creek P.O., sem um er ritað í þessum þáttum. Geirfinnur er greindur vel og hefir aflað sér í ýmsu talsverðrar þekkingar. Hann er fjörmaður og glaðlyndur, vel máli farinn bæði á ensku og íslenzku. Hann hefir nú seinni árin verið við gripakaup, bæði fyrir sjálfan sig og aðra, og mun hugur hans hneigjast fult svo mikið að verzlun eins og búskap. Hann hefir verið atorkusamur formælandi bindindismála í bygðinni, og orðið vel ágegnt.

*GUÐMUNDUR BJARNASON LUNDAL*, sonur Bjarna er lengi bjó í Brautartungu í Lunda-Reykjadal. Kona Guðmundar Lundals var Guðrún Gísladóttir Þorsteinssonar prests á Hesti. Guðm. Lundal flutti vestur um haf 1887 frá Arnþórsholti í Lundareykjadal; var fyrst 1 ár í Winnipeg, flutti síðan til Nýja Íslands og bjó eitt ár í Breiðuvíkinni; var bær hans nefndur "Finnmörk". Þaðan flutti hann í Geysisbygð, reisti þar bæ og nefndi "Öxará". Þaðan flutti hann í Narrows-bygð og bjó þar unz hann lézt 1. Okt. 1901. Börn Guðmundar eru þessi: Gísli bóndi í Álftavatnsbygð, Árni gistihússeigandi við Mulvey Hill, Jón verzlunarmaður í Sas-

katoon (Sask.), Guðrún kona B. Matthews (sbr. þátt B. M.). Móðir þeirra lifir enn og er hjá Gísla syni sínum.

*BJARNI HELGASON* er Mývetningur. Faðir hans var Helgi Jónasson frá Grænavatni. Kona Bjarna var Halldóra Bjarnadóttir bónda á Vöglum í Fnjóskadal, Jónssonar prests Þorsteinssonar frá Reykjahlíð; er hún nú dáin (d. 1911).

Bjarni flutti vestur um haf um 1890, settist fyrst að í Argyle og flutti svo þaðan hingað í Siglunesbygð og hefir búið hér síðan. Kom hann hér bláfátækur, en nú eiga þeir feðgar í félagi líklega stærsta og mest verða búið í bygðinni. Synir hans, Benedikt, Jón, Björn og Sigurður, eru allir í félagi við hann og hafa numið lönd umhverfis hann; en fimti sonur hans, Helgi, er lengstum í Argyle-bygð og vinnur þar bændavinnu. Einkadóttir Bjarna, Solveig, gegnir húsmóðurstörfum hjá föður sínum, síðan móðir hennar lézt.

Bjarni er með greindustu mönnum, en lætur lítið á sér bera, og er óhlutsamur um annara hagi, nema þegar hann réttir hjálparhönd, og hefir hann það lítt í hámælum. Hann er glaðlyndur og góðkýminn og vinsæll. Engan þátt tekur hann í almennum málum, en þegar hann er á mannfundum og hlustar á ræður manna, er glampi í augnaráði hans vottur þess, að hann skilur vel orð og framkomu þeirra, sem fremstir ganga.

*METHÚSALEM GUÐMUNDSSON* er Mývetningur að ætt. Faðir hans var Guðmundur Tómasson frá Kálfaströnd, en móðir hans var Kristín Jónsdóttir bónda á Grænavatni. Var hún móðursystir Sigurgeirs Péturssonar, sem um er ritað í þessum þáttum. Kona Metúsalems er Jakobína Jónsdóttir Tómassonar frá Kálfaströnd. Einkasonur þeirra Kjartan býr með þeim, efnilegur dugnaðarmaður. Metúsalem kom hér vestur 1894, var fyrst í Argyle-bygð, og flutti svo í Narrows-bygð og hefir búið þar síðan, og er vel efnum búinn. Metúsalem var fjörmaður og glaðlyndur og heldur þeim einkennum vel í ellinni. Hann ann öllu, sem íslenzkt er og er vinsæll. Munu þeir fáir í bygðinni, sem ekki víkja hlýlega að "gamla Sala", þegar fundum ber saman.

*GUÐMUNDUR ARNBJÖRNSSON ÍSBERG,* sonur Arnbjörns Sigmundssonar í Geitdal í Skriðdalshr. í S.-Múlasýslu. Kona hans er Ólafía Guðmundsdóttir, systir Guðrúnar konu J. Kr. Jónassonar, sem um er ritað í þessum þætti. Guðmundur Ísberg flutti vestur um haf 1887; bjó nokkur ár nálægt Akra í Norður Dakota, flutti þaðan til Grunnavatnsbygðar í Manitoba og þaðan eftir fá ár og nam land í Siglunessbygð og býr þar síðan. Guðm. er góður og forsjáll búmaður og vel efnaður. Ekki hefir þeim hjónum orðið barna auðið, en alið hafa þau upp nokkur fósturbörn. Ólafía kona Guðm. Ísbergs er yfirsetukona bygðarinnar, og hefir haft um hönd smáskamtalækningar og oft tekið að sér að hjúkra sjúkum og farist það vel. Hjúkrun sjúkra er svo mikmikils virði í sveitum eins og hér, þar sem oftast er um 100 mílur að sækja læknishjálp, að þeir er það erfiði stunda samvizkusamlega, eins og hér hefir átt sér stað, eiga það skilið að því starfi sé veitt heiðarleg viðurkenning.

*PÉTUR JÓNSSON,* fæddur að Fróðhúsum í Mýrasýslu 27. Okt. 1836. Giftur 1864, Vigdísi Jónsdóttur, fæddri í Tungugerði í Þingeyjarsýslu 7. Júlí 1832; er hún nú dáin fyrir nokkrum árum. Pétur fluttist norður í Þingeyjarsýslu með séra Benedikt Kristjánssyni í Múla og bjó þar nyrðra lengstum á Húsavík (fá ár á Akureyri), sótti hann þar sjó og vann ýmsa vinnu, þar á meðal oft að vera fylgdarmaður erlendra ferðamanna. Árið 1900 flutti Pétur vestur um haf tli Kristjáns sonar síns er áður var kominn vestur. Nam Pétur land í Siglunessbygð og reistu þeir feðgar þar bú og hafa búið þar síðan. Hefir Pétur nú afhent Kristjáni land sitt til eignar og dvelur hjá honum.

Þó Pétur sé nú 77 ára, er hann enn ern og hraustur og glaður í anda, og tekur óskelfdur áratogin á litla bátnum sínum móti öldunum á Manitobavatni. Hann er sístarfandi og er lifandi mynd af íslenzkum, umhyggjusömum og heiðarlegum húsföður. Hann ann Íslandi af alhug og kaupir og les íslenzk blöð öðrum fremur hér, og hans mestu skemtistundir eru eflaust þær, að ræða og rifja upp íslenzkar endurminningar.

*KRISTJÁN PÉTURSSON*, sonur Péturs þess er hér á undan er um ritað, er fæddur 1. April 1865 á Fótaskinni í Suður-Þingeyjarsýslu. Flutti hann vestur um haf 1893, kvæntist 23. Okt. 1897 Jenny Eggertínu Sigtryggsdóttur, hins sterka á Húsavík, Sigurðssonar; var sú ætt úr Öxnadal í Eyjafirði; voru þau bræðrabörn, Jenny og Sigtryggur Jónasson kapt. og fylkisþingmaður í Manitoba. Jenny er nýdáin, er þetta er ritað. Kona Sigtryggs hét Sigríður, ættuð úr Kræklingahlíð. Vann Kr. hér á ýmsum stöðum þar til faðir hans kom, og þeir reistu bú. Hann nam land á hlið við föður sinn fyrir nokkrum árum, en lét laust aftur af því honum þóttu óvænlegar framtíðarhorfur bygðarinnar. —Kristján er vel efnaður, þrátt fyrir stórmikinn kostnað er hann lagði í að leita lækningar konu sinni, er þjáðist af voða-sjúkdómnum, krabbameini. — Þeim hjónum varð ei barna auðið, en ólu upp bróðurdóttur Kristjáns, Baldínu Bjarnadóttur. Býr Bjarni faðir hennar að Mountain, N.D.



Kristján Pétursson er greindur maður og hefir aflað sér í ýmsu talsverðrar þekkingar á högum lands og lýða. Hann les talsvert og les með góðum skilningi; hann er fastlyndur maður og hreinn í lund; rammíslenzkur er hann í anda og er heitt í huga, þegar honum finst rétti Íslendinga misboðið,

eða eitthvað gengur öfugt heima á gamla landinu, og vel trúi eg því, ef honum endist líf og heilsa, að hann ætti eftir að sjá sólina roða um fjalltinda gamla Íslands.

*JÓN PÉTURSSON,* bróðir Kristjáns, býr hjá honum; hefir hann numið land þar skamt frá. Hann flutti vestur um haf 1903; hafði lengst um verið við verzlunarstörf heima, síðast um nokkur ár hjá Grími Laxdal verzlunarstjóra á Vopnafirði, sem nú er bóndi í Foam Lake bygð í Sask. — Jón er greindur maður, fáskiftinn um annara hagi og gæflyndur, hreinn og góður drengur, og hefir alstaðar áunnið sér hylli góðra manna í hvaða stöðu sem hann hefir verið.

*ÓLAFUR HELGASON THORLACÍUS,* sonur Helga Jónssonar bónda frá Skarfsstöðum í Dalasýslu, (er var nokkur ár við verzlun á Akureyri). Helgi var sonur Jóns bróður þeirra Guðmundar bónda á Hnjúki og séra Búa á Prestbakka. Móðir Ólafs Thorlacíusar var Sigurbjörg Ólafsdóttir bónda í Fagradal innri á Skarðströnd, bróður Árna Thorlacíusar umboðsmann í Stykkishólmi.

Ólafur Thorlacíus flutti vestur um haf 24 ára gamall (nú rúmlega sextugur) frá Breiðafirði. Var fyrst 10 ár í Dakota, fluttist þaðan til Álftavatnsbygðar í Manitoba og bjó þar fá ár; norður fyrir Narrows flutti hann 1892 og hefir búið þar síðan. Kona Ólafs er Guðrún Daðadóttir bónda í Hörðudal í Dalasýslu, var Daði bróðir Arngríms á Smyrlahóli í sömu sveit. Móðir Guðrúnar var norðlenzk að ætt. Þau eiga 12 börn. Einn sonur Ólafs, Jón, hefir numið land nálægt föður sínum. Ein dóttir, Sigríður, er gift, og er maður hennar Hjörtur Hörðdal, sonur Jóns Jónssonar Hörðdals frá Hóli í Hörðudal í Dalasýslu, Jónssonar hreppstjóra á Hóli í Hörðudal. Jón býr í Álftavatnsbygð.

Ólafur Thorlacíus er orðinn vel efnaður þrátt fyrir það þó hann hafi haft margmenna fjölskyldu fyrir að sjá. Hann er fróðleiksmaður, ættfróður vel og íslenzkar endurminningar eiga í huga hans óþrjótandi forðabúr, sem hann er ótrauður að miðla öðrum úr, því honum er létt um mál-

og ljúft að tala um Ísland, og er síungur í anda. Hann er einn hinna merkari frumbyggja hér, sem beitt hafa frumbyggjabátnum smáa með lagi og þrautseigju gegn öldum erviðleikanna.

*HALLUR HALLSSON* frá Sleðbrjót í Norður-Múlasýslu, bóndi við Moose Horn Bay. Faðir Halls var Hallur Sigurðsson bóndi að Sleðbrjót, var hann bróðir Einars föður Halls á Rangá í Hróarstungu og Björns á Ketilsstöðum í Jökulsárhlíð, föður Stefáns sýslumanns á Ísafirði. En móðir Halls, kona Halls á Sleðbrjót, var Guðný dóttir séra Sigfúsar Guðmundssonar á Ási í Fellahreppi í Norður-Múlasýslu. Bróðir Halls var Eiríkur bóndi á Sleðbrjót og Sigfús bóndi á Sleðbrjót faðir Önnu tengdamóður Dr. Ólafs Stephensen í Winnipeg. Kona Halls er Sigurveig Jónsdóttir Sigurðssonar bónda frá Finnsstöðum í Eiðaþinghá í Suður-Múlasýslu. — Hallur fluttist vestur um haf 1889. Var fyrst eitthvað í Álftavatnsbygð og flutti síðan norður í Narrows-bygð, nam þar land og hefir búið þar síðan og farnast vel.

Hallur bjó lengst um á Sleðbrjót, síðast í Grófarseli, sem er kot undan Sleðbrjót. Hallur er tvígiftur, var fyrri kona hans Sigurbjörg Sigurðardóttir; móðir hennar var Guðbjörg systir Guðnýjar móður Halls; lifir einn sonur þeirra, Sigfús, heima á Íslandi (í Fljótsdal). Hallur var fátækur mjög á fyrri búskaparárum sínum og varð að leita sveitarstyrks. Ekki er þess getið honum til vansa, því þegar er hann hafði efni til, galt hann þá skuld aftur einn af fáum.

Hallur var nágranni minn í æsku og tíður gestur á heimili föður míns. Er hann einn af þeim mönnum, er eg minnist bezt frá þeim dögum. Hvað ervitt sem hann átti, var hann síglaður og það kom æfinlega sólskin og hlátur í bæinn með honum. Hann lék við okkur börnin, kom drengjunum til að glíma, því hann var afbragðs glímumaður, harðsnúinn, tálknmjúkur og kunni vel öll glímubrögð. — Nú er hann um eða yfir áttrætt og ber ellina vel. Eg hygg hann muni ganga til síðustu glímunnar með bros á vör, því alt af

fylgir glaðlyndið honum. — Hann á fimm börn með síðari konu sinni. Ein dóttir hans er heima, býr á Grófarseli; er hún fósturdóttir Solveigar ekkju Eiríks bróður hans. Hinar þrjár dætur Halls giftar hér; en einn sonur, Hallur, býr með föður sínum

*JÖRUNDUR SIGURBJÖRNSSON EYFORD* bjó um nokkuð mörg ár í Siglunesbygð. Bæði hann og Anna kona hans voru ættuð úr Þingeyjarsýslu. Jörundi græddist hér töluvert fé um tíma, en þegar honum fanst efnahag sínum halla hér, flutti hann vestur að hafi og dvaldi þar um hríð, Blaine, Wash., og víðar. Nú er hann fluttur til Athabasca Landing í Alberta, hefir numið þar land og stundar mest fiskiveiði. Jörundur var greindur maður og vinsæll, harðgjör og fylginn sér. — Sonur Jörundar, Sigurbjörn, nam hér land það, er faðir hans bjó á, og hefir mest lagt stund á fiskiveiði. Hann er um margt líkur föður sínum.

*ASGAR SVEISTRUP,* danskur að ætt, en giftur íslenzkri konu, flutti hingað frá Íslandi; er því alt af talinn með Íslendingum og mælir hversdagslega íslenzkt mál. Faðir Sveistrups var Randólf Emil Sveistrup í Kaupmannahöfn, yfirforingi í sjóher Dana. Móðir Sveistrups, Thóra-Vilhelmina (fædd Lárusson). A. Sveistrup er fæddur í Kaupmannahöfn 29. Sept. 1859; fór í herþjónustu 18 ára gamall, var í her Dana í Westindium (St. Thomas) frá 1867 til 1874, og var þá orðinn undirforingi í hernum. Eftir eins árs dvöl í Kaupmannahöfn flutti hann til Íslands og varð bókhaldari og verzlunarstjóri við verzlanir Consuls N. Chr. Grahms í Stykkishólmi, Ólafsvík og Þingeyrum. Kona A. Sveistrups er Ólína Bjarnina Tjörfadóttir bónda á Hnausum í Eyrarsveit, Jónssonar bónda Jónssonar er lengi bjó í Hlíð í Hnappadal. Móðir Ólínu hét Ólöf Bjarnadóttir, systir hins þjóðkunna merkismanns Torfa skólastjóra í Ólafsdal.

Þau Sveistrup og Ólína giftust 1896 í Ólafsvík; þau hafa eignast 10 börn, og lifa 8 þeirra, 4 stúlkur og 4 piltar. Þau fluttu vestur um haf árið 1900, dvöldu lítinn tíma í Winnipeg og Westbourne og fluttu síðan hér í bygðina, og hafa búið hér síðan og farnast eftir vonum með jafnmikla

fjölskyldu. Sveistrup er vel að sér í mörgu, fjörmaður og skemtir hér með þeim beztu á mannfundum; mundi hafa verið afbragðs leikari, ef hann hefði æft þá list meira.

*PÁLL KJÆRNESTED* er fæddur á Skriðu í Hörgár-



dal í Eyjafjarðarsýslu. Faðir Páls var Kristján Jónsson Kjærnested Þorlákssonar bónda á Skriðu; móðir Páls var Þorbjörg Pálsdóttir prests á Bægisá Árnasonar biskups á Hólum. Móðir Þorbjargar var Þórdís Stefánsdóttir Schevings sýslumanns. Páll fluttist til Ameríku 24 ára gamall, giftur fyrir tveim árum Sesselju Friðriksdóttur, fósturdóttur séra Benedikts Vigfússonar á Hólum. Eftir sex ára sambúð misti Páll konu sína og eitt barn, er þau eignuðust. Að þrem árum liðnum giftist hann aftur Guðnýju Jóhannesdóttur frá Vatni í Haukadal í Dalasýslu, Þorsteinssonar að

Saurum. Móðir Guðnýjar hét Kristín, var hún að langfeðgatali í 4. lið komin frá Jóni Egilssyni sagnaritara á Stóra Vatnshorni í Haukadal. Þau hjónin Páll og Guðný fluttust til Norður Dakota, er þau komu vestur um haf, og bjuggu þar um nokkur ár; þaðan fluttust þau til Manitoba og bjuggu þar þrjú ár, fluttu síðan í Narrows-bygð, og hefir Páll búið þar síðan. Eftir 17 ára sambúð misti Páll konu sína; höfðu þau eignast 10 börn, og lifa 6 þeirra, öll mannvænleg: Karl Kristján, Gustav Adolph, Vilhelm Axel og Jóhannes, Þorbjörg Sesselja og Þórdís; þrjú börn þeirra dóu ung, 1 piltur 13 ára. Þrem árum eftir lát Guðnýjar giftist Páll í þriðja sinn, Snjólaugu Jónsdóttur, ættaðri úr Þingeyjarsýslu; eiga þau eina dóttur er Katrín heitir.— Börn Páls hafa öll verið á heimili hjá honum, en dætur hans og einn sonur (Karl) verið um tíma í Winnipeg að afla sér mentunar. Í vor flutti Karl, elzti sonur hans, frá honum og nam land skamt frá föður sínum; er hann giftur Lilju Benjamínsdóttur frá Nýja Íslandi. — Páll býr góðu búi, hefir brotist gegnum frumbyggja-þrautirnar með kjarki og atorku, og er með réttu talinn einn af merkustu bændum hér. Hann hefir góða greind. er fjörmaður og glaðlyndur, einbeittur og fastur í lund, höfðingi heim að sækja og rammíslenzkur í anda. Synir Páls munu allir hafa numið land umhverfis hann.

*EINAR EIRÍKSSON,* Skagfirðingur, flutti vestur um haf 1898. Kona hans Björg Jónsdóttir(?), ættuð úr Skagafirði. Einar flutti hér norður fyrir Narrows litlu eftir að hann kom vestur, nam land og býr þar síðan. "Hann er fjörgamall maður, þrotinn að heilsu."

*ÓLAFUR ILLUGASON* Einarssonar frá Hóli á Langanesi. Kona hans Guðrún Jónsdóttir, ættuð úr Þistilfirði. Flutti vestur um haf frá Eskifirði 1897, var fyrst um tíma í Álftavatnsbygð og giftist þar. Flutti síðan norður fyrir Narrows og nam land og býr þar enn.

*STEPHAN STEPHANSSON HRÚTFJÖRÐ,* póstafgreiðslumaður við Dog Creek P.O., er fæddur á Húki í Miðfirði. Foreldrar hans voru Stefán Gunnlaugsson og Karólína Bjarnadóttir. Stephan ólst upp hjá foreldrum sínum þar til hann var 10 ára; þá misti hann föður sinn, og eftir það var hann lengst um með móðurbróður sínum, Davíð Bjarnasyni, og konu hans Þórdísi Jónsdóttur, er lengst um bjuggu í Hrútafirði. Stephan flutti vestur um haf 1882 frá Melum í Hrútafirði og kom til Winnipeg 2. Ágúst það ár. — Um komu sína hér vestur og útlitið hér þá og fyrstu frumbýlingsstríðið, farast Stepháni þannig orð: "En sú breyting, að koma úr kyrðardvalanum heima og fleygja sér inn í þessa breytilegu mannfélags-hringiðu, sem hér var þá að myndast. Gott árferði hafði verið undanfarið og verzlunarblómgun (boom) í Winnipeg, en var nú að breytast til hins gagnstæða, því harðæri mátti heita hér frá 1882 til 1892 og jafnvel lengur, þó þolanleg ár kæmi á milli, ofþurkar, frostskemdir á korni og fleira andstætt, var þá alltítt. Það reyndi þá á þolið og þrautseigjuna í vesalings löndunum, mállausum, lítilsvirtum og fákunnandi í verknaði, sem hér tíðkast. Hefði íslenzki þjóðflokkurinn ekki haft þessa kosti og margháttaða hæfileika aðra, sem aðeins þurfti að vekja



til lífs, þá hefðu þeir sokkið í djúp gleymskunnar. En bláfátæki, marglamaði íslenzki þjóðflokkurinn átti þrek til að kljúfa þessa erviðleika og brjóta sér hér braut til sigurs og frægðar."

Eg hefi tekið orðrétt þessi ummæli Stephans í bréfi til mín. Þau lýsa svo vel bæði manninum sjálfum og þjóðlífsbaráttu Íslendinga hér.

Stephan dvaldi í Winnipeg 3 ár og vann hvaða vinnu, sem fáanleg var, oft illa launaða. Vorið 1885 fór hann vestur undir Klettafjöll og var þar yfir sumarið. Telur hann það sumar einna skemtilegastan hluta æfi sinnar, loftslagið holt og hreint og margt annað, sem honum féll þar vel. Síðan flutti hann aftur til Winnipeg, hafði þar um stund matsöluhús, og flutti svo þaðan hér norður árið 1892 og hefir búið hér síðan. Hann hafði um eitt skeið gripabú mikið, en hefir nú fækkað gripum og minkað um sig, og hefir rekið verzlun talsverða nú síðari árin.

Það er mjótt eiði milli víkur, er gengur norður úr Manitobavatni og forarflóa þeirra (*slough*), er liggja suður úr Dog Lake. Norðvestan við þessa vík stendur hús Stephans. Eiga þar allir leið um, sem inn í bygðina koma, bæði að austan og sunnan, og má því með sanni segja að Stephan býr í þjóðbraut; hafa kunningjar hans það stundum í glettum við hann, að hann sitji þar eins og Heimdallur við Gjallarbrú og varði innganginn í bygðina. Það er hverri bygð holt að fyrstu áhrifin , sem nýkomendur fá af bygðinni, séu góð, og þau Stephán og kona hans hafa staðið þar vel í stöðu sinni. Það er höfðingjabragur á heimili þeirra, húsakynni hin beztu og húsbændur glaðlyndir og málhreifir, og veita vel. Stephán var einn hinna fyrstu, er bygði sér stórt og myndarlegt hús. Stephan er einn af öllum hér, og líklega þó víðar væri leitað, sem heldur þeim forn-íslenzka höfðingjasið að hafa heimboð. Býður hann þá heim öllum sveitungum sínum, stærri og smærri, veitir rausnarlega og er glaður og fjörugur eins og unglingur. Hefir hann haft þrjú slík heimboð, síðan eg kom í þessa bygð fyrir 5 árum. Stephan á þarna tvö lönd.—Hann er tvígiftur. Giftist fyrst 28. Okt. 1887 Ingigerði Jónsdóttur frá Gilhaga í Skagafirði,

Konu þessa misti hann eftir eins árs sambúð. Þau eignuðust eina dóttur, er dó mánaðargömul. Síðari kona Stephans heitir Súsanna. Er hún færeysk að kyni, en íslenzk í anda. Þau hjónin eiga 2 börn, Ingu og Stephan.

Fyrstu árin, sem Stephan bjó þarna, var í sambýli með honum mágur Súsönnu konu hans, Jens, frá Færeyjum. Hann nam síðar land norðvestan við Dog Lake; annar mágur Súsönnu, Harry (kona hans Wilhelmina) hefir og numið þar land, og einnig bróðir Súsönnu, Rögnvaldur, og frændi þeirra nákominn, er Kristján heitir. Er þessa færeyska fólks hér getið af því það hefir samlagast svo Íslendingum, og ókunnugir mundu ætla, að það fólk væri íslenzkt, Það mælir alt hversdagslega íslenzkt mál og verður t. d. varla heyrt á málinu annað en Jens sé Íslendingur. Þetta færeyska fólk er alt mjög myndarlegt fólk og farnast vel, og hefir áunnið sér virðing og vinsæld bygðarbúa. Um þetta fólk frá Færeyjum er getið í þessum þætti um Stephan af því að það eru tengdirnar við Stephan, sem ollu því að það fluttist í þessa bygð.

Stephan er einn af elztu frumbyggjendum hér og einn af þeim nafnkendustu. Ekki tekur hann mikinn þátt í almennum málum, en þá sjaldan hann talar á mannfundum kemur hann skýrt og ljóslega orðum að hugsun sinni, og þó hann sé hniginn að aldri, hefir hann enn þá mikið af framfarahug æskumannsins.

*JÓN BRANDSSON,* ættaður úr Gullbringusýslu. Ekki veit sá, er þetta ritar, hvenær Jón kom vestur um haf, eða hingað í bygðina. Kona Jóns er Þorgerður, ættuð úr Skaftafellssýslu eystri; er systir S. H. Skaftfells að Narrows, sem getið er á öðrum stað í þáttum þessum. Jón nam land við Dog Lake norðvestanvert, en sagði því lausu aftur. Fluttist svo suður á Siglunes og býr þar á "stjórnarlandi"; hefir ei numið aftur land enn. Jón er eignalítill, en kemst allvel af, þó hann eigi fyrir 5 börnum að sjá.

*LÁRA FREEMAN,* búsett við Moose Horn Bay; ráðsmaður hjá henni er nú Jens Færeyingur, sá er áður er um

getið. Kom til Ameríku 1887 ásamt móður sinni og móðurbróður, Jóni Bildfell, föður Jóns Bildfells fasteignasala í Winnipeg. Flutti í þessa bygð 1899. Faðir Láru var séra Lárus Scheving, er var prestur í Vogsósum, sonur Dr. Hallgríms Schevings kennara við Bessastaðaskóla og Reykjavíkurskóla. Móðir Láru er Elín Ögmundsdóttir bónda Jónssonar frá Bíldfelli í Grafningi í Árnessýslu á Íslandi, og er hún nú hjá dóttur sinni. Lára er myndar-kona og farnast vel búskapurinn.

II.

Eftir aldamótin 1900 voru hreyfíngar miklar um það, að fá járnbraut lagða norður með vatninu frá Oak Point og til Narrows. Fór hver sendinefndin eftir aðra á fund fylkisstjórnarinnar til að fá máli þessu komið í framkvæmd. Voru eitt sinn í þeirri för 100 manns, og var J. Kr. Jónasson þar fyrir hönd Siglunessbygðar. Stjórnin lofaði þá, að eftir 2 ár skyldi brautin komin til Narrows, og um sama leyti hafði sambandsstjórnin lofað að láta grafa skurð úr Manitobavatni, til að lækka það og þurka upp löndin umhverfis það. Af þessum orsökum má telja, að byrjaði aftur landnám að nýju í Sigluness- og Narrows bygðum og alt norður að Moose Horn Bay, sem er um 20 mílur norðvestur frá Narrows. Það hvatti marga líka til að flytja hér norður, að eftir árið 1902 fór vatnið að lækka. Er sú trú margra hér, bygð á sögnum gamalla Indíana, að vatnið sé að hækka í 10 ár ("flæði") og aftur sé það að lækka í 10 ár. Hvort sú trú er rétt veit ei sá, er þetta ritar, en að gætinna og skilríkra manna sögn hefir hann frá Íslendingum þeim er fyrst námu land hér, að vatnið hafi farið að hækka árið 1892, og aftur að lækka 1902, og árið 1912 fór það aftur að hækka og hefir alt af síðan farið hækkandi fram að þessum tíma (22. Ágúst 1913).

Hér á eftir verða taldir þeir landnámsmenn, er sezt hafa að í Narrows og Sigluness bygðum eftir síðastliðin aldamót.

*STEFÁN ÓLAFUR EIRÍKSSON*, var einn með þeim fyrstu. Hann var fæddur árið 1857 á Hrollaugsstöðum í Hjaltastaðaþinghá. Foreldrar hans voru Eiríkur Guttormsson og Jóhanna Jóhannesdóttir, bónda á Hrollaugsstöðum. Bróðir Jóhönnu var Sigurður Jóhannesson stórkaupmaður í Kaupmannahöfn, sem nú er dáinn fyrir fám árum. Stefán kvæntist árið 1881 Oddnýju Sigurðrardóttur Finnssonar bónda á Brekku í Hróarstungu. Árið 1883 fluttu þau hjón vestur um haf frá Sleðbrjót í Jökulsárhlíð í Norður-Múlasýslu og dvöldu í Winnipeg 1½ ár. Í Desember 1884 fluttu þau sig til Nýja Íslands og settust að syðst í bygðinni, "við lækinn", sem kallað var, (Boundary Creek), þar sem nú er kallað Winnipeg Beach; þar bjuggu þau í 16 ár. Fluttu þaðan til Poplar Park og bjuggu þar 6 ár. En vorið 1907 seldi Stefán land sitt og fluttist aftur vestur á bóginn, og nam land á vesturströnd Dog Lake (Rakkavatns), því hann átti þá ótekin tvö heimilisréttarlönd, sem öllum þeim var veitt er land höfðu numið fyrir árið 1887. Þau hjón eiga 5 sonu, alla efnismenn, og heita þeir: Sigurður, Óli, Kristján, Helgi og Ármann. Þrír hinir fyrstnefndu hafa numið land í grend við föður sinn, og búa þeir félagsbúi með foreldrum sínum og hefir farnast vel. — Stefán er greindur maður og fróður



um margt, les mikið og hefir tekið talsverðan þátt bæði í bygðarmálum og í stjórnmálum, og fylgir kappsamlega málum þeim, er hann vinnur að.

*KRISTJÁN EIRÍKSSON,* bróðir Stefáns, er um er ritað hér að framan, kom frá Íslandi árið 1886 og var í för með honum Jóhannes bróðir hans, sem hefir um mörg ár unnið að barnakenslu víðsvegar meðal Íslendinga hér vestra, en hin síðari ár stundað heimspekinám við Wesley College í Winnipeg og er nú útskrifaður með góðum vitnisburði. Kristján nam land í Nýja Íslandi og bjó þar. Vorið 1907 flutti hann með sonum sínum hér vestur og nam land suðaustan við Dog Lake, og synir hans 4 námu þar líka land; heita þeir: Carl, Þórarinn, Halldór og Stefán Ólafur. Einn þeirra, Halldór, er giftur dóttur Eggerts Stefánssonar, nábúa Kristjáns, er síðar verður getið. Kona Kristjáns Eiríkssonar er María Marteinsdóttir, Jónssonar, Marteinssonar frá Högnastöðum í Reyðarfirði í Suður-Múlasýslu.

Kristján Eiríksson er með beztu bændum hér, dugnaðarmaður hinn mesti og þrekmaður, og synir hans allir líkir honum um það, líklegir til að verða góðir og nýtir bændur.— Þeir bræður, Stefán og Kristján voru báðir þrekmenn í æsku og harðsnúnir glímumenn. Synir þeirra hafa allir erft þann kost feðra sinna og leggja talsverða stund á glímur og bera oft sigur af hólmi.

*EYJÓLFUR SVEINSSON* flutti vestur um haf frá Seyðisfirði árið 1903. Faðir hans var Sveinn Jónsson bóndi í Súluholtshjáleigu í Flóa í Árnessýslu. Móðir Eyjólfs Halldóra Sigurðardóttir frá Þórustöðum í Grímsnesi. Kona Eyjólfs er Jóna Guðmundsdóttir frá Hóli í Garðahverfi í Gullbringusýslu, en móðir Jónu var Þóra Jónsdóttir frá Vatnsholti í Flóanum. Eyjólfur var fyrst 3 ár í Winnipeg og vann þar að trésmíði. Til Dog Lake bygðar flutti hann haustið 1906 og hefir búið þar síðan og unnið að trésmíði samfara búskapnum. Eyjólfur er myndarmaður og kemst vel af—.

*EINAR SVEINSSON,* gullsmiður, bróðir Eyjólfs sem

um er ritað hér á undan, flutti vestur um haf frá Akureyri árið 1903. Settist hann að í Selkirk og dvaldi þar 2 ár; síðan eitt ár í Winnipeg og flutti norður til Dog Lake öndverðlega á árinu 1907. Kona Einars er Málfríður Sigurðardóttir bónda á Móakoti við Reykjavík. Móðir Málfríðar var Guðrún Jóhannesdóttir og er sú ætt af Vesturlandi, var Jóhannes faðir Guðrúnar alinn upp hjá Stefáni Scheving, er bjó á Ingjaldshóli undir Jökli. Einar býr í nánd við Eyjólf bróður sinn á vesturströnd Dog Lake. Jafnframt búinu stundar hann iðn sína, gullsmíði, eftir föngum, því á það mun hann handlægnastur. Hann er afbragðs vel hagur í sinni iðn og kemst vel af.

*FRIÐFINNUR ÓLAFSSON LYNGDAL* flutti vestur um haf vorið 1904. Faðir hans var Ólafur Jónsson bóndi að Skútum í Glæsibæjarhreppi í Eyjafjarðarsýslu, en móðir hans Guðrún Guðmundsdóttir frá Ytra Koti í Hörgárdal í sömu sýslu. Friðfinnur dvaldi fyrst um tíma í Winnipeg og Poplar Park, en flutti til Dog Lake 1907. Kona hans er Guðríður Jónsdóttir, bónda Þorvaldssonar að Stóra Eyrarlandi í Eyjafirði, en móðir hennar var Sigríður Guðmundsdóttir frá Brún í Svartárdal í Húnavatnssýslu. Friðfinnur er dugnaðarmaður og búnast vel.

*JAMES GOODMAN* (Guðmundur Bjarnason) flutti vestur um haf árið 1887 með foreldrum sínum, Bjarna Guðmundssyni frá Ytra Koti í Hörgárdal í Eyjafirði, og Ólöfu Sigurðardóttur óðalsbónda að Ási í Glæsibæjarhrepp í sömu sýslu. Þau settust að í Nýja Íslandi og bjuggu þar um allmörg ár. Þaðan fluttist Guðmundur til Poplar Park árið 1901 og giftist þar konu af hérlendu kyni, Minnie Monkman. Urðu samfarir þeirra stuttar, því hún lézt af barnsförum ári síðar en þau giftust. Dvaldi Guðmundur eftir það á ýmsum stöðum, en fluttu á vesturströnd Dog Lake árið 1909; þar giftist hann í annað sinn Helgu Jónasdóttur bónda að Hólsgerði í Eyjafirði. Móðir Helgu var Jóhanna Pálsdóttir frá Kolgrímastöðum í Saurbæjarhrepp í

Eyjafjarðarsýslu. Guðmundur er myndar maður og búnast vel þarna.

*STEFÁN ÓLAFUR GUÐBRANDSSON*, fæddur 25. Febr. 1867. Faðir Stefáns var Guðbrandur bóndi á Ingjaldshóli í Ytra Neshrepp í Snæfellsnessýslu, Guðbrandssonar bónda á Víghólsstöðum á Fellsströnd, Oddssonar, Guðbrandssonar. Móðir Guðbrandar föður Stefáns var Sigríður dóttir Guðbrandar ríka á Hólmlátri á Skógaströnd. Móðir Stefáns, sem enn er á lífi, Guðbjörg Magnúsdóttir Árnasonar Jónssonar; var Árni ættaður úr Bervík undir Jökli. Móðir Guðbjargar en kona Magnúsar Árnasonar var Elín Jónsdóttir óðalsbónda og gullsmiðs frá Þórólfsstöðum í Dalasýslu, en móðir Elínar var Guðbjörg Magnúsdóttir, prests Einarssonar á Kvennabrekku. — Kona Stefáns Guðbrandssonar er Sigríður Lárusdóttir. Faðir hennar var Lárus Fjeldsted Eggertssonar, Vigfússonar Fjeldsteds. Kona Eggerts Fjeldsteds var María dóttir Einars "gamla" í Rauðseyjum á Breiðafirði. Bróðir Maríu og sonur Einars var Sturlaugur í Rauðseyjum, faðir Guðbrandar í Hvítadal, föður Margrétar, móður Dr. B. J. Brandson í Winnipeg. Bræður Guðbjargar móður Stefáns eru Magnús Smith taflkappi og Elías Dalmann járnbrautarverkstjóri. Séra Magnús á Kvennabrekku, forfaðir Stefáns, var móðurfaðir séra Þorleifs Jónssonar í Hvammi, afa Lárusar H. Bjarnasonar, prófessors í Reykjavík.

Þau Stefán og Sigríður bjuggu á ýmsum stöðum í Snæfellsnessýslu, síðast á Hrafnkelsstöðum í Eyrarsveit og þaðan fluttu þau vestur um haf árið 1905; voru fyrst eitt ár í Winnipeg, síðan eitt ár á Rabbit Point. Þaðan fluttu þau norður fyrir Narrows og hefir Stefán numið sér þar land. Þau komu hér vestur eignalaus, en hafa nú komið sér upp sæmilegu húsi og búi, og eiga þó 9 börn á lífi, flest á ómagaaldri. Má því heita þeim hafi farnast vel og líkur til að betur verði, þegar fleira af börnunum getur tekið þátt í lífsbaráttunni með þeim.

*ANDRÉS GÍSLASON* er fæddur 1. Marz 1855 á Skin-

þúfu í Vallhólmi í Skagafirði. Faðir Andrésar var Gísli Jónsson bónda að Grófargili, er bjó þar um alllangt skeið. Amma Andrésar, kona Jóns í Grófargili, hét Halldóra; var hún sögð laundóttir Halldórs Vídalíns klausturhaldara á Reynistað. Móðir Andrésar var Ingunn Steingrímsdóttir; kona Steingríms og móðir Ingunnar hét Sigríður Ólafsdóttir. Voru þau ættuð af Skagaströnd. Kona Andrésar Gíslasonar er Sigríður Jónsdóttir, fædd 19. Sept. 1864 að Húsatóftum á Skeiðum í Árness slu. Foreldrar hennar voru Jón Guðnason og Sigríður Jónsdóttir. — Þau Andrés og Sigríður fluttu vestur um haf sumarið 1902, dvöldu í Winnipeg þar til haustið 1903, en fluttu þá til Selkirk og þaðan til Delta vorið 1904. Haustið 1904 fluttu þau til Rabbit Point í Álftavatnsbygð, og vorið 1905 fluttu þau í Siglunessbygð; hefir Andrés numið þar land og bygt timburhús myndarlegt. Þegar þau fluttu vestur um haf, komu með þeim tveir synir Andrésar, Ingólfur þá 16 ára og Helgi Bergmann, sonur þeirra Sigríðar og hans, 4 ára. Þeim bar sá harmur að höndum sumarið 1911, að Helgi sonur þeirra varð fyrir skoti úr byssu, er hann var á fuglaveiðum, og beið bana af. Andrés var blindur orðinn, en eldri sonur hans fjærverandi. Var sonarmissirinn því sorglegri, því hinn látni var harðgjör og efnilegur og í þann veginn að verða ellistoð foreldra sinna. Þau Andrés og Sigríður halda áfram búskap, þótt bæði séu heilsulasin og hann blindur, og eru þeim nú til aðstoðar hálfbróðir Sigríðar, nýkominn frá Íslandi, Jón Steinþórsson, og frændi Andrésar, Kristján að nafni. Þau hafa ekki stórt bú, en farsælt, og má því heita þeim farnist vel efnalega. Andrés er greindur maður og fastlyndur.

*JÓN MAGNÚSSON,* Skaftfellingur, flutti í Siglunessbygð haustið 1907; keypti hann land af Birni Mathews, er áður var eign Sæmundar Borgfjörðs. Um Jón er áður getið í þætti Álftvetninga. Jón er greindur og glaðlyndur og fyndinn í orði.

*BENEDIKT MAGNÚSSON,* bróðir áðurnefnds Jóns, fluttist í Siglunessbygð með bróður sínum og nam þar land.

—Báðir eru þeir bræður einhleypir menn og farnast vel efnalega.

*JÓHANNES JÓNSSON*, frá Fossvöllum í Jökulsárhlíð, nam land suðaustan til í Siglunessbygð vorið 1906. Hann fluttist vestur um haf árið 1901 og settist að í Álftavatnsbygð og vann hjá bændum þar fyrst, lengst hjá Jóni Sigfússyni að Clarkleigh P.O. Síðan byrjaði hann búskap á Rabbit Point á landi er Jón átti og bjó þar til þess er hann flutti hér norður. Foreldrar Jóhannesar voru Jón Björnsson bónda Hannessonar frá Brunahvammi í Vopnafirði, og kona hans Ingunn Jóhannesdóttir frá Syðrivík í sömu sveit. Kona Jóhannesar er Ólöf Jónsdóttir, bónda Jónassonar frá Valþjófsstöðum í Núpasveit; voru þeir bræður Jón og Gísli faðir Þorsteins skálds og ritstjóra í Reykjavík. Þau Jóhannes og Ólöf eiga 7 börn á lífi, 3 sonu, Jón Helga, greindan efnispilt, er numið hefir land í grend við föður sinn, Ólaf og Óskar; dætur þeirra eru Ingunn, Ástfríður, Helga og Ragna. — Með Jóhannesi kom hér norður Ingunn móðir hans, þá hátt á sjötugs aldri, og nam hún hér land. Hún er dáin fyrir nærri þrem árum. Ingunn var dugnaðar kona með afbrigðum og naut virðingar og vinsælda allra er henni kyntust, í fylsta mæli. Jóhannes býr góðu búi og heimili hans er eitt með þeim myndarlegustu hér um slóðir. Enginn mun sá vera, sem þekkir hann rétt, er ekki ann honum þess sannmælis, að hann sé "góður drengur." Hann hefir góða greind og er fastlyndur. Hann er í skólanefnd í Siglunesshéraði og var endurkosinn til þess starfa næstliðið ár.

*EGGERT STEFÁNSSON* býr suðaustan við Dog Lake. Eggert er bróðir Kristins Stefánssonar skálds, sonur Stefáns Tómassonar og Vigdísar Magnúsdóttur, er bjuggu að Egilsá í Skagafirði. Eggert flutti vestur um haf 1885. Kona hans er Margrét Halldórsdóttir bónda við Íslendingafljót í Nýja Íslandi; var hann einn af fyrstu frumbyggjum Nýja Íslands. Kona hans og móðir Margrétar er Ingibjörg Jónatansdóttir. Eggert dvaldi fyrst á ýmsum stöðum í Geysis-bygð í Nýja Íslandi og nam þar síðan land og bjó

þar í 13 ár. Árið 1910 seldi hann landið og flutti bú sitt og skylduliið vestur til Dog Lake og býr þar á heimilisréttarlandi er einn sona hans hefir numið. Tveir aðrir synir Eggerts hafa numið lönd í sömu *section*. Synir Eggerts heita Halldór, Marilíus og Ragnar.

*HALLUR ÓLAFSSON* Hallssonar bónda á Efri Hömrum í Rangárvallasýslu. Móðir Halls var Vigdís frá Syðri Hömrum í sömu sýslu. Kona Halls er Guðrún Kristjana Björnsdóttir Þorleifssonar, Jónssonar kaupmanns á Bíldudal. Móðir Kristjönu var Anna Elísabet Bergsteinsdóttir Ólafssonar frá Bergvaði í Fljótshlíð.

Hallur Ólafsson flutti vestur um haf frá Seyðisfirði í Norður-Múlasýslu vorið 1903; fluttist fyrst til "Bluff", vestan við Manitobavatn, og bjó þar fjögur ár. Þá brá hann búi og flutti heim til Íslands vorið 1908, en kom vestur aftur um haustið hið sama ár. Nam hann land það ár við Moose Horn Bay og býr þar síðan. Börn þeirra Halls og Kristjönu voru 3, 1 dóttir er lézt í æsku, og tveir synir; Ólafur sonur þeirra er verzlunarmaður við Eriksdale, Man. Kona hans er Guðrún Björnsdóttir Ívarssonar bónda að Vaði í Skriðdal í Suður-Múlasýslu; en kona Björns Ívarssonar var Ingibjörg Bjarnardóttir frá Viðfirði í Suður-Múlasýslu. Annar sonur Halls, Björn, hefir numið land í grend við föður sinn; er kona hans Ingibjörg Bjarnadóttir, ættuð af Vestfjörðum; var móðir hennar norsk að ætt og hét Anna Maria Ballevik. Hallur Ólafsson og synir hans eru allir nytsemdarmenn. Sérstaklega hefir Ólafur sonur Halls getið sér góðan orðstír sem kaupsýslumaður.

*SIBURÐUR SIGFÚSSON* er Húnvetningur að ætt. Sigfús faðir hans, nú nýdáinn hjá Sigurði syni sínum, var Hannesson Jónatanssonar, bróður Jóhannesar er bjó á Breiðavaði í Langadal. Móðir Sigurðar Sigfússonar hét Hólmfríður Halldórsdóttir Auðunssonar, er lengi bjó á Eiðsstöðum í Blöndudal; var Halldór bróðir Björns Blöndals sýslumanns, föður Lárusar sýslumanns á Kornsá. Kona Sigurðar Sigfússonar er Margrét Illugadóttir Jónassonar frá

Gili í Svartárdal. Móðir Margrétar var Ingibjörg Ólafsdóttir frá Auðólfsstöðum; var Ingibjörg systir séra Arnljótar Ólafssonar er síðast var prestur á Sauðanesi. Sigurður flutti vestur um haf árið 1900; kom til Winnipeg 9. Júlí það ár; flutti um haustið norður að Narrows og nam þar land, og hefir búið þar síðan. Sigurður er góður búmaður og einn með efnuðustu bændum í þessari bygð. Hann er greindur maður, les talsvert og hefir aflað sér góðrar þekkingar um margt. Hann er fáskiftinn um annara hagi, en samvinnugóður og áhugasamur um þau almenn mál, er hann lætur sig skifta, og myndar sér um þau sjálfstæðar skoðanir. Það má telja Sigurð einn af nýtustu bændum bygðarinnar.

*EINAR SIGURÐSSON,* bónda á Kálfafelli í Austur-Skaftafellssýslu. Kona hans er Oddný Skarphéðinsdóttir, bróðurdóttir Lárusar Pálssonar hómöopata. Einar flutti vestur um haf árið 1902, var fyrst 3 ár í Winnipeg, flutti svo norður að Narrows og nam þar land; þar hefir hann búið síðan og farnast vel. Einar er dugnaðarmaður og vel látinn af þeim er til þekkja.

*GUÐMUNDUR SIGURÐSSON* bónda á Ármúla í Rangárvallasýslu. Móðir Guðmundar var Guðný Guðmundsdóttir Guðmundssonar (skálds) prests á Torfastöðum í Biskupstungum í Árnessýslu. Guðmundur ólst upp hjá móðurbróður sínum, Þorsteini Guðmundssyni, bónda í Öndverðarnesi í Grímsnesi. Guðmundur fluttist vestur um haf 1902; fluttist hér norður sama ár. Giftist tveim árum síðar Sigurlínu Hallsdóttur frá Sleðbrjót (sbr. þátt Halls hér að framan). Guðmundur nam land næstl. ár við Moose Horn Bay og býr þar. Hann er þrekmaður og farnast hér vel.

*BALDVIN GUÐMUNDSSON* frá Gunnólfsvík, faðir Sigurðar er um er ritað hér á undan, fluttist vestur um haf 1903. Flutti hann norður til Narrows fáum árum síðar og býr í grend við Sigurð son sinn. Kona Baldvins er Elín Gísladóttir Gíslasonar. Móðir hennar, Helga Jónsdóttir bónda Sigfússonar á Geirastöðum í Hróarstungu í Norður-

Múlasýslu, lifir enn, 96 ára gömul, og er heima á Íslandi. Baldvin er nú 76 ára gamall, ern og hraustur eftir aldri, enda var hann á yngri árum þrekmaður og lét ekki alt fyrir brjósti brenna.

*SIGURÐUR BALDVINSSON* býr fyrir norðvestan Narrows. Frá honum hefi eg fengið ættartölu og æfiágrip, er eg set hér orðrétt, því það lýsir manninum betur en eg fæ gjört með mínum orðum:



"Eg flutti til Vesturheims árið 1902, þá 25 ára gamall, frá Gunnólfsvík í Norður-Múlasýslu. Faðir minn er Baldvin Guðmundsson, Sigvaldasonar, Eiríkssonar, Styrbjörnssonar bónda á Ketilsstöðum í Jökulsárhlíð í N.-Múlasýslu. Var sú jörð fátækra eign (Kristfjárjörð). Eitt sinn rak þar hval á land og skifti Styrbjörn honum milli Héraðsbúa ókeypis. Skömmu síðar rak annan hval, og fór Styrbjörn með hann á sama hátt. En er sýslumaður frétti það, reið hann heim til Styrbjarnar og gjörði kröfu til að eiga ítök í hvalrekanum, og kvað eigi löglega meðferð Styrbjarnar á hvalnum. Styrbjörn brást reiður við, greip járnkarl og reiddi hann að sýslumanni og kvaðst mundi stytta honum aldur, nema hann lofaði því að gjöra aldrei tilkall til hvalsins, því guð hefði sent hann fátækum, og sá sýslumaður sinn kost beztan að lofa því." — (Milli sviga skal

þess getið, að sá er þetta ritar, hefir heyrt að Styrbjörn hefði átt fjögra potta kút fullan af brennivíni í skemmu sinni og hefðu þeir sezt að honum sýslumaður og hann er rimmunni var lokið, og tæmt kútinn.) — "Föðurmóðir mín var Soffía Sigurðardóttir frá Skógum í Axarfirði; var hún föðursystir Sigurðar prófasts Gunnarssonar á Hallormsstað, og er sá ættbálkur talinn frá Jóni bónda á Mýlaugsstöðum í Reykjadal í Þingeyjarsýslu; var Jón faðir séra Ingjalds í Múla og séra Þórarins, er lengi var prestur í Skagafirði og var ættfaðir "Bólstaðarhlíðarsystra". Ein dóttir Jóns á Mýlaugsstöðum var móðir Þórðar sýslumanns í Sandhólum á Tjörnesi í Þingeyjarsýslu. — Eg giftist árið 1898 Maríu Björnsdóttur Þorleifssonar kaupmanns á Bíldudal í Arnarfirði. Móðir Björns var Ingibjörg systir Gróu konu Ólafs bónda á Sveinsstöðum, bróður séra Halldórs á Hofi í Vopnafirði. En móðir konu minnar var Anna Bergsteinsdóttir, ættuð úr Keflavík í Gullbringusýslu. Kona mín hefir reynst mér bæði ágætis og myndarkona. Við eigum mörg börn og efnileg, komum fátæk í þessa bygð og nam eg þá land í Hjartareyju (Red Deer Island) norðan við Narrows og hefir mér liðið þar fremur vel; eg á nú 300 fjár og 30 nautgripi. —Fyrstu 3 árin eftir að eg kom hingað dvaldi eg í bænum Gladstone í Manitoba, og vann þar ýmsa "akkorðs"-vinnu. Átti eg þar oft kapp að etja við ýmsa bæjarbúa og bar sjaldan lægri hlut. Eg fór víst stundum "í kringum" bæjarlögin og lenti oft í kasti við lögregluþjóna; beitti eg þá stundum víkings aðferð Styrbjarnar forföður míns; en oftast voru lögregluþjónar mér góðir. Eg flutti í þessa bygð 1906.— Eg hefi skrifað þér þetta svona hreinskilnislega til að sýna, hvernig ættareinkennin haldast í beinan karlegg öld eftir öld. Við höfum ágæta heilsu og þrek, svo eg ætla ekki sé mikil afturför í ættinni. Víkingslund mín fellur ekki sem bezt saman við aldarhátt nútímans. Eg hefi látið sonu mína heita Björn og Kára. Mér hefði verið það skapfelt að fara heim til Íslands og endurreisa óðal Styrbjarnar forföður míns, en til þess skortir mig fé og frama."

Eg hefi litlu að bæta við umsögn Sigurðar. Hann er greindur og ramíslenzkur og les um Ísland alt er hann nær í.

Skapar sér sínar skoðanir sjálfur og heldur þeim einarðlega fram. Hann er talinn nær tveggja maki að burðum og harðgjör og fylginn sér.

*SIGURÐUR JÓNSSON* flutti til Narrows úr Álftavatnsbygð, og er hans lítillega getið í þætti Álftvetninga. Hann er sonur Jóns bónda á Skerðingsstöðum í Barðastrandasýslu, fæddur 1851 og uppalinn hjá foreldrum sínum á Skerðingsstöðum. Giftist árið 1878 Þorbjörgu Þorsteinsdóttur, ættaðri úr Eyrarsveit, og reisti bú sama ár á Skerðingsstöðum í tvíbýli við föður sinn og bjó þar til þess er hann flutti vestur um haf árið 1888. Kom til New York 11. Júlí það ár og fór þá ásamt fleiri Íslendingum til Seyreville í N. J. og dvaldi þar í 11 ár og vann öll þau ár daglaunavinnu hjá sama manni. Þar misti Sigurður konu sína og varð hann þá að vinna fyrir 5 börnum einn um nokkur ár. Árið 1899 giftist Sigurður í annað sinn Margrétu Þorsteinsdóttur, ekkju ættaðri úr Landeyjum í Rangárvallasýslu; "hafði hún búið allmörg ár rausnarbúi í fyrra hjónabandi sínu og þótt jafnan sæmdarkona, bæði þá og síðar." Seint á árinu 1899 fluttist Sigurður frá Seyreville, N.J., til Kanada og nam land í Álftavatnsbygð og bjó þar nokkur ár. Flutti hann síðan hér norður og bjó hér nokkur ár (4 eða 5), en er nú fluttur burt aftur og til Grunnavatnsbygðar(?) Vegna ókunnugleika þess, er ritar, er ekki meira um Sigurð að segja, en heyrt hefi eg, að hann sé fróðleiksmaður.

*GUÐMUNDUR GUÐMUNDSSON,* Snjólfssonar, ættaður af Suðurlandi. Kona hans er Sesselja Jónsdóttir, yfirsetukona, ættuð úr Borgarfjarðarsýslu. Guðmundur flutti vestur um haf 1901 frá Fáskrúðsfirði í Suður-Múlasýslu, var fyrst 2 ár í Winnipeg og flutti síðan norður fyrir Narrows og nam þar land; býr hann þar enn og farnast vel. Guðmundur er hægur maður og lætur lítið yfir sér, en vinsæll og vel metinn.

*ARNLJÓTUR GÍSLASON* Ólafssonar, Húnvetningur að ætt, bróðursonur séra Arnljóts Ólafssonar. Kona hans

er Sigurveig Jónsdóttir Björnssonar, merkisbónda í Laxárdal í Þistilfirði í Þingeyjarsýslu. Arnljótur flutti vestur um haf 1904 frá Ytra Lóni á Langanesi. Dvaldi 3 fyrstu árin í Westbourne-bæ og vann þar daglaunvinnu, flutti síðan hér norður og hefir búið norðan við Narrows. Næstliðið ár nam hann land norðvestan við Dog Lake og flutti þangað í vor (1913). Arnljótur er myndarmaður og farnast fremur vel.

*ÞORSTEINN GUÐNASON* hefir numið land vestan við Dog Lake. Mun hafa flutt þangað nálægt 1905. Um ætt hans veit ritarinn ekki.

*GUÐMUNDUR STEFÁNSSON* bónda Sölvasonar frá Daðastöðum á Reykjaströnd í Skagafjarðarsýslu. Móðir Guðmundar var Elín Vigfúsdóttir, ættuð úr Skagafjarðarsýslu. Kona Guðmundar Stefánssonar er Málfríður Jónsdóttir Ásmundssonar bónda í Tungu í Gönguskörðum í Skagafjarðarsýslu. Guðmundur flutti vestur um haf 1902, flutti til Moose Horn Bay frá Minitonas, Man., 1911, nam land og býr þar síðan.

*ÞÓRÐUR ZOEGA,* Jóhannessonar Zoega bónda við Reykjavík. Móðir Þórðar var Björg Þórðardóttir borgara í Reykjavík. Kona Þórðar er Guðlaug Egilsdóttir, Hallgrímssonar bónda að Minni Vogum í Gullbringusýslu, Hallgrímssonar prests Jónssonar í Görðum á Akranesi. En móðir Guðlaugar var Þuríður Ingibjörg Klemensdóttir, ættuð úr innri Njarðvíkum í Gullbringusýslu. Þórður Zoega fluttist vestur um haf frá Reykjavík 1897, flutti til Moose Horn Bay frá Brandon, Man., árið 1911 og nam land og býr þar síðan.

*BJÖRN BECK, GUÐLÖGSSON,* Jónssonar að Kálfá í Þóroddsstaðahrepp í Ólafsfirði í Eyjafjarðarsýslu. Móðir Björns Becks var Arnbjörg Björnsdóttir hreppstjóra í áðurnefndum Þóroddsstaðahrepp, og var hann afi Jörundar í Syðstabæ í Hrísey. Kona B. Becks er Pálína Benjamíns-

dóttir Benjamínssonar, er lengi var á Skipalóni með Þorsteini Daníelssyni, "góður smiður á málm og járn". En móðir Pálínu var Helga Jörundsdóttir, ættuð úr Hörgárdal. Björn Beck fluttist vestur um haf 1902, en kona hans kom ári síðar. Hann flutti til Moose Horn Bay árið 1911, nam þar land og býr þar síðan.

*PÁLL GUÐMUNDSSON*, skósmiður, sonur Guðmundar Guðmundssonar, bónda og skipstjóra frá Siglnuesi í Hvanneyrarhrepp í Eyjafjarðarsýslu. Móðir Páls var Hólmfríður Jónsdóttir frá Siglunesi í sömu sýslu. Kona Páls er Sigríður Petrea Ólafsdóttir, ættuð úr Ólafsfirði; er hún fósturdóttitr Björns Beck og konu hans, er um er ritað hér á undan. Móðir hennar hét Sigríður, ættuð úr Ólafsfirði. Páll fluttist vestur haf árið 1906, flutti til Moose Horn Bay frá Baldur í Argyle-bygð, Man., árið 1911, nam þar land og býr þar síðan.

*JÓEL GÍSLASON* Magnússonar bónda á Landamótsseli í Þingeyjarsýslu. Móðir Jóels var Aðalbjörg Björnsdóttir frá Bakka á Tjörnesi í sömu sýslu. Kona Jóels er Kristbjörg Guðmundsdóttir frá Laugaseli í Þingeyjarsýslu. Jóel fluttist vestur um haf árið 1900 frá Bakka á Tjörnesi í Þingeyjarsýslu. Var fyrst í Argyle-bygð og flutti þaðan til Moose Horn Bay 1907*(?)* og nam þar land og býr þar síðan.

*SIGURÐUR EIRÍKSSON EYFJÖRÐ.* Faðir Sigurðar var Kristján Eiríksson, bónda á Veigastöðum í Svalbarðsstrandarhrepp í Eyjafjarðarsýslu. Móðir Sigurðar var Björg, ættuð úr Fnjóskadal í Þingeyjarsýslu. Kona Sigurðar er Bergljót Jónasdóttir, bónda í Yztu-Vík í Þingeyjarsýslu. Flutti vestur um haf 1905 og hefir numið land og býr við Moose Horn Bay.

*ÞORSTEINN GUÐMUNDSSON ÍSDAL* Guðmundssonar bónda í Borgarhöfn í Austur-Skaftafellssýslu. Móðir Þorsteins var Sigríður Bjarnadóttir frá Skaflafelli í Öræf-

um í sömu sýslu. Kona Þorsteins er Þórdís Vigfúsdóttir, Vgfússonar, Sigurðssonar frá Flatey á Mýrum í sömu sýslu. Þorsteinn flutti vestur um haf frá Brú á Jökuldal í Norður-Múlasýslu árið 1902. Hann bjó nokkur ár við Moose Horn Bay, en ekki veit ritarinn hvort hann nam land. Hann er nú fluttur vestur á Kyrrahafsströnd.

*SIGURÐUR SIGURÐSSON,* bróðir Guðmundar Sigurðssonar frá Ármúla, er áður er um ritað. Kona Sigurðar er Jónína dóttir Halls frá Sleðbrjót, er áður er um ritað í þessum þáttum. Sigurður flutti vestur um haf árið 1910 og hefir numið land og býr við Moose Horn Bay.

*BJÖRN ÞORLÁKSSON* bónda Jónassonar frá Grænavatni í Mývatnssveit í Þingeyjarsýslu. Móðir Björns er Kristrún Pétursdóttir bónda í Reykjahlíð; er hún systir Sigurgeirs Péturssonar, er áður er um ritað í þessum þáttum. Björn Þorláksson fluttist vestur um haf með foreldrum sínum 1903 og ólst upp með þeim í Argyle-bygð. Flutti norður til Narrows 1908 og nam land við Moose Horn Bay. Sama ár giftist hann Kristjönu dóttur áðurnefnds Sigurgeirs Péturrsonar og fyrri konu Sigurgeirs, Hólmfríðar. Björn Þorláksson er efnilegur maður, hefir góða greind og er vinsæll og vel metinn hvarvetna. Hann byrjaði bú með litlum efnum og bygði sér þegar gott íbúðarhús, en er nú, fyrir samtaka dugnað þeirra hjónanna, komið svo hag hans, að hann má heita vel efnaður og útlit á hann verði einn með allra nýtustu bændum bygðarinnar.

*BENEDIKT ÞORLÁKSSON,* bróðir áður nefnds Björns, hefir numið land við hlið bróður síns. Hann er víst um margt líkur bróður sínum, lætur lítið á sér bera, en er vel metinn hvarvetna.

*ÓLAFUR MAGNÚSSON* frá Sleðbrjót í Jökulsárhlíð í Norður-Múlasýslu. Faðir Ólafs var Magnús Guðmundsson, er lengi bjó í Márseli í Jökulsárhlíð í Norður-Múlasýslu, ættaður úr Fáskrúðsfirði í Suður-Múlasýslu. Móðir

Ólafs var Anna Pálsdóttir, ættuð af Norðurlandi. Kona Ólafs Magnússonar er Sigþrúður Björnsdóttir bónda Hannessonar frá Hnitbjörgum í Jökulsárhlíð, en móðir Sigþrúðar er Anna Jónsdóttir, bónda á Setbergi í Fellnahrepp í Norður Múlasýslu, Bjarnasonar bónda á Ekru, Eiríkssonar á Fossvöllum í sömu sýslu. Ólafur fluttist vestur um haf vorið 1905. Var hann tvö ár í Álftavatnsbygð og flutti síðan til Moose Horn Bay, nam þar land og býr þar síðan. Ólafur er greindarmaður, þó hann unni sér ei mikils tíma til bóklesturs, er hann hefir þó löngun til, hefir hann gott gagn af því, sem hann les. Hann er umhyggjusamur búmaður og býr forsjálega, og hefir farnast vel búskapur, bæði heima og hér. Hann unir sér hér vel og hefði eflaust, eins og fleiri, óskað að hann hefði komið hingað yngri og óþreyttari. Ólafur er glaðlyndur, vinfastur, og fastlyndur í hvívetna. Þau hjónin eiga tvær dætur, Guðrúnu, sem er gift enskum manni í Winnipeg, og Solveigu, sem er heima hjá foreldrum sínum, ung að aldri.

*JÓN HÁVARÐSSON,* sonur nýnefnds Hávarðar og fyrstu konu hans (sbr. þátt Álftvetninga). Jón er giftur Maríu Bjarnadóttur Torfasonar frá Ásgrímsstöðum í Hjaltastaðaþinghá í Norður-Múlasýslu. (Um Bjarna er ritað í þætti Álftvetninga). Jón Hávarðsson flutti hér norður 1907, hefir numið land í Siglunessbygð og farnast vel. Jón er greindur maður og fremur vel að sér eins og faðir hans. Hann er hóglyndur maður og vinsæll, en vill þó halda sínum hlut ef því er að skifta.

*HARALDUR FRÍMANN,* sonur Kristjáns Frímanns vegabótaformanns á Akureyri, Jónssonar bónda Frímanns á Naustum við Eyjafjörð, og Kristínar konu hans. Móðir Haralds Frímanns er Ingibjörg Helgadóttir, bónda á Kristnesi í Eyjafirði og konu hans Guðrúnar. Haraldur flutti vestur um haf 1906, nam land í Siglunesbygð 1911 og býr þar síðan. Haraldur er myndar-maður, greindur og fastlyndur. — Með Haraldi býr bróðir hans, *SIGURÐUR FRÍMANN;* hann flutti vestur um haf 1905, vann á ýmsum stöðum um

hríð í Argyle-bygð og vestur við haf um tíma; nam land rétt hjá Haraldi bróður sínum en lét það laust aftur. Sigurður er snyrtimaður, og stundar búið með bróður sínum með einstökum áhuga og umhyggjusemi, bæði utan húss og innan. Þeir eru báðir einhleypir menn, en engum, sem kemur inn í húsið þeirra, mundi detta annað í hug, en þar hefðu um fjallað æfðar og hagar húsmóðurhendur.

*HÁVARÐUR GUÐMUNDSSON.* Um hann er áður ritað í þætti Álftvetninga. Hann hefir keypt tvö lönd (scrips) í Siglunessbygð, reist sér myndarlegt íbúðarhús þar og farnast vel. Hávarður er greindarmaður og aflaði sér almeiri þekkingar en alment gjörist á yngri árum og heldur henni vel við eftir því, sem annir hans leyfa.



*EGGERT SIGURGEIRSSON,* bónda Stefánssonar frá Álftagerði í Skagafjarðarsýslu; var ætt hans úr Húnavatns-

sýslu. Móðir Eggerts, Guðlaug Hjálmsdóttir frá Kúskerpi í í Blönduhlíð í Skagafjarðarsýslu. Kona Eggerts er Svanhildur Sigurbjörnsdóttir, Sigurðssonar á Einarsstöðum í Kræklingahlíð, Kristjánssonar. Var Sigurður bróðir þeirra Kristjáns amtmanns á Akureyri og séra Benedikts í Múla. Móðir Svanhildar var Guðbjörg; var hún systir Svanhildar fyrri konu Jörundar í Hrísey, föður Lofts húsagerðarmanns og fasteignasala í Winnipeg. Eggert flutti vestur um haf vorið 1906 frá Kambhóli í Arnarnesshrepp í Eyjafjarðarsýslu, flutti sama sumar norður í Siglunessbygð og dvaldi fyrsta árið hjá Jörundi Eyford, bróður Svanhildar, sem um er ritað hér að framan, nam síðan land í Siglunessbygð og býr þar. Eggert er myndarmaður, hefir góða greind og er hreinn og beinn í lund. Honum hefir farnast vel, kom hingað eignalaus, en hefir bygt sér gott íbúðahús og á talsvert af gripum, svo það má heita einsog kallað var á Íslandi, að hann sé "fremur veitandi en þurfandi." Börn þeirra hjónanna, Eggerts og Svanhildar, eru 5: Sigurbjörn, Jóhann, Davíð, Sigríður og Guðbjörg. Eggert er fóstursonur séra Davíðs Guðmundssonar, er lengi var prestur á Hofi í Möðruvallasókn, var hjá honum frá því hann var á fyrsta ári og þar til hann var tvítugur.

*FRAMAR JÓNSSON EYFORD,* póstafgreiðslumaður á Siglunesi. Faðir Framars var Jón Sigurgeirsson á Veisu í Fnjóskadal, er býr nú á Melum í sömu sveit; en móðir Framars var Stefanía Friðbjörnsdóttir bónda á Draflastöðum; var Friðbjörn bróðir Jakobs Eyford, sem býr í Dakota í Bandaríkjunum. Kona Framars er Baldrún dóttir Jörundar Eyfords, sem áður er um ritað. Framar fluttist vestur um haf vorið 1903, var fyrst á ýmsum stöðum við bændavinnu, við verzlunarstörf (hjá Helga Einarssyni) á Narrows og í Winnipeg um hríð. Framar nam land í Siglunessbygð 1908 og býr þar síðan. Framar er greindur, les talsvert og hefir þess góð not, því hann er minnugur vel. Hann er glaðlyndur og lipur í umgengni og farnast fremur vel; kom hingað eignalaus, en á nú talsvert, og "á það sem hann hefir". Hann varð fyrir því óhappi, að íbúðarhús hans

brann 1912, en var vátrygt, svo skaðinn var minni fyrir það. Þau hjónin, Framar og Baldrún, eiga tvö börn, Jörund og Önnu.

*GUÐMUNDUR HÁVARÐSSON* bónda á Gauksstöðum á Jökuldal, Magnússonar bónda í Hnefilsdal Guðmundssonar, Árnasonar, Pálssonar frá Glámsstöðum í Fljótsdal. Kona Magnúsar í Hnefilsdal var Sigríður Jónsdóttir bónda á Vaðbrekku, Andréssonar. Jón á Vaðbrekku var fjörmaður með afbrigðum, stökk hæð sína í loft upp er hann var á gamalsaldri. Móðir Guðm. Hávarðssonar var Hallfríður Pétursdóttir bónda á Hákonarstöðum; var hún systir Péturs Jökuls, föður Péturs, er nú býr í Minnesota í Bandaríkjunum. Kona Guðm. Hávarðssonar er María dóttir Jóns Metúsalemssonar, er áður var um ritað í þáttum þessum; átti Jón hana áður en hann giftist, og var móðir hennar Kristrún, ættuð úr Þingeyjarsýslu; hálfbróðir Maríu, sammæðra, er Friðrik Fljótsdal, umsjónarmaður við Canadian Northern járnbrautina, merkur og mikilhæfur maður. — Guðm. Hávarðsson flutti vestur um haf 1904 og nam land í Siglunessbygð og býr þar enn. Þau hjón eiga þrjú börn, Jón Aðalvarð, er áður er nefndur (sbr. þátt. um J. Kr. Jónasson), hefir hann numið land á hlið við föður sinn og hafa þeir bygt þar reisulegt íbúðarhús; Gunnlaugur er keyrslumaður í Winnipeg, Sigurður heima hjá föður sínum. Guðmundur Hávarðsson hefir góða greind og aflaði sér töluverðrar fræðslu í æsku, bæði í heimahúsum og var eitt ár á Möðruvallaskóla. Hann stundar bú sitt með iðni og umhyggjusemi og hefir komist vel af. Hann var þrjú ár í skólanefnd Siglunesshéraðs og var formaður nefndarinnar.

*JÓN ARNFINNSSON* bónda í Hlíðarhúsum í Jökulsárhlíð, Þorleifssonar bónda í Hrjót í Hjaltastaðaþinghá; ætt Þorleifs var úr Þingeyjarsýslu. Móðir Jóns var Margrét Sigurðardóttir, en móðir Margrétar var Gróa, systir Þorsteins bónda Jónssonar í Fögruhlíð í Jökulsárhlíð. Kona Jóns Arnfinnssonar er Sveinbjörg Sigmundsdóttir bónda á Skjögrastöðum í Fljótsdal, Sigmundssonar bónda í

Geitdal í Skriðdal í Suður-Múlasýslu. Jón flutti vestur um haf 1903 frá Hlíðarhúsum í Jökulsárhlíð; hafði hann búið þar í 27 ár. Var fyrst í Álftavatnsbygð, en flutti norður og nam land í Siglunessbygð austanverðri 1906(?) og býr þar síðan. Jón er nú rúmlega sextugur, en ern og frískur enn. Hann var fjörmaður og sístarfandi og vinnur enn sem ungur væri, þó þrótturinn sé minni. Hann er ör í orði, og þó hann tali ekki æfinlega eins og öllum líkar, er hann vinsæll og allra manna greiðugastur til hans að leita, og gestrisinn og glaður heim að sækja. Með Jóni býr sonur hans Arnfinnur; nam hann hér land, en lét það laust aftur. Hann er dugnaðarmaður eins og faðir hans. Þeir hafa bygt sér gott og snoturt íbúðarhús og farnast vel. Annar sonur Jóns, Helgi, vinnur hjá mjólkursölumanni í nánd við Winnipeg og farnast vel. Hann er giftur Guðríði Einarsdóttur Sveinssonar frá Götu í Fellahreppi í Norður-Múlasýslu. Þriðji sonur Jóns, Björn (B. J. Arnfinnsson) býr í vestanverðri Siglunesbygð. Flutti vestur um haf 1901, var fyrst í Álftavatnsbygð og nam þar land, en lét það laust aftur. Flutti hér norður 1907 og hefir numið hér land. Kona Björns er Anna Jónsdóttir Pálssonar frá Árnastöðum í Loðmundarfirði; en móðir Önnu var Þórdís, dóttir Einars í Götu, sem nefndur er hér að framan. Þau Björn og Anna eiga 9 börn, eiga fremur örðugt, en komast þó af. Björn er gæflyndur maður og hefir góða mannhylli. Hann er talsvert bókhneigður og aflaði sér af eigin ramleik nokkurrar fræðslu í æsku.

*GUÐMUNDUR JÓNSSON,* bónda í Hlíðarhúsum í Jökulsárhlíð, Jónssonar bónda á sama bæ, Bjarnasonar bónda á Ekru, Eiríkssonar bónda á Fossvöllum. Móðir Jóns föður Guðmundar var Guðrún Björnsdóttir Vilhjálmssonar? Móðir Guðmundar, seinni kona Jóns í Hlíðarhúsum, var Sigríður Þorsteinsdóttir bónda Jónssonar í Fögruhlíð, sem áður er nefndur. En kona Þorsteins var Guðrún Guðmundsdóttir bónda Jónssonar frá Hallfreðarstöðum í Hróarstungu. Þeir eru hálfbræður, samfeðra, Jón Jónsson frá Sleðbrjót og Guðmundur. Kona Guðmundar er Jónína Björnsdóttir bónda í Húsey í Hróarstungu, Hallssonar bónda á Nef-

bjarnarstöðum í sömu sveit. En móðir Jónínu var Jóhanna Björnsdóttir bónda á Þrándarstöðum í Eiðaþinghá (sbr. landnámsþátt Mouse River bygðar, um Jón Björnsson, sem mun vera móðurbróðir Jónínu). —

Guðmundur byrjaði búskap í Húsey árið 1888 og mun hafa búið þar í 12 ár, flutti þaðan að Fagradal í Vopnafirði og bjó þar þar til hann flutti vegna fjárþrota vestur um haf vorið 1903. Var fyrst í Álftavatnsbygð, en flutti í þessa bygð og nam land 1908. Guðmundur er smiður góður og hefir auk búskaparins unnið mikið í Winnipeg og hjá bændum hér. Sjálfur hefir hann reist sér gott íbúðarhús. Hann er í skólanefnd Siglunessbygðar, féhirðir eitt ár og síðan formaður. Guðmundur er greindur og hafði í æsku töluverða námslöngun, og aflaði sér nokkru meiri þekkingar en almennt var um jafnaldra hans. Alla þá stund er hann bjó í Húsey var hann hreppstjóri í Tunguhrepp, og sýslunefndarmaður um nokkur ár, og leysti þau störf vel af hendi. Þau hjónin eiga 9 börn: Jón, hefir numið land við Dog Lake vestanvert; Björn, Eiríkur og Jón Sigurðsson er heima hjá foreldrum sínum; Jóhanna gift Geirfinni Sigurgeirssyni (sem áður er um ritað); Málfríður, Guðrún, Sigríður og Stefanía eru heima oftast. — Guðmundur og synir hans hafa keypt land við hlíðina á



*Guðmundur Jónsson*

heimilisréttarlandi hans. Það má heita, að Guðmundi hafi farnast vel, með jafnþunga fjölskyldu og ekkert fé að byrja búskap með.

*GUÐJÓN RUNÓLFSSON,* Guðmundssonar frá Fagradal í Vopnafirði. Móðir Guðjóns er Sigríður Jónsdóttir bónda í Eyjaseli í Jökulsárhlíð. Kona Guðjóns er Herdís Lúðvíksdóttir Finnbogasonar, er lengi var bókhaldari við Örum & Wolfs verzlun á Vopnafirði og Húsavík. Ætla eg hann vera ættaðan úr Fljótum í Skagafjarðarsýslu; var hann orðlagður glímumaður og skíðamaður. Guðjón kom vestur um haf 1904, var fyrst í Winnipeg og á Rabbit Point, flutti síðan norður í "Birch Island" og stundaði þar fiskiveiði og griparækt með og farnaðist þar vel. Vorið 1912 flutti hann í Siglunessbygð og nam þar land. Guðjón er myndarmaður í öllu verki og var afbrigða góður sjómaður heima. Hann er yfirlætislaus og kemur sér vel, er töluvert bókhneigður og les mikið í tómstundum sínum. Þau hjónin eiga tvær dætur, Clöru og Emilíu.

*JÓN JÓNSSON frá Sleðbrjót,* er fæddur á Hnitbjörgum í Jökulsárhlíð í Norður Múlasýslu, 2. Nóvember 1852. Það er eftir rangfærðri kirkjubók að Jóhann ættfræðingur Kristjánssson telur hann í alþingismannatali fæddan 15. Ágúst nefnt ár. Faðir Jóns var Jón, er lengi bjó í Hlíðarhúsum í Jökulsárhlíð Jónssonar bónda í Hlíðarhúsum, Bjarnasonar bónda á Ekru, Eiríkssonar bónda á Fossvöllum. En kona Jóns Bjarnasonar var Guðrún Björnsdóttir Vilhjálmssonar. Móðir Jóns frá Sleðbrjót var Guðrún Ásmundsdóttir, bónda í Hlíðarhúsum, Ísleifssonar, bónda þar líka. Móðir Guðrúnar Ásmundsdóttur var Katrín Nielsdóttir bónda á Ósi í Hjaltastaðaþinghá, Jónssonar prests á Eiðum, Brynjólfssonar. Var Níels bróðir Sigurðar í Njarðvík föður Jóns í Njarðvík og þeirra bræðra. En móðir Katrínar, en kona Níelsar, var Guðríður Sigfúsdóttr prests Guðmundssonar á Ási í Fellum.



Kona Jóns frá Sleðbrjót er Guðrún Jónsdóttir, fædd 20. Október 1855, dóttir Jóns bónda á Surtsstöðum í Jökulsárhlíð, Þorsteinssonar bónda í Fögruhlíð Jónssonar. Guðrún kona Þorsteins var Guðmundsdóttir bónda Jónssonar á Hallfreðarstöðum í Hróarstungu; bróðir hennar var Runólfur Guðmundsson bóndi í Geitdal í Suður-Múlasýslu. Kona Jóns Þorsteinssonar á Surtsstöðum, föður Guðrúnar

konu Jóns frá Sleðbrjót, var Mekkín Jónsdóttir bónda á Hrafnabjörgum í Jökulsárhlíð, Magnússonar bónda á sama bæ.

Þau Jón og Guðrún giftust 14. Júlí 1876; eiga þau 7 börn á lífi, 3 sonu, er heita: Páll, Guðmundur og Jón, og 4 dætur, er heita: Björg, Ragnhildur, Helga og Ingibjörg. Elzta dóttir þeirra, Björg, er gift ljósmyndara Bjarna Þorsteinssyni bónda Magnússonar frá Höfn í Borgarfirði í Norður-Múlasýslu.; þau eru búsett í West Selkirk. Börn þeirra eru 5 og heita: Jón, Þorsteinn, Jóhann Magnús, Anna og Guðrún Helga Inghildur.

Jón byrjaði búskap árið 1876 og bjó fyrst í Bakkagerði, síðan á Ketilsstöðum; þaðan flutti hann að Húsey í Hróarstungu og bjó þar þrjú ár; þaðan flutti hann að Sleðbrjót og bjó þar 3 ár, þá aftur að Bakkagerði og bjó þar 3 ár; þá enn aftur að Sleðbrjót og dvaldi þar 3 ár. Haustið 1900 flutti Jón frá Sleðbrjót til Vopnafjarðar verzlunarstaðar og hafði þar gistihús án vínsölu. Páll amtmaður Briem neitaði Jóni um leyfi til að hafa matsöluhús, og lét höfða mál gegn honum fyrir að hafa gistihús. Jón vann það mál bæði fyrir héraðsrétti og yfirdómi; málið kostaði landssjóð á annað hundrað krónur.

Búskapur farnaðist Jóni allvel fyrstu árin, fram að 1883, en þá kom voðalegt harðindaár um Austurland. Urðu þá margir nær því að eyðileggja gripastofn sinn. Árið eftir tók Jón til ábúðar stóra jörð, keypti þar hús og gripi, og náði aldrei eftir það traustum grundvelli undir bú sitt; hafði oft mikið í veltunni og lánstraust að því skapi. — Árið 1903 varð hann gjaldþrota og flutti þá vestur um haf. Borgaði Jón Sigurðsson á Mary Hill fargjald fyrir alt hans skyldulið, börn og barnabörn, og fargjald fyrir Guðmund bróður Jóns og fjölskyldu hans. Var það alt til samans um 20 manns; naut Jón Sigurðsson lítillega annara hjálpar til þess; mun það eins dæmi að maður, sem ekki getur talist ríkur, hafi veitt svo mikla hjálp í þeim sökum og telur ritari þessara lína það þess vert, að þess sé getið í landnámsþáttunum.

Næstu tvö árin eftir komu sína vestur dvaldi Jón hjá nefndum Jóni Sigurðssyni með fjölskyldu sína; var Guð-

rún kona hans ráðskona hjá Jóni Sigurðssyni, er þá var nýlega orðinn ekkjumaður. Vorið 1905 keypti Jón, með hjálp Sigtryggs Jónassonar þingmanns, 10 ekrur á Rabbit Point; bjó hann þar með fjölskyldu sína þar til vorið 1908, að hann flutti norður á Siglunes og nam þar land. Hefir hann dvalið þar síðan með börnum sínum, sem öll eru til heimilis hjá honum nema elzta dóttirin, sem áður er getið; vinna þau af og til í Winnipeg og víðar. Þau hafa bygt gott íbúðarhús á landi föður síns, eiga þau búið í samlögum, sem ekki er mjög stórt en mun skuldlítið, og má segja þeim farnist vel. Páll og Guðmundur, synir Jóns, hafa líka numið þar lönd.

Í æsku var Jón mjög hneigður til bókarinnar, en fátækt og framtaksleysi stóðu í vegi fyrir bóknáminu. Tveggja vikna tíma naut hann tilsagnar í dönsku og reikningi, og er þá upptalinn skólalærdómur hans.

Eftir 1880 fór Jón að taka þátt í sveita- og landsmálum; var hann eftir það stöðugt í sveitarstjórn, nema tvö ár, þar til hann fór af landi burt, ýmist hreppsnefndarmaður, oftast oddviti, sýslunefndarmaður, varamaður í amtsráði síðustu árin og hreppstjóri í eystri hluta Vopnafjarðarhrepps frá því haustið 1900 til þess hann fór af landi burt. Póstafgreiðslumaður var hann líka þau ár, og afgreiðslumaður erlendra skipa.

Árið 1886 bauð Jón sig fram til þingsetu fyrir Norður-Múlasýslu, en féll með litlum atkvæðamun fyrir Einari sýslumanni Thorlacíus. Átti Jón um þær mundir talsverðri mótstöðu að mæta, einkum af hendi "heldri manna" sýslunnar. Hann hafði skrifað í blaðið "Austra" all-harðorðar aðfinningar um búnaðarskólann á Eiðum; höfðaði þá skólastjóri, Guttormur Vigfússon, mál á móti Jóni; urðu í því máli svo miklar vitnaleiðslur, að málsskjölin voru 76 þéttskrifaðar stórar arkir, en það fór úr héraði fyrir yfirdóm. Tapaði Jón málinu bæði í héraði og fyrir yfirdómi, og var dæmdur í 100 kr. sekt og allan málskostnað, er nam nær 600 kr. Var það margra mál, að þar hefði margur góður drengur svarið "loðinn eið" á móti Jóni. Málskostnað og sekt borgaði Jón þegar að fullu, og átti þá fremur erviðan hag. Valdimar verzlunarstjóri Davíðsson á Vopna-

firði skoraði þá á sýslubúa að bæta Jóni málskostnaðinn, því hann hefði flutt rétt mál, þó alþýða hefði brugðist honum í vitnisburðum í málsvörninni. Urðu það eitthvað á þriðja hundrað kr., er saman komu til að bæta Jóni Skaðann. — En afleiðingin af þessu máli varð sú, að Guttormur fór frá skólanum og skólinn fékk meira álit eftir það fyrir reglusama bústjórn. — Sigurður bóndi og læknir á Breiðavaði hitti Jón að máli, þegar dómur var fallinn, og mælti við hann: "Nú hefir réttvísin dæmt þig, en nú á alþýða eftir að kveða upp sinn dóm. Þú verður kosinn þingmaður að ári." — Þessi spá Sigurðar rættist, því þetta ár lagði Einar Thorlacius niður þingmennsku þar eð stjórnin bannaði sýslumönnum þingsetu nema þeir settu löglærðan mann til að reka embættsstörf þeirra, meðan þeir sætu á þingi. Aukakosning fór því fram vorið 1889 í Norður-Múlasýslu. Bauð Jón sig þá aftur fram til þingfarar, en móti honum Sigurður prófastur Gunnarsson á Valþjófsstað. Við fyrri kosninguna höfðu allir embættismenn sýslunnar fylkt sér á á móti Jóni, að undanteknum séra Sveini Skúlasyni á Kirkjubæ og Einari lækni Guðjohnsen á Vopnafirði. Og nú var þeim enn meira kappsmál að fella Jón, enda var séra Sigurður hið vænlegasta þingmannsefni og vinsæll. En svo lauk kosningunni, að Jón var kosinn með 16 atkvæðum yfir. Eftir það náði Jón kosningu nær mótstöðulaust til 1899. Þá hljóp á snurða milli hans og kjósenda, er málið um leysing vistarbandsins kom til umræðu. Jón fylgdi fast leysing vistarbandsins. En bændur í Múlasýslum og hinir þingmenn Austfirðinga voru allir á móti því máli, nema séra Lárus Halldórsson. Var fundur haldinn af 200 kjósendum á Þórsnesi, úr báðum sýslunum fyrir kjörfund 1893, og var þar rætt um málið af kappi. Voru að eins 6 atkvæði með málinu; skoruðu þá margir vinir Jóns á hann að breyta stefnu í því máli, svo þeir gætu veitt honum fylgi, og bar einn þeirra fram tillögu um það á fundinum. Þeirri tillögu svaraði Jón þannig: "Eg býð mig fram til þingmensku, eins og hefi lýst yfir, og eg fylgi málinu um leysing vistarbandsins eins og eg bezt get. Það eru 3 mánuðir til kjörfundar, og nægur tími fyrir þá, er ekki vilja veita mér lið, að vera sér úti um annað þingmannsefni. Skoðun minni

breyti eg ekki, enda munduð þið ekki virða mig meira, þó eg seldi sannfæring mína fyrir atkvæði ykkar."—Úrslitin urðu þau, að enginn annar bauð sig fram.

Árið 1900 bauð Jón sig ekki fram til þingsetu; olli því magnleysi í fæti, sem hann hefir aldrei orðið laus við síðan; treystist hann eigi til að þola þingferðina á landi og þaðan af síður sjóferð, vegna sjóveiki; enda höfðu læknar bannað honum sjóför.

Vorið 1902 bauð Jón sig aftur fram til þings, og varð baráttan aðallega milli hans og Jóhannesar sýslumanns Jóhannessonar bæjarfógeta á Seyðisfirði; var sú kosning sótt af miklu kappi og hafði Jón enn sem fyr alla embættismenn á móti sér að viðbættum öllum hreppstjórum, nema tveimur. Lauk þeim bardaga þannig, að Jón varð hlutskarpari, fékk 6 atkvæði fram yfir sýslumann. — Hefir Jón oft sagt í gamni síðan, að af því hann sé kominn á raupsaldur, þá verði hann að hæla sér af því, að hann sé sá eini, er borið hafi gæfu til að standa á kjördegi yfir höfuðsvörðum fornvinar síns Jóhannesar sýslumanns.

Ummæli merkra manna um Jón á þingárum hans eru:

"Fjallkonan" 1889: "Hinn nýi þingmaður, Jón frá Sleðbrjót, reyndist vel. Hann fylgdi fast sínum flokki, en sýndi þó í ýmsum málum, að hann hefir sjálfstæðar skoðanir."

Palladómar Valdimars Ásmundssonar um þingmenn 1894: "Jón á Sleðbrjót er ekki fríður sýnum, en glaðlegur og einarðlegur. Hann er vel máli farinn, hefir snjallan róm og skýran og getur verið bituryrtur þegar því er að skifta. Hann er frjálslyndur í öllu, kirkjumálum líka."

Þegar vistarbandsmálið var til annarar umræðu í neðri deild alþingis 1895, urðu um það allharðar umræður. Töluðu móti því beztu ræðumenn andstæðinganna, Guðlaugur sýslumaður Guðmundsson o. fl. Um umræðurnar fórust Hannesi Þorsteinssyni svo orð í "Þjóðólfi" daginn eftir: "Umræður voru allharðar; fannst oss Jón frá Sleðbrjót tala þar snjallast allra."

Og tvímælalaust mun Jón mega teljast með nýtari þingmönnum. Hluttaka hans í sveitarmálum æfinlega til hins betra, og margir er minni máttar voru, munu ætíð minn-

ast Jóns og hjálpar hans með innilegu þakklæti. Almennrar virðingar og vinsælda hefir Jón notið bæði í héraði og utanhéraðs.

Síðan Jón kom hér vestur, hefir hann lítinn þátt tekið í almennum málum. Skrifað ýmislegt í blöð og samið landnámsþáttu Íslendinga austan Manitobavatns. Hann hefir verið í stjórn Lestrarfélagsins í Sigluness- og Narrowsbygð, og í skólanefnd Sigluness skólahéraðs í 2 ár; hann er féhirðir og skrifari skóla héraðsins.

Það má heita Jóni líði vel. Er samt fremur heilsutæpur og ekki vinnufær. En hann getur lifað áhyggjulitlu lífi í skjóli barna sinna. Um heimþrá talar hann aldrei, en oft mun hugur hans vera heima á Íslandi. Og það grunar mig sé honum mest til áhyggju, að geta ekki bætt úr sínu fyrra fjárþroti á Íslandi.

Hjónabandið og heimilislífið hefir ætíð verið hið ástúðlegasta. "Eining andans með bandi friðarins" ríkir þar, enda á Jón orðlagða ágætis konu.

Heim að sækja er Jón manna skemtilegastur; gestrisinn, glaðvær og margfróður; hefir hann oft á reiðum höndum erindi úr kvæðum okkar beztu skálda, til að krydda með samtalið.

**(Höfundur framanritaðra landnámsþátta, Jón Jónsson frá Sleðbrjót, vildi eigi rita um sjálfan sig. Varð það því að ráði að þáttinn um hann hefir skrifað Jóhann Pálsson, málari við Clarkleighpósthús. Jóhann er Austfirðingur eins og Jón og þó hann hafi dvalið hér vestra um mörg ár, hefir hann fylgst vel með því sem gjörst hefir á ættstöðvum hans; auk þess er hann búsettur meðal manna, sem bæði voru sveitungar og sumir heimamenn Jóns, og má því ætla að frásögn hans, sé eins rétt og kostur er á**

***Útgef.*)**

## UM FÉLAGSMÁL

Af þeim er ekki löng saga né margbrotin, því við þau hefir ekki alment verið mikil rækt lögð. Fyrsta sporið til almenns félagsskapar mun hafa verið að byggja samkomuhús við Narrows. Var til þess stofnað hlutafélag og átti upphæðin að vera 1,000 doll. Hve mikið hefir safnast, veit

ei sá, er þetta ritar. En húsið komst upp, og munu helztu forgöngumenn þess hafa verið Sigurgeir Pétursson, Páll Kjærnested og Helgi Einarsson, og mun Helgi hafa haft mesta framkvæmd málsins, því hann tókst á hendur að láta reisa húsið. Það er all rúmgot og eru oft haldnar þar samkomur, mest að vetrinum og oftast til að dansa.

*Lestrarfélag* var stofnað í bygðinni árið 1910; var það nefnt Herðubreið. Náði það yfir alt svæðið á Siglunesi, við Dog Lake, Moose Horn Bay og Bluff, fyrir vestan Narrows. En brátt reyndist það, að svæðið var of stórt, og sögðu þeir sig úr vestan vatnsins og stofnuðu félag hjá sér (við Reykjavík P.O.); keyptu félagsmenn austan vatns þeirra hluta í bókunum. Var síðan skift í tvent félaginu austan vatns og eru í syðri hlutanum Siglunessbygð og bygðin sunnan við Narrows, en í nyrðri hlutanum bygðin við Dog Lake og Moose Horn Bay. Félagið var fyrst nefnt Herðubreið, og fylgdi það nafn Siglunessfélaginu; en hitt var nefnt Skjaldbreið. Öll fór þessi félagsskifting fram með góðu samkomulagi. Í fyrstu stjórn fél. voru kosnir Sigurgeir Pétursson, Guðm. Jónsson, J. Kr. Jónason og Jón Jónsson frá Sleðbrjót (og eiga þeir allir enn sæti í stjórn fél.), Kristinn Goodman, Stefán Eiríksson og Ragnar Johnson. Sigurgeir Pétursson var fyrstu tvö ár formaður, en síðan Jón Jónsson frá Sleðbrjót. J. Kr. Jónasson er alt af féhirðir. Í stjórn Skjaldbreiðar eru St. Eiríkson (form.), Sigurður Sigfússon (féh.), Ól. Thorlacius og B. Þorláksson.

Félögin munu nú eiga rúmlega 150 bindi af bókum hvort um sig, og mest íslenzkar bækur.

*Bindindisfélag* var stofnað hér nokkru eftir aldamótin, fyrir forgöngu Sigurgeirs Péturssonar, Geirfinns sonar hans og Ragnars Johnson. Árið 1911 var það gjört að Goodtemplarafélagi; kom hingað þá Mr. Arinbjörn S. Bardal frá Winnipeg og stofnaði formlega félagið. Goodtemplarafélaginu farnast vel, eru í því meiri hluti ungra manna og kvenna í bygðinni og fáeinir eldri menn. Haldi það áfram eins og byrjað er, þá eru góðar horfur á að það hafi áhrif í þá átt að leiða huga manna frá ofdrykkju.

*Skólamálum* er hér nú allvel komið. Fysta skólahús var

reist á Siglunesi 1907. Nú er annar skóli stofnaður sunnan við Narrows (Heylandsskóli), þriðji við Dog Lake vestanvert (Darwin-skóli) og við Moose Horn Bay er í undirbúningi skólastofnun, og hefir verið í vetur "prívatkensla" hjá Sigurði Baldvinssyni norðan við Narrows.

*Póstgöngur* hafa lengst um verið hér litlar og lélegar. Fyrst var póstur tvisvar í mánuði og varð að sækja hann vestur yfir vatn. Síðar var því breytt og póstur látinn ganga einu sinni í viku frá Scotch Bay og norður til Fairford, sem er 40 mílur fyrir norðvestan Narrows; var hann æði oft á eftir tímanum. Nú mega póstgöngur heita sæmilegar hér, því árið 1912 var settur póstur, er gengur tvisvar í viku hér vestur, frá Mulvey Hill, sem er járnbrautarstöð 30 mílur hér austur frá vestri hluta bygðarinnar. Og annar póstur gengur frá Ashern við sömu braut til Moose Horn Bay. Nýtt pósthús hefir verið sett við Dog L. og aukapóstur þangað frá Dog Creek og loforð fengið fyrir öðru pósthúsi nálægt Hayland skóla og aukapósti þangað frá Dog Creek.

*Kornyrkja* er mjög lítil hér enn. Nokkrir hafa samt plægt bletti, en víða hafa þeir skemst af flóði úr vatninu. Stærsta plæging hér mun vera 30 ekrur hjá þeim bræðrum Stefáni og Metúsalem Matthews. Þeir hafa, ásamt Birni bróður sínum og þrem öðrum: Jóni H. Johnson, Jóni A. Johnson, Guðm. Jóhannessyni, keypt gufuketil alldýran til að nota við plægingar, en hafa ekki enn getað notað hann svo að svari kostnaði, og litlar líkur þess það verði hægt að nota hann svo vel sé, nema Manitobavatn verði lækkað. — Aðrir tveir menn, Kristján Metúsalemsson og Jón Hólm, keyptu á næstliðnu vori gasolínvél til að nota við plægingar, og vinna með henni suður í Álftavatnsbygð í sumar.— Synir Bjarna Helgasonar og synir Páls Kjærnesteds hafa keypt sína gasolíuvélina hvorir, til að nota við eldiviðarsögun. Vélinni þeirra fyrnefndu fylgja áhöld til að þreskja korn og þresktu þeir það litið, sem hér óx af korni næstliðið ár.

*Fiskiveiði* hefir hér verið stunduð allmikið og oft orðið mikill hagur að. Nú síðari árin fiskast minna og mun vera meðfram af því of mikið af netjum hefir verið lagt í vatnið og fiskurinn því þorrið.

*Verzlun* var hér fyrst mjög lítil. Fyrsti íslenzki verzlunarmaðurinn hér mun hafa verið B. Mathews. Síðar fóru þeir að verzla Helgi Einarsson við Narrows, Stephan Stephansson við Dog Creek og J. Kr. Jónasson. Armstrong Trading Co. setti upp stóra verzlun á Siglunesi 1911. Kaupir það félag allan fisk hér og hefir verið einvalda um verðið.

Nokkrir fleiri menn en hér hafa verið taldir, hafa tekið sér bólfestu hér um stund, en ekki numið land. Ritarinn veit nöfn sumra þeirra, en annara ekki, og þykir því réttast að sleppa að segja frá þeim öllum, enda mun þeirra að líkindum flestra getið í þáttum þeirra bygða er þeir staðfestast í.

Er þá hér með lokið hlutverki því, er eg hafði á hendur tekist um samning landnámsþátta Vestur-Íslendinga. Bið eg góða menn að virða vel viðleitni mína að segja rétt frá og óhlutdrægt, og þá, er betur vita, vildi eg biðja að leiðrétta það, er missagt kann að vera, og senda leiðréttingar sínar til mín, eða útgefanda Almanaksins, herra Ólafs Thorgeirssonar í Winnipeg.

EFTIRMÁLI:—Þegar eg hafði lokið þáttum þessum, var mér bent á það, að árið 1912 hefðu nokkrir Íslendingar numið land 7 til 10 mílur norðvestur af Moose Horn Bay við Manitobavatn. Mun þar fyrstur hafa numið land hr. Jón Stefánsson, frá Gimli, og synir hans. Um landnám þetta get eg ei meira sagt, vegna ókunnugleika, en tíminn orðinn of naumur til að leita upplýsinga áður en þættir þessir verða prentaðir.



# SAGA ÍSLENDINGA
## í Albertahéraði
(Niðurlag).

### V. KAFLI.

Í þessum kafla verður enn skýrt frá félagsskap og framförum. Taldir landnámsmenn. Frá yngri landnámsmönnum, leiðréttingar, og viðaukar, — og seinast, eftirmáli.

### SAFNAÐARMÁL.

Lengi voru Íslendingar í Alberta án prests og kirkju; enginn gjörði sjer nein afskifti af þeim í þeim efnum. Þeir voru þá enn svo skammt komnir á framfaraveginn, að flestum mun hafa fundist, að eigi væru efni til að ráðast í stórræði, er reyndu á fjárhaginn. Meiri hlutinn lifði þá svipað þeim, sem fyrrum treystu á mátt sinn og megin. Og þegar afstaða nýlendunnar var rjett skoðuð og ástæður nýbyggjanna sanngjarnlega teknar til greina, var það óefað það heppilegasta, sem þeir gátu gjört, undir þeim ástæðum. Má vera, að um sinn hafi þeir verið, af sumu kirkju- og trúfólki, skoðaðir sem heiðingjar, eða heiðingjum verri; en hafi sú skoðun átt sjer stað, þá var hún algjörlega röng. Á þeim árum voru lifnaðarhættir manna þannig, að allt benti til, að þeir skildu köllun sína og ákvörðun mannlífsins; þeir virtust ætíð muna þetta: "Verið bróðurlega sinnaðir og meðlíðunarsamir, hallmælið engum, heldur lifið saman í kærleika og eindrægni." Kristilegum siðum var fylgt eins langt og ástæður leyfðu. Börn, sem fæddust fyrstu árin, voru skírð af annara þjóða prestum, og í mörgum dauðstilfellum voru þeir einnig fengnir til að greftra hina dánu. Og þar sem þess var ekki ætíð kostur, þá samt jörðuðu menn hina látnu kristilega og sómasamlega, svo langt sem ástæðurnar leyfðu. Jarðarfarir voru að jafnaði vel fjölmennar og fóru fram með góðu siðferði, alvörugefni og lotningu. Þá strax var valinn graf-

reitur á eignarjörð Jósefs Stefánssonar, bónda við Tindastól, sem gaf hann til legstaðar þeim dánu. Svona lifðu nýlendubúarnir án frekari prestsþjónustu en sagt hefir verið fyrstu tíu árin. Í júlímánuði 1898 kom að austan, frá Winnipeg, guðfræðingur Rúnólfur Marteinsson, sá er síðar varð prestur á Gimli í Nýja Íslandi og síðar kennari við Wesley-skólann í Winnipeg; mun hann hafa farið ferð þá að ráði kirkjufélagsins, en ekki var það almenningi hjer kunnugt fyrirfram, og kom hann því sem að óvörum. Hann dvaldi hjer í nýlendunni í það sinn tíu daga. Flutti hann fjórar messur: tvær í Hólaskóla-húsi og tvær í Tindastóll-skólahúsi; þau voru þá í nauðsyn notuð fyrir samkomuhús. — Mjög er það að líkum, að áður hann færi hjeðan hafi menn talið fyrir honum nauðsyn þess, að prestur fengist norður; en hvað sem um það var, þá sendi kirkjufjelagið næsta ár trúboða norður; hafði R. Marteinsson trúboðsstarf það árið; kom hann að austan 21. desembermánaðar 1899, og dvaldi hjer til 6. febrúar 1900. Vann R. Marteinsson, á þeim tíma, öll þau prestsverk, sem með þurfti; flutti messur víðsvegar í byggðinni, skýrði börn og kenndi börnum kristin fræði; kom á sunnudagsskóla bæði við Hólaskólahús og Tindastóls skólahús. Lagði hann mikla alúð við starf sitt og hvatti bændur til að mynda söfnuð. Þann 21. jan. 1900 var haldinn almennur fundur að Tindastól; eftir því, sem séð verður af fundargjörðinni, hafa setið á þeim fundi 20 menn, þeir er atkvæði greiddu. Var þá með meiri hluta atkvæða samþykkt safnaðarmyndun; var hann nefndur Alberta-söfnuður. Voru þá kosnir í nefnd þrír menn, til að semja frumvarp til safnaðarlaga, þeir Kristján Jónsson, Jóhann Björnsson og Ófeigur Sigurðsson. Nefndin lagði frumvarpið fyrir næsta fund 30. s.m., og var það samþykkt með litlum breytingum. Á næsta fundi 5. febrúar s. á., voru safnaðarlögin staðfest og kosin fyrsta stjórnarnefnd safnaðarins. Í henni sátu: Kr. Jónsson, J. Pétursson, J. Björnsson, Ó. Sigurðsson og G. Eiríksson. — Næsta ár rjeði safnaðarstjórnin séra R. Marteinsson, sem þá hafði tekið prestsvígslu, tvo mánuði til að þjóna Alberta-söfnuði; kom hann norður fyrstu dagana af nóv. og

þjónaði til 1. jan. 1901; meðlimir safnaðarins voru þá 130. Á kirkjuþinginu 1900 í Selkirk var Alberta-söfnuður tekinn inn í kirkjufjelagið. Næsta ár, 1901, rjeð safnaðarnefndin séra Jón Clemens einn mánuð til að þjóna Alb.söfnuði; kom hann norður 15. nóv. og þjónaði söfnuðinum, sem um var samið; ferðaðist hann um alla byggðina og skrifaði menn í söfnuðinn, um 60; hjelt einnig sunnudagsskóla, meðan hann dvaldi hjer. — Mjög skiptust menn í skoðunum um safnaðarmálin, og margir voru þeir, er aldrei gengu í söfnuðinn, sem sjá má af safnaðarmeðlimatölu, sem aldrei mun hafa verið meir en 200. Margir munu þeir hafa verið, sem höfðu þá skoðun, að byggðarbúar væru þá enn ekki í færum efnalega að sinna þeim málum svo vel væri, og sást það síðar, að sú skoðun hafði við nokkuð að styðjast. Næsta ár, 1902, var á ársfundi safnaðarins samþykkt, að ráða séra Pétur Hjálmsson nokkra mánuði, til að þjóna Alberta-söfnuði; mun séra Pétur þá hafa verið trúboði kirkjufélagsins; kom hann þá norður 15. okt. 1902 og þjónaði söfnuðinum þá 1½ mánuð. Árið 1903 kom sjera Pjetur aftur seint í sept. og var til 20. des. Á þessu sumri sendi Alberta-söfnuður fulltrúa á kirkjuþing, Gísla Eiríksson. Á ársfundi safnaðarins 12. dag jan. 1905, snerust umræðurnar um það, að ráða ársprest; hafði það mál áður komið til umræðu, en ekki náð fram að ganga; er svo að sjá, sem ekki hafi allir verið samhuga á fundinum; mun hinum hyggnari mönnum þá, sem fyr, ekki hafa sýnzt ráð að halda ársprest, með hliðsjón af fjárhag safnaðarins. Munu þeir S. Goodman og B. Björnsson hafa þá gjört þá tillögu, "að ráða enn prest, aðeins um fáa mánuði"; mun hún hafa verið samþykkt af meiri hluta þeirra, sem á fundi voru. Að þeim úrslitum gazt þeim lítt sem ákveðnastir voru með fasta prestsþjónustu. Kom þá fyrir, það sem sjaldan skeður, að fundurinn ónýtti þessa sýna eigin samþykkt og tók málið til umræðu að nýju. Kom þá fram tillaga þeirra Arna Pálssonar og Jóhanns Björnssonar, að ráða ársprest frá 1. júlí það ár, og náði hún samþykkt meira hluta. En sú raun varð á, að þessi tillaga gekk of langt. Var þá séra P. Hjálmsson formlega ráðinn til ársþjónustu; kom hann norður 12. júlí 1905. ásamt konu sinni; tók hann þá við þjón-

ustu Alberta-safnaðar. Flutti hann þá messur á fimm stöðum, meðan engin kirkja var; árslaun hans voru 600 dalir. Þannig hafði Alberta-söfnuður fengið prestsþjónustu fyrstu tilveruár sín til 1905, og munu þær snapir þó hafa kostað ærna peninga. Prestsgjaldið var aðallega fengið með frjálsum samskotum, sjerstaklega frá safnaðarmönnum, en svo var leita til utansafnaðarmanna, og brugðust þeir vel við kvöð þeirri; munu flestir utansafnaðarmenn hafa látið dálítið af hendi rakna til þeirra þarfa; svo studdi kvenfjelagið "Vonin" safnaðarmálið með talsverðum fjárframlögum. Eigi fór fjarri því, sem hinir hyggnari menn safnaðarins höfðu sjeð fram á, að með föstum presti hlyti innan skamms að koma þungur kostnaður á söfnuðinn, auk árslauna prestsins. Eigi leið á löngu, áður nauðsyn þótti að byggja kirkju fyrir söfnuðinn. Á ársfundi safnaðarins 15. jan. 1906 var rætt um kirkjubyggingu. Mun þá hafa verið ráðið, að byggja kirkju á Markerville. Skyldi þangað flytja efnið þá þegar. Tólfta febr. næsta fjekk safnaðarnefndin loforð J. M. Johnsons um lóð undir kirkjuna; var borðviður allur fluttur frá sögunarmylnu vestan úr skógum endurgjaldslaust. Er svo sagt, að sá, er seldi efniviðinn, gæfi af honum tvö þúsund fet. Var þeim J. M. Johnson og Jóh. Björnssyni falin umsjón á þeim innkaupum. Á safnaðarfundi 17. sept. 1906 var ákveðin stærð kirkjunnar: 40 fet að lengd og 24 fet á breidd, með anddyri 10 fet á hvern veg, og skyldu þeir Jóh. Björnsson og J. M. Johnson að öðru leyti sjá um fyrirkomulag byggingarinnar. Á ársfundi 7. jan. 1907 var kosin fimm manna nefnd til að annast um framkvæmd kirkjubyggingarinnar og kostnað við hana; í þeirri nefnd voru: I. Reinholt, Jóh. Sveinsson, G. Eiríksson, S. Goodman og Árni Pálsson. Yfirsmiður að kirkjunni var Gunnl. S. Stephensson frá Red Deer. Kirkjan var að mestu leyti fullbygð 25. maí 1907; vel og vandlega af hendi leyst, þrátt fyrir peningaþröng og ýmsar erfiðar ástæður; sem eðlilegt var, hvíldi skuld á henni, sem smásaman var goldin og að fullu borguð árið 1911. — Nú hefðu menn mátt ætla, að allt færi að óskum, og safnaðarlífið blómgaðist nú og blessaðist, þar sem bæði söfnuðurinn hafði fengið fasta prestsþjónustu og mjög myndarlega kirkju. En

hvað sem olli því, þá duldist það ekki lengi, að samhyggð og samvinna prestsins og sumra leiðandi manna safnaðarins var ekki svo æskilegt, sem nauðsynlegt var. Á ársfundi safnaðarins 9. júní 1908, sagði söfnuðurinn séra Pétri Hjálmssyni upp þjónustu hans, frá 1. jan. 1909; sem ástæða fyrir uppsögninni var gefin sú, að fjárhagurinn væri svo þröngur, að ekki væri mögulegt að launa árspresti; þetta mun og hafa verið sönnu næst, þótt sumir vildu ekki sjá það fyrri. En

*Byggingarnefnd og smiðir kirkjunnar á Markerville.*



*Gísli Eiríksson. Gunnl. S. Stephensson. Björn Jónsson. (Árni Eggertson). Jóhann Sveinson. Árni Pálsson. Indriði Reinholt. Sigf. Goodman.*

aðallega mun undiraldan hafa risið af því skeri, að samkomulagið var eigi svo heilt sem skyldi, þótt orsakinar væru að nokkru leyti hótfyndni og hjegómi, sem ekki átti neitt skylt við embættisfærslu prestsins, nje vanrækslu í verkahring hans; að því er frekast varð séð var síra Pjetur skyldurækinn og reglubundinn starfsmaður. Þegar Albertasöfnuður hafði sagt prestinum upp þjónustu hans, var söfnuðurinn prestsþjónustulaus ; riðlaðist þá hin andlega fylk-

ingin, og lögðu ýmsir á flótta, — sögðu sig úr söfnuðinum, jafnvel sumir þeir, er áður höfðu verið í brjósti fylkingar. Sumarið 1910 sagði Alberta-söfnuður skilið við kirkjufjel. og varð að segja það tvisvar sinnum áður leiðtogar kirkjufjelagsins tækju úrsögnina gilda. Það sama sumar kom hingað guðfræðingur Carl J. Olson, sem nú er orðinn prestur, og dvaldi hjer einn mánuð; flutti hann messu á Markerville og víðar meðal Íslendinga hjer; hugnaði mönnum það erindi vel, því hann var prúðmenni í allri umgengni og mælskumaður mikill. En svo hefir síra P. Hjálmsson unnið öll prestsverk fyrir byggðarmenn, síðan hann ljet af safnaðarþjónustu, og flutt nokkrar messur; ella hefðu menn ekki haft neina prestsþjónustu, og vafalaust er það ávöxtur hans prestslegu verka, að fólk hjer heldur vel við kristilegum siðum og kristilegum hugsunarhætti. Það sjest glöggt hjer við hin alvarlegu tilfelli, að allir eru bræður og systur í drottni. — Illt mun forstöðumönnum safnaðarins hafa þótt, að svobúið stæði, og munu því hafa leitazt fyrir að fá prest norður til að þjóna söfnuðinum, og að tilhlutun þeirra varð það, að síra Carl J. Olson, prestur Gimli-safn., kom norður í maí 1913, og var hjer einn mánuð; flutti hann messur á Markerville, Burtn Lake og Red Deer. Er svo sagt, að safnaðarnefndin hafi samið um við hann, að hann kæmi aftur á næsta hausti, 1913. — Í stjórnarnefnd Alberta-safnaðar eru nú: Kristján Jónsson, Jóh. Björnsson, Ófeigur Sigurðsson, Gísli Eiríksson og Árni Pálsson.

Ritað í júní 1913.

## SMJÖR- OG OSTAGERÐARFJELAGIÐ.

Þess hefir áður verið minnzt, að Helgi Jónasson byrjaði á verzlun á Markerville vorið 1897; byggðu þá bændur um sama leyti ostagjörðarhús á Markerville, aðallega á sinn kostnað. Byrjaði þá Helgi að láta vinna að ostagjörð; unnu þeir báðir að henni hin næstu missiri, Jón Benidictsson og Helgi, samt hvor í sínu lagi. Ostur var þá í lágu verði á markaðnum, 7—10 cts. pd.; framboð á honum var þá meira en eftirspurnin. Ostagjörðarmennirnir verzluðu þá með ostinn og greiddu bændum andvirði hans í vörum, en peninga-

borgun átti sjer naumast stað, og var það opt miður hagfellt fyrir bændur. Sáu menn brátt, að eigi myndi þetta hlíta, þá tímar liði. Það duldist ekki hinum hyggnari mönnum, að arðvænlegra myndi það, að koma á smjörgerð, ef þess væri kostur. Til þess að koma slíku í framkvæmd, var myndað hlutafjelag. Þurfti nú að semja við ostagjörðarmennina, að láta af ostagerð. Það varð að samningum undir því skilyrði, að hlutafjelagið keypti ostagjörðaráhöldin; það gjörði fjelagið, og munu þau hafa kostað um þúsund dali. Það varð fjelaginu óþarft kaup, því aldrei síðan hafði það nein afnot þeirra, með því að eigi var unninn ostur framar meir. Eigi að síður tókst fjelagsmyndunin greiðlega og voru bændur þarum mjög samráða. Hluthafar voru 35; voru það Íslendingar, nema D. Mörkeberg. Höfuðstóll uppborgaður á ári 1,035 dalir. Verkstæðið var svo leigt Dominion stjórninni, sem þá var títt um flest smjörgerðar verkstæði; stjórnin ljet svo byrja smjörgerð 12. júlí 1899; sendi hún hingað verkstjóra, danskan smjör- og ostagjörðarmann, Daniel Jóakim Mörkeberg; verður hans getið að nokkru síðar.

Ekki var fjelagið löggilt fyrr en 23. sept. 1899, undir nafninu: "Tindastóll Butter, and Cheese Manufacturing Association." Þá voru kosnir í stjórnarnefnd—Directors—D. J. Mörkeberg, Sigfús Goodman, J. M. Johnson, Th. Guðmundsson og Jón Benidictsson. Skrifari og fjehirðir var kosinn: St. G. Stephansson, og sátu þessir menn við stjórn mörg ár. — Dominionstjórninni þurfti fjelagið að greiða fyrir smjörgerðina 4 cts. af hverju pundi. Einnig varð fjelagið að annast um viðhald á verkstæðinu og verkfærum þess, og ýms önnur útgjöld, sem allt samanlagt nam árlega stórri upphæð. En þó kostnaðurinn væri mikill, var þó þetta spor í rjetta átt, og eitt hið allra stærsta og heillavænlegast, sem stigið hefir verið á framfarabrautinni í byggð þessari. — Stjórnin borgaði bændum mánaðarlega nokkuð af verði smjörsins og kom það bændum vel að haldi, við að mæta heimilisútgjöldum sínum. Fyrst um sinn, mörg ár, var mjög mikið unnið af smjöri á verkstæðinu; allir íslenzkir bændur skiptu þá við það og svo fjöldi af annara þjóða mönnum, einkum Dönum. Rjómi var fluttur vestan frá Raven-á og

víðar að. Fyrsta árið, sem D. Mörkeberg stýrði því, voru (frá 12. júlí til 31. oct. 1899) unnin 14,655 pd. af smjöri; fengu bændur þá að vinnnukostnaði frádregnum 17 cts. fyrir pd. Þó óx framleiðslan árlega eptir það svo mjög, að árið 1909 frá 1. maí til 30. apríl 1910 voru búin til 123,639 pd. af smjöri, og var það mest, sem búið var til á einu ári; en jafnaðarlega voru unnin 80 til 100 þúsund pd. á ári. Árið 1909 borgaði stjórnin bændum að frádregnum vinnukostnaði 22 cts. fyrir pd., og mun það hafa verið það hæsta verð, sem hún borgaði. Fullnaðarreikning fyrir andvirði smjörsins fengu menn eptir hverja sex mánuði. — Árið 1910 mun Dominionstjórnin hafa hætt að veita forstöðu verkstæðinu og afhent fjelaginu það. Á árunum 1910—11 minnkaði aðsókn að verkstæðinu og voru til þess ýmsar orsakir. Nokkrir voru það, sem hættu að mjalta kýr sínar, þótti, sem var, kostnaðarminna að láta kálfana ganga undir, og meira verðmæti í þeim á markaðnum en kálfum er fært var frá og mun það hafa verið á vissu aldursstigi; um sama leyti var sett upp smjörgerðarverkstæði á Evarts, sem að minnsta kosti gjörði betur í orði kveðnu, svo þangað sneru nokkrir, sem áður skiptu við verkstæðið á Markerville; en svo fjell sú stofnun alveg um koll. Enn var það, að í grenndinni byrjuðu einhverjir, sem ekki voru því vaxnir, á ostagjörð, og þótti sumum, sem þeir hefðu þar betur fyrir vöru sína og urðu því ginntir til að hætta við smjörgerðina en þessar ostagjörðarkrár hjöðnuðu niður sem vatnsbóla eptir lítinn tíma, og gjörðu lítið annað en illt eitt, því allt þetta varð til þess að koma reiki á ráð manna og sundra samvinnunni. Við allt þetta fækkaði svo viðskiptamönnum smjörgerðarfjelagsins á Markerville, að í apríl 1912 sá fjelagsstjórnin fram á, að smjörgerðin yrði svo lítil, að vinna við hana myndi ekki borga starfskostnaðinn. Var þá eigi annað sýnna, en að hætta yrði smjörgerð, að minnsta kosti yfir vetrartímann; það þótti all-illt, því nokkrir voru þeir, sem fluttu rjóma allt árið. Varð þá það að ráði, að stjórnarnefndin leigði D. Mörkeberg verkstæðið og smjörgerðaráhöldin til þriggja ára; hafa bændur síðan flutt til hans rjómann; hefir hann borgað andvirði smjörfitunnar á hverjum 14 dögum; hæst verð hefir verið 32 cts. pd., en aldr-

ei lægra en 20 cts. Reikningsskil hans hafa verið hin beztu, sem á verður kosið, og aldrei munu bændur hafa selt smjör sitt með jafn-góðum kjörum sem næstliðin missiri. — Fám árum síðan er Mörkeberg tók við stjórn og umsjá á verkstæðinu, var það byggt að nýju, stærra og vandaðra en áður; er það nú metið fjögur þúsund dala virði með tilheyrandi áhöldum, sem öll eru vönduð og nýleg; er það áreiðanlega D. Mörkeberg að þakka, að allt er í góðu ástandi. Sumum kann að hafa fundizt, að D. Mörkeberg vera kröfumikill og ekki hlífa bændum við dýrum verkfærakaupum; en svo munu flestir viðurkenna, að svo hlaut að vera; hann er ó-efað fyrir flestum smjörgerðarmönnum að kunnáttu og vandvirkni, og vill ekki annað, en það, sem hann vinnur, sje af fyrsta flokki að útliti og gæðum, og er það eigendunum einnig bæði til hagnaðar og sóma, og sje þessa gætt, verður það eðlilegt og sanngjarnt, að hann vilji hafa fullkomin og vönduð áhöld að vinna með.

Í stjórn fjelagsins sitja nú: Kristján Jónsson, Björn Björnsson, Guðm. Thorlacksson, Pétur Thompson og Gísli Eiríksson, en skrifari og fjehirðir er síra Pjetur Hjálmsson.

Ritað í júlí 1913.

## FENSALAFJELAGID.

Á landnámsárunum, fram yfir 1900, voru skólahúsin elstu að Hóla og Tindastól, notuð fyrir samkomuhús byggðarinnar og alla þá mannfundi, er voru fjölmennari en svo að haldnir yrðu í bændabýlum. En eftir því sem árin fjölguðu, varð vöntun á samkomuhúsi tilfinnanlegri, einkum þó, þegar menn af fleiri þjóðflokkum tóku að flytja hingað. Til þess að ráða bót á þessu, var myndað hlutafélag, nær því eingöngu af ungum mönnum árið 1902. Stofnfundur þess var haldinn 22. nóv. það ár; á þeim fundi var kosin stjórn fjelagsins. Hinir fyrstu stjórnendur voru: G. E. Johnson, forseti; G. Stephenson, skrifari og St. K. O. Kristinsson, fjehirðir. Byggði þá fjelagið áður langt liði samkomuhús, og keypti undir það bæjarjörð á Markerville; húsið var að stærð: lengd 40 fet, breidd 24 fet, með viðbyggingu að lengd 24 fet og 12 fet á breidd. Húsið var svo nefnt:

Fensalir og fjelagið Fensalafjelag. Fjelagið var löggilt og samin aukalög fyrir það. Þetta bætti fyrst um sinn úr bráðustu þörfum á samkomuhúss-vöntuninni, en smámsaman sáu menn, að húsrými vantaði meira, en fjárhagur fjelagsins hefir enn ekki leyft að byggja stærra. Í stjórnarnefnd fjelagsins sitja nú: G. Stephensson, H. Tr. Christinsson, Jón Hillman, H. Eiríksson, S. Kristjánsson. Skrifari og fjehirðir: A. J. Christvinsson.

Ritað í maí 1913.

10. *Bindindisfjelag.*

Áfengisnautn, eða ofdrykkja, hefir aldrei náð föstum tökum á þessari byggð, því þótt sumir hinna eldri manna hafi endur og sinnum tekið sjer kollu við viss tækifæri, án þess að sinna því meir en góðu hófi gegndi nje láta það trufla nauðsynlega umhyggju og starfsemi, getur ekki talizt drykkjuskapur.

En nær tímar liðu, og yngri kynslóðin þroskaðist, þótti einlægum bindindisvinum nauðsyn til bera, að mynda bindindisfjelag; var það einkum Þorsteinn Jónathansson, sem beitti sjer fyrir það málefni; var hann hinn mesti bindindisfrömuður; að því ráði snerist þegar með honum stór hluti yngri kynslóðarinnar. Fyrir Þorsteins umsýslu var bindindisstúkan "Fjallkonan" No. 14 af alþjóðareglu Good Templara, stofnuð á fundi að Markerville 29. maí 1904 af G. S. Grímssyni, í umboði stórstúku Norðvesturlandsins. Var Grímur ótrauður bindindismaður og vann mikið í þarfir stúkunnar; stofnskrármeðlimir voru 31, og fjölguðu fyrst um sinn árlega. Fyrst starfaði stúkan á íslenzkum grundvelli og taldi aðeins íslenzka meðlimi; en eigi löngu seinna fjekk stúkan þann fleig í höfuðið, að breyta til og láta fundi og önnur störf fjelagsins fram fara á enskri tungu og veita um leið öllum aðgang að henni, hverrar þjóðar sem væru, og starfaði stúkan eftir það á þeim grundvelli. Meðlimir urðu flestir 65, en við árslok 1910, voru meðlimir aðeins 30.

Umboðsmenn stúkunnar voru þessir Íslendingar: Þorsteinn Jónathansson, Guðm. Þorláksson og Aðaljón Kristvinsson. Æðstu templarar hafa verið: Guðm. Þorláksson,

Miss G. L. Kristinsson, Þorsteinn Jónathansson, John Hillmann og J. O. Johnson. Fjármál stúkunnar hafa annazt: G. E. Johnson, J. O. Johnson, B. Húnford og Árni Bardal.— Eftir að Þorsteinn Jónatansson flutti burt, var sem dofnaði yfir bindindisstarfseminni, samkomulagið fór á hæli, en óánægja gróf um sig í hugum sumra, sem leiddi til þess, að trúir bindindisvinir drógu sig í hlje, en aðrir gáfu upp fjelagsskapinn. En algjörlega virtist öll starfsemi stúkunnar heillum horfin, þegar G. S. Grímsson flutti burtu, þrátt fyrir það, að margir sterkir bindindismenn voru enn í stúkunni, sem vel voru þess umkomnir, að halda starfseminni áfram.

Ritað í marz 1912.

11. *Lífsábyrgðarfjelag.*

Nokkrir voru það af frumbyggjum nýlendunnar, sem keypt höfðu lífsábyrgð í ýmsum fjelögum, en þó voru þeir tiltölulega fáir. Stóð svo um nokkur ár, að þeirri nauðsyn var lítill gaumur gefinn. En eftir að niðjar hinna fyrstu landnámsmanna voru vaxnir upp, varð það mál að framkvæmdum. Árið 1905, 5. júlí, var á fundi í Markerville mynduð stúka: "Canadian Order of the Woodmen of the World", Markerville Camp No. 247. Meiri hluti stofnendanna voru ungir Íslendingar; þó voru nokkrir annara þjóða menn á fundinum, sem unnu að myndun stúkunnar. Fyrstu embættismenn stúkunnar voru:

| | |
|---|---|
| D. J. Mörkeberg C. C. | W. S. Johnson A. L. |
| J. S. Titch, A. L. | J. A. Olson W. |
| G. Stephansson, B. | John Hillman, S. |
| G. E. Johnson, C. | M. Quinn, E. |

Fundi sína hefir stúkan í Fensala Hall, Markerville, fyrsta laugardag í hverjum mánuði. Meðlimir stúkunnar eru nú yfir 50. Þrír meðlimir hafa dáið: Ólafur Benidictsson, Helgi B. Bárdal og Sigurður Magnússon. — Lífsábyrgð hafa Íslendingar $500 til $3,000. Embættismenn stúkunnar eru nú:

| | |
|---|---|
| Á Pálsson, C.C. | J. K. Stephansson, S. |
| H. Fr. Christinsson, A.L. | H. Eiríksson, W. |
| G. Stephenson, B. | B. Stephenson, M. |
| G. E. Johnson, C. | J. Hillman, M. |
| E. Eiríksson, E. | B. Björnsson M. |

Allt Íslendingar. Sumir af meðlimum stúkunnar hafa lífsábyrgð í öðrum fjelögum. Nokkrir Íslendingar tilheyra einnig Frímúrarafjelagi; meðal þeirra er Stephan G. Stephansson skáld, einn.

Ritað í júní 1913.

## *ÞÆTTIR LANDNÁMSMANNA (framh.)*

### 74. ÞÁTTUR.

*DANIEL JÓAKIM MÖRKEBERG.* — Þótt að Daniel sje ekki Íslendingur að ætterni og því þyki máske kynjum viðbregða, að telja hann með landn á m s mönnum nýlendunnar, þá samt ber margt til þess, að full ástæða er til, að geta hans hjer að nokkru. Í fyrsta lagi er hann landnámsmaður hjer og býr á löndum sínum, með svipuðum búnaðarháttum og Íslendingar; í öðru lagi hefir hann sagzt í sveit með íslenzku frumyggjunum og unnið með þeim að fjelagsskap og framförum; í þriðja lagi, hefir hann gjört stórum mun meira fyrir þessa byggð en nokkur annar af öðrum þjóðflokkum, og áunnið sjer viðurkenningu Íslendinga, sem virðingarverður, merkur maður. Daniel Jóakim Morkeberg (: Mörkeberg) er danskur að ætterni; hann er fæddur 2. ágúst 1870 í Kjöge í Danmörku. Faðir hans hjet Carl Wilhelm Mörkeberg.



Allt bendir til þess, að Daniel hafi fengið gott uppeldi, og þótt hann ekki beinlínis gengi menntaveginn, þá samt er hann fjölmenntaður maður. Hann lærði smjör- og ostagerð í Billesborg, Thurbyholm, Hövdingsgaard og Ferslev í Danmörku. Daniel fluttist til Bandaríkjanna í Norður-Ameríku árið 1890; tók hann þá að stunda einvörðungu smjör- og ostagerð. Um næstu átta ár stýrði hann smjörbúum í fylkjunum Illinois, Indiana og Iowa. Til Alberta flutti hann árið 1898, og tók þá við stjórn á smjörbúi í Edmonton, frá 1. apr. til 10. júlí 1899, en tók þá við forstöðu smjörbúsins í Markerville, sem hann hefir haft á hendi síðan.

Daniel nam land árið 1899, suður af Markerville, og keypti þá um sama leyti annað land af Hudson's Bay fjelaginu, og liggja lönd hans saman. Efndi hann þar til bólstaðar og bjó sjer myndarlegt heimili á skógi vaxinni hæð á suðurbakka Medicine árinnar, gagnvart Markerville bæ; hefir hann lagt stund á hvorttveggja, kvikfjárrækt og akuryrkju, og farnast hvorttveggja vel.

Daniel kvæntist 1. júlí 1902, ungfrú Hilmu Nyström, af sænskum ættum, fædd 1880; húsfrú Hilma Mörkeberg er mikilhæf og góð kona, og hefir áunnið sjer velvild og virðingu þeirra, sem hafa kynzt henni. Daniel Mörkeberg er mikilhæfur maður og vel að sjer gjör um flest, hygginn og ráðsvinnur og hinn traustasti til orða og athafna. Smjörgerðarmaður er hann umfram flesta sína samtíðarmenn, hefir og fengið ágæta viðurkenningu í verðlaunum, er hafa verið veitt honum fyrir smjörgerð, sem hjer segir: 7 gullmedalíur, 2 silfurbikarar, 3 silfurmedalíur og 2 *diplomas.*

## 75. ÞÁTTUR.

*SÍRA PJETUR HJÁLMSSON.* — Þótt að síra Pjetur verði ekki beinlínis talinn landnámsmaður, þá samt þykir hlíða að geta hans hjer, sem eins af merkustu mönnum byggðarinnar, er hefir haft meiri þýðingu fyrir sveit þessa, en flestir landnámsmenn; hann gjörði einnig að bólstað sínum landnám eins af okkar elztu frumbyggjum, sem komið var í auðn.

Síra Pjetur er fæddur 15. maí 1863, að Norðtungu í

Þverárþingi; faðir hans var Hjálmur Pjetursson, Jónssonar, ættaður úr Miðfirði í Húnavatnssýslu. Kona Pjeturs, en móðir Hjálms, var Ingibjörg dóttir þeirra hjóna: Einars og Kristínar, sem bjuggu í Kalmannstungu. Kona Hjálms, móðir sra Pjeturs, var Helga Árnadóttir, Einarssonar, við seinni konu hans: Helgu Snæbjarnardóttur, prests að Grímstungum í Húnaþingi, Halldórssonar biskups á Hólum í Hjaltadal. Foreldrar sra Pjeturs voru hin mestu sæmdarhjón; var Hjálmur hinn mesti búsýslumaður, vel viti borinn, gætinn og stilltur; hann var um mörg ár þingmaður Mýramanna. Sra Pjetur ólst upp með foreldrum sínum; ellefu ára að aldri fluttist hann með þeim að Hamri í Þverárhlíð Vorið 1881 þá 18 ára gamall rjeðst hann til hins nýstofnaða búnaðarskóla í Ólafsdal; dvaldist hann við þann skóla með Torfa Bjarnasyni jarðyrkjumanni um tvö ár við búfræðisnám; næstu tvö ár — 1883-85 — var hann vestur við Ísafjarðardjúp í Hnífsdal, síðan í Mýrasýslu önnur tvö ár; á þeim árum vann hann að jarðabótum hjá bændum. Þá hvarf hann að því ráði, að ganga á latínuskólann í Reykjavík; stundaði hann nám við hann fjóra næstu vetur og lauk þar prófi með II. einkunn sumarið 1891. Fór hann þá utan og gekk á háskólann í Kaupmannahöfn næstu tvö árin, en tók þar ekki próf; hvarf þá heim til ættlandsins aftur, haustið 1893. Tók hann þá að stunda guðfræðisnám við prestaskólann í Reykjavík, og útskrifaðist þaðan árið 1895. Um næstu fjögur ár stundaði hann ýmist verzlunarstörf eða barnakennslu, þangað til sumarið 1899, að hann flutti vestur um haf til Canada. Stundaði hann þá ýmsa almenna atvinnu um tveggja ára tíma, fyrst í Manitoba, síðar í Minnesota í Bandaríkjunum.

Árið 1902 gekk síra Pjetur í þjónustu Hins ev. lúterska kirkjufjelags Íslendinga í Vesturheimi, sem trúboðsprestur þess; hjelt hann þeim starfa um þrjú ár, eða þangað til 1905; á þeim árum fór hann til hinna ýmsu prestlausu safnaða og veitti þeim þjónustu um lengri eða skemmri tíma; á þeim árum kom hann til Alberta-safnaðar, og veitti honum þjónustu um lengri tíma, sem segir í Alberta-"safnaðarmálum" hjer að framan í þessum kafla.

Á ársfundi Albertá-safnaðar 12. dag janúar 1905, var samþykkt að ráða sra Pjetur, sem fastan prest safnaðarins frá 1. júlí það ár; tók sra Pjetur köllun þeirri og kom í embætti sitt 12. júlí 1905. En skammæ varð sra Pjetri sú vist, því eftir rúmlega þriggja ára þjónustu sagði söfnuðurinn honum upp safnaðar-þjónustunni frá 1. jan. 1909. Víst má því orði á lúka, að sra Pjetur væri góður kennimaður og skyldurækinn við embætti sitt og enginn mun kunna frá því að segja, að hann ljeti á sjer standa til embættisverka sinna. Og síra Pjetur gjörði það, sem fáir myndi hafa gjört undir svo vöxnum ástæðum, að hann vinnur öll aukaverk fyrir byggðina, jafnt fyrir alla, sem þurftu, eftir að honum var bægt frá safnaðarþjónustu; um fleiri ár framdi hann barnaskírnir, hjónavígslur, barnauppfræðslu og fermingu og flutti fleirum sinnum messur.

Sra Pjetur hefir skarpar og ljósar gáfur, og þótt hann hafi ekki náð háum skólavitnisburðum, þá samt hefir hann öðlazt fjölbreytta menntun og þekkingu; hann er maður hreinskilinn, en berorður, og vægir lítt til, ef því er að skifta; má og vera, að bersögli hans hafi aukið honum um sinn margt óverðskuldað aðkast; annars gefur sra Pjetur sig eigi mikið við fjelagsmálum, og er ekki hlutdeilinn um hagi manna; en hverju því málefni er hann sinnir, mun hann vilja reynast heill en ekki hálfur.

Sra Pjetur er kvongaður Jónínu dóttur þeirra hjóna: Jóns Helgasonar og Rósu Jónsdóttur, sem lengi bjuggu við rausn mikla á Eskiholti á Mýrum.

Sra Pjetur var lítt efnum búinn, er hann kom til Alberta; samt rjeðst hann í að kaupa land Benidicts Ólafssonar landnámsmanns, sem þá var í eyði, og mun hann fljótlega hafa goldið andvirði þess. Bæði þau hjón munu meir hafa fýst að búa á landi en í bæ, og setti sra Pjetur þar bú saman, með litlum efnum í byrjun. Byggði hann strax vandað íbúðarhús og girti landið inn. Þegar sra Pjetur sleppti embætti, kom honum það að góðu haldi, að hann gat verið bóndi engu síður en prestur; hefir hann bætt land sitt og fegrað, svo það að því leyti er ekki þekkjanlegt við það, sem áður var. Þótt eigi verði sagt, að sra Pjetur sje ríkur, þá hefir hann á

skömmum tíma bætt svo hag sinn og fært út efni sín, að óhætt mun að segja, að þau hjón sjeu við góðar álnir. Allt hjá þeim hjónum, utan húss og innan, ber órækan vott um reglusemi, þrifnað og starfsemi. — Þegar alls er gætt, má því orði á koma, að þau eigi eitt af fyrirmyndarheimilum byggðarinnar.

## 76. ÞÁTTUR.

*GUÐBJÖRN SVEINBJARNARSON.* — Hann var Borgfirðingur að ætt. Faðir hans bjó að Oddsstöðum í Lundar-Reykjadal; Sveinbjörn var Árnason, Jónssonar, Árnasonar; voru þeir feðgar komnir frá Árna lögmanni Oddssyni. Móðir Guðbjarnar en kona Sveinbjarnar var Guðlaug Kristjánsdóttir frá Skógarkoti í Þingvallasveit í Árnessýslu. Systkini Guðbjarnar voru: Jón vestur á Kyrrahafsströnd og Solveig í Foam Lake byggð, í Sask. fylki. Guðbjörn kvæntist Guðbjörgu Guðmundsdóttur frá Björk í Árnessýslu. Systkini Guðbjargar: tveir bræður: Kjartan á Stokkseyri á Íslandi og Guðmundur, búsettur við Markerville, Alta. Börn eiga þau Guðbjörn og Guðbjörg tvö á lífi, son og dóttur. Fósturdóttir þeirra var Halldóra er átti Björn Guðmundsson, Þorlákssonar landnámsmanns. Guðbjörn fór frá Heiðarbæ í Þingvallasveit vestur um haf árið



1901; fór hann fyrst til íslenzku byggðarinnar í Argyle, en þaðan til Alberta 1904. Nam Guðbjörn þá land 10 mílur vestur frá Markerville og bjó þar síðan. Guðbjörn er skynsamur maður, stiltur og gætinn og hinn ábyggilegasti maður í hvívetna; hefir honum farnast hjer vel, og býr nú við góðan efnahag.

77. ÞÁTUR.

*JÓN ÞORVALDSSON.* — Bróðir Kristínar konu Halldórs Ásmundssonar — sjá IV. Kafla, 73. þátt — og sjest þar um ætt Jóns. Ekki er með vissu hægt að ákveða nær Jón fór af Íslandi, en sennilegast er að hann hafi þaðan flutt árið 1901, en komið til Alberta 1902; þó skal þetta eigi fullyrt. Jón er verkhagur maður og starfsamur; söngfróður og söngmaður með þeim beztu í þeirri list. Jón nam land eigi fjarri Guðbirni Sveinbjarnarsyni, en eigi hefir hann búið á því til þessa. Jón kvæntist ungfrú Sezelíu dóttur Ófeigs Sigurðssonar landnámsmanns —sjá II. Kafla, 22. þátt. — Eftir það flutti hann til Calgary og settist þar að.

78. ÞÁTTUR.

*SIGURÐUR FINNSON.* — Maður er nefndur Finnur; Hann var sonur Eiríks bónda í Álptavík við Borgarfjörð, austan á Íslandi; Finnur átti konu þá er Sigurlaug hjet og var hún Sigurðardóttir, ættuð úr Eiðaþinghá. Finnur og kona hans áttu fimm börn, er náðu fullorðinsárum. Bræðurnir fjórir og systirin ein. Elztur þeirra var Sigurður, sem þessi þáttur er af, þar næst Eiríkur, Þórður og Sigfinnur, en systir þeirra hjet Gróa. Eiríkur lærði timbursmíði og sigldi til Noregs, og stundaði þar smíðar; drukknaði þar eftir fárra ára veru; ekkja hans lifir með tveim börnum þeirra suður í Minnesota, U. S. Sigfinnur er suður á Pembina-fjöllum í Cavalier sýslu, U.S., en Þórður er dáinn. — Sigurður Finnsson lagðist í siglingar ungur að aldri, og kom eigi til Íslands um sex ára tíma. Hann var í sjóferðum meðfram Noregi, Danmörku, Skotlandi og Færeyjum. Á þeim ferðum lærði Sigurður Norðurlanda tungumálin; er svo sagt, að hann kunni sum þeirra vel. Eftir sex ár strandaði skipið, er Sig-

urður var á, við Þingeyrarsand við Húnaflóa; björguðust menn allir og fóru á vist að Þingeyrum. Þaðan gekk Sigurður austur á Seyðisfjörð og bjóst að hitta föður sinn þar, en sem þá var fluttur til Ameríku; þar bjó eptir hálfbróðir Sigurðar, er Stefán hét; var það nefnt á Búðareyri; þar dvaldi Sigurður um hríð. Á þeim tíma kvæntist Sigurður Sophiu Sigurðardóttur frá Setbergi í Fellum; var hann kominn af Arnheiðarstaðaættinni, Þórðar og Bessa á Hrafnkelsstöðum, en Sezilia móðir Sophiu var dóttir Bjarna á Stafafelli, af Melaættinni, sem telja má niður til Þorsteins á Kolstöðum, Magnússonar prúða, Jónssonar á Svalbarði. — Sigurður dvaldi skamma stund á Íslandi, heldur flutti vestur um haf, fyrst til Winnipeg og síðan til N. Dakota, U.S.; nam hann þar land og bjó þar mörg ár og missti þar konu sína. Um aldamótin 1900 seldi Sigurður land og lausafje og flutti vestur á Kyrrahafsströnd, en til Albertanýlendunnar flutti hann 1904. Sigurður á einn son á lífi, Sigfinn að nafni. Þeir feðgar námu báðir land vestur með Red Deer ánni nálægt Dickson pósthúsi, 12 mílur vestur frá Markerville og búa þar síðan.

79. ÞÁTTUR.

*JÓN BÖÐVARSSON.* — Jón sá er sonur Böðvars á Skarði á Skarðsströnd, en móðir Jóns er Elín Jónsdóttir, kona Guðmundar Illugasonar — sjá III. kafla, 45. þátt. — Kona Jóns er Halla, dóttir Arngríms frá Smyrlakoti, Magnússonar hreppstjóra á Núpi í Haukadal í Dalasýslu, Magnússonar, en móðir Höllu var Margrjet Jónsdóttir frá Vatni í Haukadal í Dalasýslu, og mun ætt hennar öll í þeirri sveit. Jón fór frá Jörva í Dalasýslu vestur til Ameríku árið 1905; hjelt hann þá vestur til Alberta og nam land í námunda við Guðbjörn Sveinbjarnarson, hvar hann hefir búið síðan. Jón hefir orðið fyrir sköðum og heilsutjóni, og lengstum átt við erfið lífskjör að búa ; fáum mun hamingjan hafa orðið hverflyndari í nýlendu þessari, en Jóni Böðvarssyni.

80. ÞÁTTUR.

*GUÐMUNDUR GUÐMUNDSSON.* — Hann er bróðir

Guðbjargar konu Guðbjarnar Sveinbjarnarsonar og sjest ætt hans í þeim þætti. Guðmundur nam land eigi fjarri Guðbirni mági sínum og dvaldist hann löngum með honum hin fyrstu missiri; hann kvæntist síðar Ólöfu dóttur Jóns Jóhannessonar Nordal — sjá IV. kafla, 66. Þátt. — En með því Jón var þá mjög við aldur og sjónlaus með öllu, varð það að Guðmundur staðfestist þar og býr með tengdaföður sínum.

## 81. ÞÁTTUR.

*ÁSGEIR TÓMASSON*, Árnasonar; var ætt sú úr Dalasýslu. Móðir Ásgeirs hjet Margrjet, ættuð af Vestfjörðum. Kona Ásgeirs, Valgerður Eiríksdóttir, Sveinssonar, en móðir Valgerðar var Ingibjörg Friðriksdóttir Reykjalín; var hennar ætt í Reykhólasveit. — Börn þeirra Ásgeirs, sem lifa, eru fjögur: Margrjet, gipt C. A. Fisher; Octavíus Ingigeir, Ingibjörg, og Valdimar Hjörtur. Ásgeir flutti til Ameríku 1882, frá Jörva, til Winnipeg, svo til Norður Dakota, U.S.; en kom til Calgary, Alberta, 1890. Ásgeir settist að í Calgary og var þar hin fyrstu missiri; flutti síðan norður í nýlenduna og var löngum með Einari Hnappdal. Ásgeiri varð þröngur fjárhagurinn og reyndist Einar honum opt vel. Um 1901 tók Ásgeir land í námunda við Einar, en átti það skamma stund; mun hann hafa tekið þann kost, að selja landið, til að duga sjer og fjölskyldu sinni. Eptir það var Ásgeir ýmist í Calgary eða norður hjer; fór svo síðast að búa með tengdasyni sínum, sem hefir land nálægt Dickson pósthúsi.

## *HINIR YNGRI LANDNÁMSMENN.*

Þótt að afkomendur frumbyggjanna hjer fæddust upp við harðæri og ýmsa vöntun á hinum nauðsynlegu þægindum lífsins, þá samt grjeri hjer upp álitlegur hópur af ungum, þrekmiklum og dugandi mönnum, og jeg tel vafasamt, hvort nokkur önnur íslenzk byggð hafi jafnmörgum myndarlegum og dugandi drengjum á að skipa samanborið við fólksfjölda, sem þessi byggð. — Framanaf landnámstíðinni var hjerað þetta með litlum orðstýr út á við; var því lítill inn-

flutningur af öðrum þjóðflokkum. Um nokkur ár voru það Íslendingar einir, sem byggðu þessa nýlendu, eða juku landnámið. En um árið 1897 og eptir það, tekur þetta breytingum. Þá koma smámsaman menn af ýmsum þjóðflokkum, þó mest frá Bandaríkjunum, og nema lönd í útjöðrum nýlendunnar og sumir inní henni. Á sama tíma voru nokkrir afkomendur hinna elztu landnema vaxnir og tóku þá lönd í grend við feður sína, meðan þeir áttu þess úrkosti. En margir voru þá enn ungir og ekki í færum að nema lönd, og urðu þeir síðar að nema lönd í nokkurri fjarlægð, eða vera staðfestulausir ella.

Tveir synir Bjarna Jónssonar—sjá II. kafla, 5. þátt—námu lönd í grend við föður sinn og voru með honum um sinn. Jón kvæntist ungfrú Katie A., dóttur Roberts Wilsons harðvöruverzlunareigandi í Markerville; eptir það fluttu þau til Calgary og settust þar að; Jóhann kvæntist ungfrú Guðbjörgu Lilju, dóttur Kristins bónda Kristinssonar—sjá III. kafla, 10. þátt. — Bjarni, sonur Jónasar Húnford, nam land út frá landnámi föður síns en bjó með honum lengst um. Bjarni hafði að atvinnu póstflutninga frá Markerville vestur til Stauffer um mörg ár, og síðan frá Innisfail til Markerville. — Þórður bróðir Bjarna nam land mörgum árum síðar, 15 mílur vestur frá Markerville, nálægt New Hill pósthúsi.

Synir Benidicts Bardals—sjá II. kafla, 12. þátt—námu allir lönd suðvestur af Ewarts pósthúsi, vestanverðu Medicine árinnar, um átta mílur upp frá Markerville.

Synir Stephans G. Stephanssonar námu þrír lönd eigi langt frá föður sínum ;Baldur átti fyrir konu ungfrú Guðlínu, dóttur Benidicts Bardal. Guðmundur, sonur St. G. St. nú verzlunarmaður á Markerville, kvæntist ungfrú Regínu, dóttur Jóns Strong, landnámsmanns. — Þriðji sonur Stephans, Jakob, nam land næst við föður sinn.

Synir Sigurðar Eymundssonar og Jóhönnu Einarsdóttur —sjá II. kafla, 17. þátt.—Jón tók land suðaustur af Tindastóls pósthúsi, all-nærri bústað móður sinnar. Síðar seldi hann landið og flutti vestur að Kyrrahafi. — Þórel nam sjer land skammt suður frá Ewarts pósthúsi, og gjörði sjer þar bústað og hefir búið þar síðan; hefir honum farnast vel og

er nú vel megandi maður. Kona Þórels, Guðlaug Magnea Bjarnadóttir frá Tungu í Austur Skaptafellssýslu, en móðir hennar var Matthildur Guðmundardóttir frá Fossi í sömu sýslu. Systkin Guðlaugar eru sex: Páll er í Grimsby á Englandi, Guðni, Stefán og Björn á Seyðisfirði, Bjarni í Reykjavík, og tvær systur: Guðný og Guðlaug Jóna.

Hannes nam land næst við Þórel bróður sinn til norðurs; hann giptist ungfrú Halldóru Sigríði, dóttur Kristjáns Jóhannssonar—sjá III. kafla, 27. þátt—, og reistu þau bú á landinu.



HELGI B. BARDAL.

Helgi kvæntist ungfrú Sigurlaugu Jónasdóttur Hunford, en dó rúmu ári síðar; þau áttu eina dóttur, Sezeliu Hólmfríði. Helgi var hinn nýtasti maður, og fyrir þeim bræðrum um flest.

---

Stefán Jónsson, Gíslasonar, landnámsmanns, nam land eina mílu suðaustur frá Tindastól.

Octavíus Ásgeirsson, Tómassonar, nam land upp með Red Deer ánni, skammt frá Dickson pósthúsi; hann giptist Sigur-

björgu dóttur Jóns Jóhannessonar Nordal—sjá IV. kafla, 66. þátt.

Björn sonur Guðmundar Þorlákssonar landnámsmanns —sjá II. kafla, 19 þátt—nam land tvær mílur norður frá bústað föður síns; var hann með föður sínum, en vann landið til nytja. Björn giptist ungfrú Halldóru, fósturdóttur Guðbjarnar Sveinbjarnarsonar. Grímur Steingrímsson hafði þá flutt af landi sínu, sem fyr segir, og vildi gjarna selja það. Varð það ráð þeirra feðga, að Björn keypti landið af Grími; var það ráðagjörð þeirra, að Björn setti þar bú saman og gjörði það að bólstað sínum.



*Ófeigur Sigurðsson. (Sjá II. kafla, 22. þátt,)*

Tómas, sonur Ófeigs bónda Sigurðssonar—sjá II. kafla, 22. þátt—nam land vestur frá Markerville í grend við Jón

Þorvaldsson. Tómas vann lögskyldu á landi sínu, en var með föður sínum.

Synir Sigurðar Jónssonar—sjá III. kafla, 33. þátt—, Nikulás og Jón, námu lönd útfrá bústað föður síns, en voru lengstum með honum. — Synir Gísla Eiríkssonar—sjá III. kafla, 35. þátt—, Hósías og Eiríkur, námu báðir lönd útfrá landnámi föður þeirra, en bjuggu með honum.

Jón Ármann, sonur Jóns Strong—sjá III. kafla, 38. þátt—tók land áfast við búland föður síns; hann var með föður sínum meðan hann lifði, en eptir dauða hans var Ármann löngum með Jóni Benidictssyni, tengdabróður sínum, þangað til hann kvæntist ungfrú Önnu Jóhannsdóttur Sveinssonar, bónda við Burnt Lake; fór Ármann þá austur þangað og settist að í grend við tengdafólk sit.

Synir Kristins Kristinssonar—sjá III. kafla, 40. þátt—námu lönd vestur frá landi föður þeirra. — Stephan var einn af þeim fyrstu yngri landnámsmönnum. Hann var hinn mesti atgjörvismaður, en dó ungur, sem fyrr segir.—Hannes Frost var þeirra bræðra yngri, og nam síðar land; bjó hann með föður sínum um sinn, en leigði svo lönd hans, þá Kristinn ljet af búnaði vorið 1913.



*Stefán K. O. Kristinsson*

Synir Hermanns Hillmanns—sjá III. kaflað 44. þátt—námu lönd til vesturs frá landnámi föður síns. Jón tvær mílur fjær, en Jóhann fjórar.

Jón sonur Jónasar Jónssonar—sjá III. kafla, 47. þátt—festi sjer land vestur frá Markerville 12 mílur, eigi langt frá Jóni Þorvaldssyni. — Friðrik sonur Kristjáns Jónssonar — sjá IV. kafla, 71. þátt—nam land eigi langt frá föður sínum; hann keypti síðar land og setti saman bú á því. Friðrik kvæntist Guðlínu dóttur Guðmundar Illugasonar—sjá III. kafla, 45. þátt.

Þórður sonur Guðna Tómassonar—sjá IV. kafla, 58. þátt—tók land eigi fjarri föður sínum; eptir Guðna látinn settist Þórður á land föður síns og fór að búa með móður sinni.

Sigurður sonur Kristjáns Sigurðssonar—sjá IV. kafla, 63. þátt—tók land 11 mílur vestur frá landnámi föður síns.

## ENN FRÁ LANDNÁMI.

Vigfús bróðir Ófeigs Sigurðssonar landnámsmanns nam land fjórar mílur suðvestur frá Markerville og bjó þar öðruhvoru, en sætti þess á milli atvinnu og hafði þá land sitt undir umsjón nágranna sinna, eða leigði þeim það.

Sveinn Grímsson, bróðir Sigurðar Grímssonar landnámsmanns, nam land í námunda við bróður sinn, og var með honum hin fyrstu ár; en svo flutti Sveinn vestur að Kyrrahafi og staðfestist þar.

Einar Jónsson, ættaður úr Reykjavík, stjúpsonur Gríms Steingrímssonar, nam land 6 mílur norðvestur frá Markerville. Hann kvæntist Kristrúnu dóttur Sigtryggs landnámsmanns Jóhannssonar. Einar bjó aldrei á landi sínu og átti það skamma stund, en lógaði því fyrir bæjarjarðir í Calgary.

—Nú munu þeir flestir taldir, sem lönd hafa numið í Alberta nýlendunni. Þó er einn landnemi ótalinn. Ólafur Guðmundsson, Pétursssonar. Ólafur flutti hingað frá Mountain, N. D., árið 1900; nam hann land nálægt Burnt Lake í grennd við Jóhann Sveinsson; bjó hann á landinu nokkur ár, en flutti svo austur til Sask. og er þar nú. — Þrátt fyrir

ítrekaðar tilraunir hefi eg ekkert fengið að vita um ætt hans nje konu hans.

## ÍSLENDINGAR Í SUÐUR-ALBERTA.

*Jón Kristjánsson.* — Um hann er ritað í landnámsþætti Mouse River byggðar, sem út kom í Almanaki O. S. Thorgeirssonar 1913, og mun mega vísa til þeirrar umsagnar, hvað ætt hans áhrærir o.s.frv. Jón flutti til Alberta árið 1904 um vorið í Júní, ásamt tveimur sonum sínum; settist hann að í grennd við Claresholm; pósthús hans er nú Barons. Með sjer flutti hann kvikfjenað þann er hann átti í Mouse River byggð. Eptir ljet hann konu sína vera með yngri börnin, meðan hann væri að búa þeim heimili hjer vestra, og var sú ráðagerð hans, að hún skyldi koma vestur með börnin á næsta hausti í Septembermánuði; en það átti ekki að verða, því hún andaðist 4. ágúst um sumarið í fjarveru Jóns, og hefir það verið raun mikil fyrir hann, góðan dreng og tilfinningaríkan; en þá hefir það orðið honum helzti harmljettir, að Mouse River byggðarmenn önnuðust um konuna í veikindum hennar og gjörðu útför hennar heiðarlega og sýndu með því, að Jón hafði unnið sjer velvild þeirra og virðingu. Með konu sinni hafði Jón eignazt 13 börn, en sjö af þeim náðu aldri, 6 piltar og 1 stúlka, sem öll eru komin til Alberta. Stúlkan, Anna Guðrún, er gipt Bandaríkjamanni, og lifa þau nú í Great Falls, Montana. Bræðurnir eru allir ókvæntir, en tveir þeirra, Guðjón og Kristján, hafa numið lönd í námunda við föður sinn. Jón kvæntist annað sinn í okt. 1909, Kristínu Rósenkranzdóttur, ekkju Guðmundar Guðmundssonar, sem dó á Baldur, Man., árið 1902; þau voru bæði ættuð úr Ísafirði vestan á Íslandi. —Litla kunnleika hefi jeg haft af Jóni, hefi sjeð hann einu sinni, en fleirum sinnum hefi jeg sjeð hann í anda og kynnzt honum í gegnum þann boðbera, sem hefir sannfært mig um, að hann sje drengur hinn bezti, skynsamur og í bezta lagi ritfær maður; en tilfinningamaður er hann, kappsamur og fylginn sjer, líklegur til að vera trauður á að láta hlut sinn, eða sleppa málstað sínum, hirðir þá máske lítt um, við hvern er að eiga, hvort kjóllinn er síður eða stuttur. — Í Suður-

Alberta eru því aðeins þrír landnemar íslenzkir; auk þess munu vera fáeinir Íslendingar í bænum Taber á brautinni milli Lethbridge og Medicine Hat, sem munu vera þar við kolanámu vinnu, fluttusti þangað frá Utah, U.S.; en um þá er mjer ekki frekar kunnugt.

Í bænum Ponoka, meðfram brautinni milli Red Deer og Edmonton, eru nokkrir Íslendingar. Þar hefir búið um mörg ár Gísli Guðmundur — Goodman — Þorvarðssonar; hefir hann verið verkstjóri C. P. R. fjelagsins. Guðrún heitir hans kona, en um ætt hennar er mjer ekki kunnugt.

Í Red Deer býr — auk þeirra, sem áður eru taldir — Kristján Jónasson frá Knarrarnesi í Mýrasýslu. Foreldrar hans voru: Jónas Kristjánsson, Kristjánssonar frá Hítardal og kona hans Þuríður Bjarnadóttir frá Knarrarnesi. Kristján er fæddur á Knarrarnesi 25. apríl 1872.—Kona Kristjáns er Halldóra Bergþórsdóttir Bergþórssonar og konu hans Guðrúnar Sigurðardóttur, er lengi bjuggu á Langárfossi í Álptaneshreppi í Mýrasýslu. Kristján flutti vestur um haf frá Íslandi árið 1894, en til Red Deer er hann kominn árið 1906; hefir hann búið þar síðan á eigin eign í laglegri byggingu. Hefir hann unnið fyrir verzlunarmenn bæjarins að varningsflutningi um bæinn. Þau hjón eiga 7 börn á lífi. Ein dóttir þeirra er gipt innlendum manni, búsettum í Edmonton. Kristján er vel gefinn maður og góður drengur.

---

# ÍSLENDINGAR Í CALGARY.

Nokkrir Íslendingar eru í Calgary, auk þeirra, sem áður er getið, sumir af þeim búsettir; skal þeirra getið hjer:

Finnur Jónsson, Jónssonar, ættaður úr Eyjafjarðarsýslu. Hans kona er Snjólaug Sigurðardóttir frá Krossi á Árskógsströnd. Þeirra börn fjögur á lífi: Sigurrós Filippía, gipt manni af enskum ættum; önnur dóttir þeirra, María; tveir synir: Walter og Vilhjálmur, öll með foreldrum sínum. Finnur fór frá Sauðárkróki í Skagafirði vestur um haf til Norður Dakota 1888 og dvaldi þar tvö ár; fór þaðan til Alberta 1891 og settist að í Calgary, en flutti norður til Alberta nýlendunnar 1893 og var þar þangað til 1897, að hann flutti til Calgary aptur og hefir búið þar síðan.

Pjetur Jóhannsson frá Húsabakka í Skagafjarðarsýslu. Hans kona Jóhanna Jónsdóttir, skagfirzk að ætt. Þeirra börn sex.

Edwin Anderson, á konu af norskum ættum; þeirra börn þrjú; hann er hárskeri að handiðn.

Annar hárskeri er í Calgary, Sigurður Sigurðsson, ættaður af Vestfjörðum á Íslandi.

—Þess skal getið, að litlu eptir 1900 flutti hingað frá Garðar, Norður Dakota, Geirhjörtur Kristjánsson, aldraður maður. Hann nam land skammt frá New Hill pósthúsi; hann dó eptir tveggja ára veru hjer, áður hann yrði eigandi að landinu. Kona hans hjet Guðfinna, og dó hún ári síðar. Um ætt þeirra er mjer ekki kunnugt.

Í Alberta nýlendunni munu nú vera sem næst 300 Íslendingar, eptir því, sem næst verður komizt. Alls munu vera í Alberta um 450, nær allt er talið, bæði úti á landsbyggðinni og í bæjunum. Sennilegt er, að þeir sjeu heldur fleiri, því einstöku menn dvelja á ýmsum stöðum við atvinnu, sem eigi er hægt að telja.

# FRÁ ÍSLENDINGUM Í EDMONTON.

*(Að mestu tekið eftir handriti herra Gunnars Matthíassonar).*

---

Í fám orðum skal hér getið þeirra Íslendinga, sem hafa tekið sjer bólfestu í Edmonton, stjórnarsetri Alberta-fylkis. Edmonton er stór borg, sem hefir vaxið og blómgast nú á næstliðnum árum, meira hraðfara en ef til vill nokkur annar bær í Norðvesturlandinu; er þegar sjeð, að borg sú verður miðstöð samgöngufæra og viðskifta í hinu gagn-auðuga Alberta fylki, sem geymir í náttúrurskauti sínu ótæmandi auðsuppsprettur og ákjósanlega framtíðar-möguleika.

Lengi voru norðurhjeruð fylkisins lítt kunn, eptir að Íslendingar fluttu til Alberta; þau voru jafnvel skoðuð sem eyðimörk, óbyggileg hvítum mönnum, en svo leiddi tíminn og vaxandi þekking hið gagnstæða í ljós.

Hinn fyrsti Íslendingur, sem tók sjer bólfestu þar nyrðra, mun hafa verið Karl Sigurðsson, Eymundssonar, og konu hans Jóhönnu Einarsdóttur; er þeirra getið í sögu þessari II. kafla, 17. þætti. Karl er vel greindur maður, laginn og verkhagur, en nokkuð sjerkennilegur í skoðunum sínum; eigi hefir Karl haldið kyrru fyrir, heldur farið víða og lagt margt á gjöva hönd. Síðast fór hann norður til Ft. McMurray; stundaði hann þar dýraveiðar um langan tíma og nam þar land að síðustu, að hans eigin sögn, og var einn af þeim allra fyrstu hvítra manna, sem settust þar að. Karl hefir ritað nokkrar blaðagreinar, og dregið athygli manna að ýmsum auðsuppsprettum í því héraði. Karl er kvæntur dóttur þeirra hjóna, Tryggva Ólafssonar, bónda í Argyle, Man., og Berglaugar Guðmundardóttur, Jónssonar frá Sköruvík.

*Jón Jónsson,* Péturssonar, frá Kolgröf í Skagafrði. — Jóns er áður getið, í II. kafla sögu þessarar 24. þætti. Eins og þar er sagt, fluttust þau hjón með börn sín norður til Edmonton úr íslenzku nýlendunni í Alberta, árið 1904. Hefir hann búið þar síðan. Lítt mun Jón hafa verið efnum búinn, er hann kom til Edmonton; en með hagsýni og reglusemi jók hann brátt efni sín til stórrar hagsældar; er svo sagt, að hann sje einn meðal hinna efnaðri Íslendinga vestan hafs; hefir hann stundað fasteignaverzlun og reist margar byggingar, stærri og smærri; einnig mun hann hafa rekið nokkra varningsverzlun; en í öllu þessu hefir heppnin verið hans megin, svo uppskeran hefir orðið hundraðföld á þessum fáu árum. Heimili þeirra hjóna, er þar við brugðið, sem fyrirmyndarheimili, að snyrtimennsku, höfðingsskap og risnu; þessum göfugu, íslenzku kynfylgjum, hafa þau hjón unnað og að þeim hlúð, undir hvaða ástæðum, sem þau hafa verið. Jón er vel skynsamur, dugnaðar- og framsóknar-maður, og er mjög vel virtur af borgarbúum; hann er óefað einn af þeim, sem mest unnu upphaflega að myndun þeirrar borgar.



*Indriði Jónathansson,* Jónssonar frá Skriðulandi í Suður-Þingeyjarsýslu, kominn til Edmonton árið 1905, og hefir búið þar síðan. Indriði er kvæntur Jóninu Jónasdóttur,

einnig ættaðri úr Þingeyjarsýslu; þau eiga 5 börn uppkomin, mannvænleg. Þau hjón komu frá Íslandi 1891, til Selkirk, Man, og dvöldust þar 13 ár; eiga þau nú mjög myndarlegt heimili.

*Ásgeir* og *Tryggvi* eru bræður tveir nefndir, synir *Þorsteins Hallgrímssonar* einhenta. Þeir komu til Edmonton árið 1906, báðir þá fjölskyldulausir. Tryggvi hafði áður stundað málverk vestur á Kyrrahafsströnd, og stundaði þá iðn, er hann kom til Edmonton, hafði þó ekki fastar stöðvar þar fyrr en snemma á árinu 1912; varð hann þá gestgjafi í fjelagi við innlendan mann og fórst það ágætlega; en heilsan brást honum og varð berklaveiki dauðamein hans í Aprílmánuði 1913; var talinn að honum hinn mesti mannskaði, því hann var dugandi maður og mjög vinsæll. — Ásgeirs verður bezt minnzt í sambandi við annan mann, sem fluttist þangað um sama leyti.

Maður sá er *Sveinn Þorvarðsson,* Sveinssonar frá Hraundal í Mýrasýslu. Kona Sveins er Jóhanna Jónsdóttir Hjálmarssonar frá Svold pósthúsi í Norður-Dakota, U. S.; höfðu þeir Sveinn og Ásgeir unnið fyrr við verzlun A. Friðrikssonar í Winnipeg; var þá mjög lofað ágæti og framtíðarhorfur Edmonton hjeraðsins; fýsti þá fjelaga, að freista gæfu sinnar þar norður; Ásgeir gaf sig þá fyrst um sinn við fasteignasölu, en Sveinn við húsasmíði; leið eigi langt, áður þeir keyptu lóð, í aðalstræti bæjarins, og byggðu á henni kvikmyndasýningahús; mun hafa gefið þeim lítinn hagnað fyrst um sinn, því þá var það ekki vel sett; en smámsaman jókst viðskiftastarfsemin í þeim hluta borgarinnar, og fasteignir hækkuðu að verðmæti; urðu þeir fjelagar þá vel settir með leikhús sitt; en þá varð það, að það reyndist ónóg húsrými; leigðu þeir fjelagar þá lóð um 15 ár, og byggðu á henni eitt hið veglegasta leikhús, sem byggt hefir verið í þeim bæ. Húsið er að stærð: 100 fet lengd, 40 fet breidd, tvílyft, með kjallara undir því öllu, byggt úr rauðum múrsteini; salurinn rúmar full sex hundruð manns og er hinn prýðilegasti. — Ásgeir kvæntist 1912, Guðfinnu, dóttur Árna bónda Sveinssonar í Argyle, Man. — Þeir fjelagar eru lipurmenni og snyrtimenni í öllum viðskiptum; er

því öllum vel til þeirra, sem kynnast þeim. Þeir sjerkenna sig undir félagsnafninu: "Hallgrímsson and Swanson."

*Benidict Ólafsson,* Ólafssonar frá Sveinstöðum í Húnaþingi; hann fór vestur um haf átta ára gamall; mun hafa dvalizt í Winnipeg æskuár sín; lærði þar ljósmyndagerð af Baldwin & Blöndal, en flutti til Edmonton 1907; hann er hornleikari og hefi lengstaf tilheyrt bezta hornleikaraflokki bæjarins; hann er talinn einn hinn bezti hornleikari þar um slóðir. Jafnframt vinnur hann að ljósmyndagerð, og hefir að jafnaði haft menn í þjónustu sinni. Hann er ókvæntur.

Bræður tveir eru nefndir *Felix* og *Vilbert, Friðbjarnarsynir Friðrikssonar,* frá Glenboro, Man.; eru fæddir og uppaldir í Argyle-byggð með föður sínum, og urðu þar vel efnaðir menn; síðan þeir fluttu til Edmonton, hafa þeir stundað húsasmíði; þeir hafa gefið góða raun af sjer, og reynzt myndarmenn í hvívetna. Felix er kvæntur Sigrúnu dóttur Hafliða frá Glenboro. Vilbert er ógiptur.

*Pjetur Gísli,* sonur *Torfa Magnússonar,* þess er lengi var bókari við Zimsensverzlun í Reykjavík; er hann að ætterni náskyldur H. Finnsen, fyrrum landshöfðingja á Íslandi; er ætt sú ein hin merkasta, og verður hún talin frá Finni biskupi í Skálholti. Pjetur er fæddur árið 1877, og flutti með foreldrum sínum 9 ára að aldri vestur um haf; settust þau að í Chicago. Þegar Pjetur óx upp, vann hann á húsgagna-verkstæði, og varð þar síðar verkstjóri; hjelt hann þeirri stöðu þangað til hann flutti til Edmonton sumarið 1912. Pjetur er mikill maður vexti og hinn tígulegasti, sem fyrri frændur hans, listfengur og fjölhæfur og söngmaður með afbrigðum. Haustið 1912 giptist Pjetur Guðrúnu, dóttur Skapta sál. Arasonar, eins af hinum fyrstu landnámsmönnum í íslenzku byggðinni í Argyle, Man.

*Jónathan Ólafsson,* er nú búsettur í N. W. Edmonton. Hans er áður getið í sögu þessari, IV. kafla, 70. þætti. Síðan hann flutti til Edmonton, mun hann mest hafa stundað húsabyggingar; hefir honum farnast vel, reynzt dugandi maður og vinsæll.

Þá eru taldir þeir Íslendingar, sem hafa búsett sig í Edmonton-borg. Þó eru þar nokkrir fjölskyldulausir menn,

en sem óvíst er, að hugsi til langdvalar á þeim stöðvum; einn af þeim er Gunnar, sonur skáldaöldungsins okkar góða, sra Matthíasar Jochumssonar; Gunnar er ungur maður, lipurmenni, söngmaður góður og sagður drengur hinn bezti.

Sagt er, að vestur frá Edmonton búi Íslendingar, þó eigi margir. Einn þeirra mun vera Ásgeir, sonur bændaöldungsins húnverska, Baldvins sál. Helgasonar frá Gröf Víðdal. Myndi eg hafa minnzt Ásgeirs gjör, hefði fjarlægð og tímaleysi ekki hamlað því.

Ritað 31. dag. Oct. 1913.

---

## LEIÐRJETTINGAR og VIÐAUKI við III. KAFLA.

**33. þátt.**—Móðir Ástríðar á Víðimýri hjet Ingibjörg; hún var dóttir Jósefs bónda Tómassonar, sem lengi bjó á Reykjum á Reykjabraut; hann gaf Sigurði dóttur sína og bjó hann á Reykjum eptir Jósef látinn. Sigurður og Ingibjörg áttu fjögur börn, sem urðu fulltíða: Ástríði, Sigurð, Guðmund og Rósu; Sigurður sá bjó á Auðunnarstöðum í Víðidal, hann átti konu þá er Sigríður hjet. Guðmundur átti Þuríði, dóttur Stefáns bónda í Vatnshlíð á Vatnsskarði og reisti þar bú, og bjó þar fram um 1880 og máske lengur. Rósu átti Jónas Jónsson frá Torfalæk, óðalsbóndi í Finnstungu. Seinni kona Sigurðar á Reykjum, var Þorbjörg Árnadóttir, systir Jóns á Víðimýri, stórmerk kona ;þeirra börn voru: Kristján Sigurðsson, nú bóndi á Reykjum og Ingibjörg, kona Guðmundar Erlendssonar frá Tungunesi, nú óðalsbóndi í Mjóvadal, upp frá Bólstaðarhlíð. Það er því missögn, að Sigurður á Kagaðarhóli væri bróðir Ástríðar, heldur var hann sonur Sigurðar bónda á Eyjólfsstöðum í Vatnsdal. Enn var einn bróðir Nikulásar á Stóru-Seilu föður Sólveigar, Stefán að nafni, hann bjó fyrst í Stóru-Gröf og síðar á Víðimýri og dó þar. Stærsta villan í þessum þætti er sú, að Efimía kona Gísla Konráðssonar, væri systir þeirra Glaumbæjarbræðra, heldur var Efemía kona Einars í Krossanesi, dóttir Gísla og Efemíu, en hver að var ætt Efemíu eldri, hefi jeg ekki vissu fyrir, þó jeg ætli helzt, að hún væri af Reynistaðaættinni, máske Benediktsdóttir. Móðir Sigríðar seinni konu Sigurðar Jónssonar, ætla jeg væri Ingiríður systir Jóns á Víðimýri, en kona Benónís á Beinakeldu. Hafa þau hjón þá verið systkinabörn.

**34. þátt.**—Stóra Gröf er í Staðarhreppi, og Steinn var þar hreppstjóri, en ekki í Sauðárhreppi.

**40. þátt.**—Sjötti sonur Jóhannesar á Vindheimum hjet Hannes, föðurbróðir Kr. Kristinssonar.

**43. þátt.**—Grunsamt hefir mjer verið, að sumt væri hjer

ekki allskostar rjett. En jeg hafði fyrir mjer heimild, bókstaflega sem var "innblásin" af hlutaðeiganda og hefði því átt að vera "óskeikul". Það er viðvíkjandi föðurætt Jóns, sem mjer þykir vafasamt. Að "Skaga"-Pálmi var sonur Jóns Guðmundarsonar á Móbergi í Langadal, er mjer torskilið. Um og rjett eptir miðja 19. öld, bjó á Móbergi Guðmundur Jónsson, þá hniginn á efra aldur. Synir hans voru Friðfinnur og Jón. Jón þessi reisti bú á Móbergi eptir föður sinn, en flutti brátt þaðan og fór að búa á Strjúpsstöðum og bjó þar fram yfir 1880, eða lengur. Þessi Jón var ekki faðir Pálma; hann átti að vísu mörg börn, um þau vissi jeg vel, því jeg var barnakennari Jóns einn vetur; elzti sonur hans hjet Gumundur, er dó ungur; annar sonur Jóns hjet Friðfinnur og mun nú vera sölustjóri á Blönduósi. En þó getur verið ,að ættfærslan sje rjett, ef sú tilgáta mín væri rjett, að þeir Guðmundur á Móbergi og Pálmi hefðu verið bræður, en Pálmi þeirra yngri; Jón faðir Guðmundar bjó á Móbergi um og eptir aldamótin 1800, en eigi veit jeg hvers son hann var, þó sennilegt sje, að hann hafi verið Guðmundarson, því á þeim árum var það mjög opt, að tvö nöfn skiptust á lengi í ættunum, eða einsog náðu hefð í þeim. En þetta er að eins getgáta mín en ekki rökstudd vissa.

**47. þátt.**—Það er rangt, að Bjarni á Sjávarborg væri bróðir Jóns í Álptagerði, eins og það er sett í þættinum; hann var sonur Jóns og bróðir Jónasar á Syðsta Vatni. Systkini Gísla prests voru, sem segir í þættinum. Jón prófastur á Auðkúlu og Katrín kona Benidikts Halldórssonar á Reinistað, en ekki Ragnheiður, einsog stendur þar. Þessi Benidict var bróðir þeirra Reinistaðabræðra, sem úti urðu á Kjalvegi seinni hluta 18. aldar, líklega 1763; bein þeirra fundust 60 árum síðar, og voru flutt norður til Reinistaðar. Dóttir þeirra Benidicts og Katrínar, var Ragnheiður, kona Einars Stefánssonar umboðsmanns á Reinistað, en dóttir Einars og Ragnheiðar var Katrín, kona Benidicts Sveinssonar assessors og alþ.manns. — Þar sem talin eru systkini Ingibjargar Rannveigar, er ótalin önnur systir hennar, Sigurbjörg að nafni; — hún er gipt Sveini Árnasyni, komin frá Vopnafirði; þau búa í Seattle, Wash.

**IV. kafli, 53. þátt.**—Prentvillu hygg jeg það vera, að dóttir Einars er nefnd Guðrún; á að vera Guðríður.

**IV. kafli, 73. þátt.**—Eyvindarson, á að lesast: Auðunnarson; — Bergur, á að lesast: Bergþór; — Rekjadal, á að lesast: Reykholtsdal—í Borgarfjarðarsýslu.

## EFTIRMÁLI:

Með þessum V. kafla endar þá "Ágrip" landnámssögu Íslendinga í Alberta; og þótt það kunni að þykja fjarstæða, að kalla það "Ágrip", þá er því svo varið, að það er lítið meira, því fljót er farið yfir sögu og með sem fæstum orðum, sem unnt

er; mörgu er sleppt, sem segja hefði átt, og sem gjört hefði frásögnina nákvæmari og skemmtilegri, og það hefði jeg fremur kosið, en því var margt til hindrunar. Jeg vissi vel, að jeg var ekki vaxinn því að rita sögu og hafði aldrei ætlað draga þann dul að mjer; en þarsem enginn vildi verða til þess annar, þá gjörði jeg það fyrir margítrekaða áskorun kunningja minna og vinsamlega bón útgefandans; heimilisannir mínar gáfu mjer nauman tíma til ritstarfa, og ýmsir erfiðleikar voru á leið minni, þó enginn eins og að geta tínt saman ábyggilegar heimildir; þær voru í mörgum tilfellum ónógar og ekki rjettar. Það var líka, að sumum þótti litlu skifta um þetta mál, nöfðu jafnvel ýmigust á hnísni minni. Í umsögn minni um menn og málefni, hef jeg ekki verið undir nokkurs manns áhrifum; upphaflega lagði jeg til grundvallar sannfæring mína og þekkingu, svo langt eða skammt, sem það náði. Í ættfærslum, ártölum og ýmsum staðhátum varð jeg að nota skýrslur og heimildir frá þeim, sem hlut áttu að máli; reyndist mjer það í sumum tilfellum ónóg og miður ábyggilegt, og í því eiga sumar rangfærslur sjer rætur, sem eru í sögunni; á stöku stöðum eru prentvillur, og sumt af fljótfærni minni að notfæra mjer, án þess að rannsaka gjör sannleiksgildi heimildanna. En nokkur umbót er það, að jeg hef smámsaman leiðrjett flest, sem missagt var; má þó vel vera, að ætvillur sjeu fleiri en lagfærðar eru; sá sem ritar allsherjar landnámssögu Vestur-Íslendinga, gjörir þá betur; en óráð er það hverjum einum manni að rita þá sögu; það er ókleift verk einum, svo að betur sje farið en heima setið. — Stafvillur eru nokkuð víða, og er það ekki mín sök; þykir mjer það all-illt, en nenni ekki að semja leiðrjettingar við þær. Ef að sagan er illa sögð, eiga sveitungar mínir mesta sök á því, og mega líka sjálfum sjer um kenna að nokkru leyti.



# TILDRÖG TIL

## íslenzkrar nýlendustofnunar í Nebraska.

---

Fjórða júní 1873, kom til Milwaukee, Wis., Torfi Bjarnason, skólastjóri frá Ólafsdal í Dalasýslu.

Þá var í Milwaukee talsvert af Íslendingum. Torfi mun þá hafa haft í hyggju að stofna nýlendu í Bandaríkjunum. Hann dvaldi lítið í Milwaukee. Tveir af samferðamönnum hans settust að í Milwaukee. Það voru þeir Guðmundur Guðmundsson af Kjalarnesi og William W. Thomsen frá Vestmannaeyjum ; hafði hann áður verið búðarmaður *Brydes*-verzlunar, en er nú í *Utah*. Thomsen þessi kom til Nebraska, var þar nokkur ár, en tók ekki land. Um Guðmund er ókunnugt, samt halda menn, að hann muni nú vestur á Kyrrahafsströnd. Sjálfur fór Torfi með bróður sinn Lárus, sem þá var um tvítugs aldur, að mig minnir, til Nebraska. Þeir skoðuðu land meðfram Burlington og Missouri járnbrautinni ; átti sú braut þá mikið af landi, sem auglýst var til sölu með 10 ára borgunarfresti og þurfti ekki að borga nema rentur fyrstu fimm árin. Þá var heimilisréttar land alt upp tekið í austurhluta Nebraska, en nóg af því að fá vestarlega í ríkinu. Torfi mun hafa skoðað land vestarlega, þar sem land var að fá ókeypis, því Lárus sagði mér að þeir hefðu séð vísundahóp mikinn, en þá voru þeir flúnir úr Austur-Nebraska.

Ekki mun Torfa hafa litist á að setjast að í Vestur-Nebraska og var þar þó nóg af góðu landi 20—50 mílur frá járnbraut. Það mun honum hafa þótt of langt frá veru-

legum mannabygðum. Torfi festi síðan kaup í landi nálægt litlum bæ, sem Salt Hills heitir. Sá bær er 8 mílur suður frá Lincoln — sem er höfuðstaður ríkisins Nebraska,— en 50 mílur vestur frá fljótinu Missouri, sem er landamerkjalínan milli Iowa og Nebraska.

Torfi dvaldi það sem eftir var sumars, þar vestra; plægði 10—12 ekrur á landi sínu, og mun hann hafa verið sá fyrsti Íslendingur, sem byrjað hefir á landbúnaði í Nebraska.

Seint í september sama ár kom Torfi aftur til Milwaukee, þá á ferð heim til Íslands; og kom hann ekki aftur vestur um haf.

Meðan Torfi dvaldi í Milwaukee, kom talsvert af Íslendingum saman á fund, og spurðu þeir hann nákvæmlega að vestan. Hann lét vel yfir landkostum þar, en mun þó hafa ráðið frá að flytja í óbygðir, eða langt frá járnbraut.

Lárus Bjarnason varð eftir og vann á bóndabæ, ekki langt frá landi Torfa.

Veturinn 1873—4 var erfitt að fá vinnu fyrir þá, sem voru nýkomnir að heiman, eða úr skógunum í Austur-Canada, sem sumir höfðu vilst út í. Líka var þá peningaekla mikil. Þá var mikið talað um burtflutninga og landtöku.

Um vorið 1874 gengu nokkuð margir Íslendingar í félag, og var áform þess, að stofna nýlendu. Fyrir því félagi var Ólafur Ólafsson frá Espihóli í Eyjafirði, ættaður frá Fjöllum í Kelduhverfi. Sigfús Magnússon, Jónssonar prests frá Grenjaðarstöðum, var á fundi kosinn til að skoða land í Iowa og Nebraska, meðfram Burlington og Missouri járnbrautinni. Landi þessu hafði Torfi lýst áður. Sigfús skyldi kjósa mann með sér og kaus hann Jón Halldórsson frá Stóruvöllum í Bárðardal, ættaðan frá Mývatni.

Þeir félagar lögðu af stað frá Milwaukee 5. maí 1874. Skoðuðu þeir fyrst land í Iowa, en fundu þar ekki nóg af óteknu landi fyrir félaga sína, svo að þeir gætu verið nálægt hver öðrum. Í Nebraska fundu þeir nóg af góðu landi óteknu, sem járnbrautin (B. M.) bauð fyrir $3—12 ekruna — með sömu kjörum, sem eg gat um fyrri. — Önnur hver section af þessu landi var tekin upp af heimilisréttar mönnum, svo ekki var um al-íslenzka nýlendu að tala, enda var það ekki áform þessa félags, að nema land í óbygðum, heldur þar sem þeir þyrftu ekki að vera langt hver frá öðrum, en gætu þó lært mál og vinnu af nábúum sínum, og fengið vinnu meðan þeir væru að koma sér fyrir.

Þeir félagar, Sigfús og Jón, festu síðan kaup á löndum 20 mílur suður frá Lincoln, nálægt bæ sem Firth heitir; fengu vinnu hjá bændum og plægðu sínar 10 ekrurnar hvor á löndum sínum. Skrifuðu þeir félögum sínum í Milwaukee lýsing af plássinu, og voru margir þeirra alráðnir í að flytjast vestur næsta vor með fjölskyldur sínar. Ólafur Ólafsson var einn í þeirra tölu; hann var eini efnamaðurinn í hópnum. Þetta sumar gjörðu engisprettur mikinn skaða á maís, en skemdu ekki annað. Blöðin gjörðu mikið veður úr þessu, enda kom það hart niður á þeim, sem voru nýkomnir og höfðu litla bletti ræktaða; þeim eyddu þær alveg; en skildu hinum sem meira höfðu þó nokkuð eftir til að lifa á.

Þetta dró talsvert kjarkinn úr Milwaukee-mönnum; enda fekk Jón Ólafsson Ólaf, forsprakkan sjálfann, með sér til Alaska veturinn 1874—5. Sigfús Magnússon fór heim þann vetur, að sækja heitmey sína, og settist að heima, og kom ekki vestur aftur fyr en eftir 10 eða 12 ár. Þann vetur voru 3 Íslendingar í Nebraska og unnu tveir af þeim á járnbraut.

Sumarið 1875 kom Ó. Ólafsson frá Alaska, og var þá enn ráðinn í að flytja vestur til Nebraska, en meðan hann var að hvíla sig eftir ferðalagið, byrjaði flutningur til Winnipeg og Nýja Íslands ; og hélt Ólafur þá ráðlegast að ,,fylgjast með aðalstraumnum", og tóku margir Milwaukee-menn það ráð líka ; og vildu þeir fá þessa 3 sem komnir voru til Nebraska með í ,,strauminn", en tveir af þeim voru orðnir þreyttir á félagsskap landa sinna, sem oft var skammlífur á þeim dögum. Enda komu það sumar foreldrar þeirra bræðra, Halldórssona — og tveir bræður. — Þetta fólk hafði verið heilan vetur á innflytjendahúsi austur í Canada með fjölda fólks, sem flutti til Nýja Íslands, að mig minnir. Þetta sumar fekk Jón Halldórsson 80 bushela uppskeru af hveiti á löndum þeirra Sigfúsar Magnússonar; það var alt sem "hoppurnar" skildu honum eftir ; og er þessa getið af því, að það var sú fyrsta uppskera sem Íslendingar fengu í Nebraska.

Ekki tóku Íslendingar meira land um tíma, enda voru engisprettur við og við í 3 ár, og hræddi það fjölda marga burtu, sem voru búnir að búa vel um sig ; og var straumurinn austur á haustin nærri eins mikill og hann hafði verið á vorin vestur, og kvað svo ramt að, að sumir kváðu ,,goðgá" að tala frekar um landnám í Nebraska.

Torfi og Sigfús létu lönd sín ganga til baka til járnbrautarfélagsins, og sama gjörðu fjölda margir aðrir.

Þá mátti leigja lönd fyrir lítið sem ekkert, og það ræktuð lönd með góðum byggingum á. Þetta stóð samt ekki lengi, því oft fengu þeir, sem leigðu löndin, nóga uppskeru á einu ári til að borga fyrir þau.

Fyrsti Íslendingur sem gifti sig í Nebraska var Jón Halldórsson; gekk hann að eiga Þórvöru Sveinsdóttur frá Garði í Aðalreykjadal í Suður-Þingeyjarsýslu. Sú gifting fór fram 19. des. 1875. Sá fyrsti sem dó var Halldór

Jónsson. Það var 8. sept. 1876. Hann var faðir Jóns K. Halldórssonar, en stjúpi Jóns eldra Halldórssonar. Ekki fóru Íslendingar fyrir alvöru að kaupa land fyr en 1879. Þá keyptu land: Lárus Bjarnason — sem fyr er frá sagt — Jón K., Páll og Sigurður Halldórssynir. Lárus er enn — 1913 --- á landi sínu. Páll og Sigurður dóu úr taugaveiki sama árið. 1880 var alt land upp tekið í Austur-Nebraska, svo nú var útséð um Íslendinga bygð, að nokkurum mun þar; enda hækkaði land svo í verði, að engum datt í hug að það yrði nokkurn tíma hærra. Samt hefir það hækkað um rúma 100 dollara ekran síðan.

Bar nú ekkert til tíðinda fyrr en 1883, að Jón C. Halldórsson seldi land sitt fyrir $3,200. Þá voru nágrannar þessara fáu Íslendinga orðnir svo ríkir, að ekki var að hugsa til að verða nokkurn tíma jafningi þeirra, enda var enn nóg af „heimilisréttarlandi" að fá, 200 mílur vestar í Nebraska. Það land var að byggjast, og þar var tækifæri að keppa við menn, sem stóðu jafnt að vígi.

Vorið 1884 fluttust vestur til Brown County, Nebraska, Jón Kr. og Jón Halldórssynir, sem áður er um getið. Halldór Jónsson frá Múla í Rangárþingi, kona hans Ingibjörg Guðmundsdóttir frá Keldum úr sömu sýslu. Einnig komu frá Milwaukee, Guðmundur Haller Sigurðsson og kona hans Sessilja, frá Eyrarbakka. Þessir allir tóku land nálægt bæ sem Long Pine heitir. Einnig tók land Kristín Halldórsdóttir, systir þeirra bræðra Jóns og Jóns Kr., sem áður er um getið. Árið 1886 kom Sigfús Magnússon, sem fyrr er getið um, með konu sína Guðrúnu Emilíu Benediktsdóttur, Kristjánssonar, þá alþingismanns, og prests að Múla í Þingeyjarsýslu. Árið 1891 kom Ólafur Isfeld Hallgrímsson, Hólmkelssonar frá Hóli í Kelduhverfi í Þingeyjarsýslu; kona hans er Skúlína Skúladóttir, Sveinssonar, Jónssonar frá Garði í Aðaldal.

Líka kom það ár Sigurður Runólfsson frá Völlum í Holtamannahreppi, ættaður frá Hofi á Rangárvöllum. Kona hans er Guðrún Gunnarsdóttir frá Kiðafelli í Kjós.

Þessir allir tóku land. Síðan hafa tekið lönd 5---8 Íslendingar, sem fæddir eru hér, þar á meðal Albert, bróðir Torfa í Ólafsdal.

Halldóra systir mín er gift þýzkum manni, Wittstruck að nafni. Eru þau búsett 10 mílur frá Lincoln, Nebraska, og er hann stórbóndi og auðugur að fé. Hann nam þar land áður stjórnin gaf Union Pacific brautinni land, og hefir hann keypt land síðan. Þeir bræður, Lárus og Albert, Bjarnasynir, nefnast nú báðir Árnason að viðurnefni. Búa þeir báðir í austur-Nebraska enn og eiga báðir hérlendar konur. Keypti Albert þar land. --- Kristín systir mín á heima í bænum Long Pine, vestur í Brown County, Nebraska ; hafði hún makabýtti á jörð sinni og húsi og lóð í bænum. --- Jón Tómasson, Halldórsson, og Sigurður, bróðursynir mínir, eru þar og eiga hús og lóðir. Kristján bróðir þeirra á heima í bæ, er Cedron heitir, lengra vestur, og á þar hús og lóð. Þeir eru allir fæddir á Íslandi og mega því allir teljast með íslenzkum frumbyggjum Nebraska. Sigurður Runólfsson á heima skamt frá Long Pine. Hafa börn hans öll, Bjarni, Runólfur og Kristín, tekið heimilisréttarlönd og búa á þeim. Þau eru öll gift hérlendu fólki, en eru öll fædd á Íslandi og sjálfsagt að telja í hópi Íslendinga. --- G. S. Haller á heima í Rock County. Hann á sex börn, sem hér eru fædd. Hefir ekkert þeirra tekið land, en faðir þeirra mun eiga nóg lönd handa þeim öllum. --- Ólafur Ísfeld Hallgrímsson á 12 börn, sex pilta og sex stúlkur, öll fædd hér, og er gildur bóndi. --- Sveinn, elzti sonur minn, á heima í bænum Bassett í Rock County. Hefir hann þar járnvöruverzlan, á þar fagurt í-

búðarhús og margar bæjarlóðir. Þar eigum við líka báðir til samans gripabú --- r a n c h ---, 18 mílur frá Bassett. Sveinn er giftur hérlendri konu, á fjóra sonu, en því miður kann enginn þeirra orð í íslenzku. Eg á þrjá sonu aðra og eina dóttur, sem öll eru hjá mér hér í Chicago, þar sem við höfum átt heima síðan við fluttum frá Nebraska, og er dóttir mín bústýra hjá okkur. Heitir hún Soffía, en þeir Tómas og Páll, og leggja fyrir sig myndasmíði. Tómas hefir fundið upp lampa, sem við það er hafður, og fengið einkarétt (p a t e n t) á honum og selzt hann vel. Sá yngsti heitir Hrólfur (Ralph) og vinnur í búð. Á síðastliðnu hausti ferðaðist eg um Kanada, kom til Duluth og Winnipeg, með dóttur minni. Vorum að eins fjóra daga í Winnipeg. Heimsótti eg ekki nærri alla, sem eg vildi, því okkur fanst mikið til um kuldann þar nyrðra. Lengst dvöldumst við í grendinni við Wynyard, þar sem eg á bróður, Jón C. Halldórsson, og tengdabróður, Sigurjón Sveinsson.

Enn skal eg taka fram, að Halldór Jónsson frá Múla í Rangárþingi er búsettur í Lincoln, Nebraska, þar sem hann á reisulegt hús, og býr þar með systur sinni og dóttur. Helztu atriði æfi minnar, síðan eg fór frá Stóruvöllum í Bárðardal, langar mig til að rita seinna. En álít réttast að hafa það sér.

*Jón Halldórsson.*



# HLEKKUR Í SÖGU VORA.

„Klettafjalla-örninn" mælti: — „Það var fæddur krakki í koti, kúrði sig í vögguskoti, bláeygur með bros á munni, businn efni manns, gestur sem að enginn unni utan mamma hans". — Í kotbæ — að Sleðbrjótsseli í Jökulsárhlíð, þar sem hin straumþunga Jökulsá niðar fram, sprottin upp undan jökulrótum í miðbiki Islands — fæddist lítill drengur árið 1872, 17. dag ágústmánaðar. Þar í fátækum móður örmum ólst hann upp til 4 ára aldurs; þá fluttust þau vestur um haf til Ameríku og settust að hér í Minnesota í nágrenni við bæinn Minneota; innan skamms tíma keyptu þau sér lítið hús hér í Minneota; með elju og dugnaði framfleytti móðirin sér og drengnum. — Drengurinn var hæglátur



*Gunnar B. Björnsson*

og fáskiftinn — með dökk dreymandi augu, fáir veittu honum eftirtekt — hann var fátækur — en „fáir eru vinir þess snauða". — Tímarnir liðu hægt og jafnt, drengurinn óx og þroskaðist, kollinum fór að smá skjóta upp yfir ládeyðuborð almennings og nú er svo komið, að hann stendur all-hátt í menningarstiganum; — frjóanganum, sem nötrar og skelfur í kuldanepju lífsins sinna fáir, en blómknappinn útsprungna dá margir! — Og móðurinni hefir veizt sú ánægja að sjá óskirnar uppfyllast, — drengurinn hennar er orðinn að manni! — Fyrir ástundun, iðni og ráðvendni er hann sá fyrsti Minnesota Islendingur er sæti skipar á stjórnarbekkjum Minnesota-kapitolium, og þangað komst hann mótsóknarlaust, og hér sérðu myndina af honum.

Hann er nefndur Gunnar, er Björnsson, Bjarnasonar, sá Björn var einn af ættliðum þeirra skáldanna Páls og Jóns Ólafssona. — Móðir Gunnars heitir Kristín og er Benjamínsdóttir úr Þistilfirði og Eyjafirði, dugnaðar kona og orðhög með afbrigðum — svo að honum stendur orðgnótta kyn á báðar hliðar, enda er hann oft all-vel snjallmæltur í ræðu og riti. — Í 15 ár hefir hann verið ritstjóri „Minneota Mascot", blað hans er nú talið að vera eitt af beztu og áhrifamestu vikublöðum ríkisins. — Gunnar er maður í hærra lagi, allvel ásigkominn að vexti, svartur á hár, drengilegur á svip, ennið hátt og hvelft, augun blágrá og er sem þau skjóti frá sér gletnisglömpum, félagsmaður góður, samvinnuþýður, er metinn hrókur alls fagnaðar í samkvæmum, orðhvass og fyndinn.

Hann er giftur Ingibjörgu Ágústu Jónsdóttur, Jónssonar, Sveinbjarnarsonar frá Hóli í Hörðdal; börn eiga þau 4, þrjá drengi og eina dóttur, nöfn þeirra eru: Eðvard Hjálmar, Kristján Valdimar, Gunnar Björn og Helga Sigríður.

Skólaganga: A hina svo nefndu æðri skóla hefir hann ekki gengið, að eins í gegnum hinn lögboðna skóla hér í Minneota, enn fremur eitt tímabil á verzlunarskóla; hann hefir þroskast vel á mentaveginum, svo tvímælalaust má hann mentaðan mann kalla.

Verkahringur hans á fullorðins árum hefir verið, auk ritst., póststjórn hér í Minneota í 11 ár, í bæjarstjórn hefir hann setið og í stjórn ýmsra félaga, s. s. forseti kirkjusafnaðar og formaður frímúrara-deildarinnar þar o. s. frv.

Hér set eg takmörk á leið minni lesari góður, mátt ekki búast við því frá mér að þessu sinni að eg þylji þér fullmælta sögu, — einkis mans sögu er unt að skrifa fyr en *brá* hins umrædda er *brostin* og þess mun langt að bíða í þessu tilfelli, því að ráða af núverandi líkum er sú von skír, að G. B. muni enn þá stíga mörg glögg og djúp sögu-spor á söndum tímans, er verða munu samtengingar-hlekkur á ókomnum dögum milli hins íslenzka og ameríkanska þjóðernis. — Eg hef aðeins sýnt þér segulhjálm hugsana; ef þú gætir, eða þegar þú getur lesið söguatriði gleði og sorgar, er und hjálmshvelinu eru skráð, fær þú fulla þekkingu á þeim þrekraumum er hinn framgjarni, fátæki unglingur hlýtur að þola! — Um G. B. má segja, sem um Einar: ,,Ekki var hann ríkur maður, en hann var drengur góður.

*S. M. S. Askdal.*





# JÓSEF JÓSEFSSON.

Það er vel gert af útgefanda árbókar þessarrar, að halda á lofti minningu þeirra manna, sem merkir eru í sögu Íslendinga í Vesturheimi. Meðal þeirra má óhætt telja Jósef Jósefsson, er dó að heimili sínu í Minneota, Minn. 18. apríl 1913.

Jósef Jósefsson var fæddur á Haugstöðum í Vopnafirði 14. júlí 1835. Faðir hans var Jósef Arngrímsson, Eymundssonar, og höfðu þeir feðgar búið hver eftir annan á Haugsstöðum; en móðir hans var Sigríður Vigfúsdóttir frá Ljótsstöðum í Vopnafirði. Jósef tók við búi á Haugstöðum eftir föður sinn og kvæntist Kristínu Pétursdóttur frá Hákonarstöðum og bjuggu þau rausnarbúi. Þau hjón eignuðust sjö börn, sem eru öll dáin, flest í æsku. Þrjár dætur lifðu það að flytja



með föður sínum til Vesturheims. Ein þeirra andaðist stuttu eftir að vestur var komið, en tvær náðu fullorðins aldri og fengu beztu mentun á skólum þessa lands. Hin eldri þeirra, Sigríður að nafni, dó í Minnesóta 22. jan. 1899, 38 ára gömul. Hafði hún verið kennari mörg ár og áunnið sér almenna hylli. Yngri systirin þessara tveggja giftist Sveini Björnsyni frá Selstöðum, sem nú er málaflutningsmaður í Seattle og dó hún þar vestra fyrir nokkurum árum, ágætis kona.

Konu sína, Kristínu Pétursdóttur, misti Jósef árið 1870. Brá hann þá búi á Haugstöðum og seldi jörðina Birni Gíslasyni, sem áður bjó á Grímsstöðum á Fjöllum. Fór Jósef eftir þetta til útlanda og var síðan ekki langdvölum á Íslandi, þó hann við og við vitjaði landsins og væri um hríð á Ísafirði. Var Jósef hin næstu ár oftast í Danmörku, en stundum í Noregi. Lagði hann þá stund á margskonar verkfræði og varð hinn mesti þjóðhagi. Á þessum árum komst Jósef yfir mikinn og haldgóðan fróðleik. Hann var mjög hneigður að öllum fögrum listum og átti hann kost á að njóta þeirra í Kaupmannahöfn. Náinn kunningsskapur var milli hans og ýmsra merkismanna bæði danskra og íslenzkra. Hélzt kunningsskapur hans og sumra þeirra manna alla æfi, einkum var honum vel til þeirra Ólafs Halldórssonar, skrifstofustjóra, og Tryggva Gunnarssonar.

Árið 1878 fluttist Jósef vestur um haf. Þrem árum fyrr höfðu Íslendingar stofnað nýlendu í Lyon county í Minnesota. Þangað hélt Jósef og eignaðist land all-mikið fimm mílur fyrir norðan þorpið Minneota. Reisti hann þar bú rausnarlegt og kallaði á Framnesi. Hann mun hafa átt nokkur efni er hann kom og margfölduðust þau fljótt. Með jarðakaupum færði hann út landeign sína og umgirti hana skógi, er hann gróðursetti. Var heimilið hið prýði-

legasta og sannarlegt höfðingjasetur, enda varð Jósef auðugur maður. Tveim árum eftir að hann kom vestur kvæntist Jósef í annað sinn og gekk að eiga Helgu Jónsdóttur, Þorvarðssonar úr Papey og Rósu konu hans, ágæta konu og mikilhæfa. Þau hjón eignuðust fjögur börn ; dóu tvö þeirra í æsku, en tvö eru á lífi, tvíburar, Victor og Elvíra ; eru þau nú fulltíða, mentuð og mannvænleg, og halda þau búinu áfram á Framnesi ásamt móður sinni.

Auk búskaparins var Jósef mörg ár riðinn við verzlunarstörf. Ásamt nokkurum öðrum Íslendingum gekst hann fyrir því árið 1886 að stofna hlutafélag, er nefnt var „Verzlunarfélag Íslendinga", og var hann formaður félagsins. Félagið rak verzlun í Minneota í tíu ár, og var hún um það leyti stærsta verzlunin í bænum og því nágrenni. Arið 1896 hætti félagið og keypti þá Jósef Jósefsson ásamt öðrum manni verzlunarhúsin. Árið 1906 reisti Jósef sér dýrt og mikið íbúðarhús í Minneota og bjuggu þau hjón þar hin síðustu ár. Sumarið 1907 ferðaðist Jósef til Íslands og Danmerkur, og þótt honum einkum skemtilegt að koma á sínar fornu stöðvar í Kaupmannahöfn. Eftir heimkomu úr ferð þeirri lagði Jósef niður störf sín og sat í ró og næði á hinu fagra heimili sínu við lestur og skriftir. Hann var ern og fullur lífsfjöri fram á síðasta missiri æfi sinnar, þótt kominn væri hann hátt á áttræðisaldur.

Jósef Jósefsson var mörgum þeim gáfum gæddur, er höfðingja mega prýða. Hann var skarpskygn maður og óvenjulega frumlegur í hugsunum. Stórlyndur var hann og óvæginn ef því var að skifta, en drengur var hann svo góður, að hann engum manni vildi misbjóða. Vinum sínum var hann ástríkið sjálft og manna trygglyndastur. Honum var jafnan yndi að sitja hjá kunningjum sínum og ræða alvarleg mál. Stjórnmál, bæði íslenzk og amerísk, lét hann

sig miklu varða. Enginn var hann flokksmaður í þeim efnum, en hafði næmt auga fyrir misbrestum öllum. Stjórnmálamönnum á Íslandi virtist honum lítt sýnt um verklegar framkvæmdír og þótti þar illa farið með almanna-fé. Margt fann hann og að stjórnarfari þessa lands, einkum skattheimtunni. Jósef var sérlega hneigður til heimspekilegra hugleiðinga og las mikið um þau efni. Síðustu mánuðina, sem hann lifði og eftir að hann var orðinn veikur af sjúkdómi þeim, er dró hann til bana, var hann að lesa heimspekisrit Kants. Í handriti liggja eftir Jósef afarmiklar ritgerðir, er hann samdi á síðustu æfiárum sínum. Í aðal-ritgerðinni lýsir hann skoðunum sínum á alheims-tilverunni og leitast við að gera grein fyrir upphafi og lögmáli náttúrunnar. Hann var efnishyggjumaður og fylgdi fastlega þrengsta skilningi efnishyggju-kenninganna frá miðri síðustu öld, en hafði lítt komist undir áhrif hinnar yngri stefnu heimspekinnar, er fremur leitar að úrlausn lífsgátunnar á svæði andans en efnisins. Í ritgerðum þessum eru margar hugsanir frábærlega frumlegar, en þær bera eðlilega vott um nokkurn skort á vísindalegri sérmentun. Af fögrum skáldskap hafði Jósef mestu nautn og var sérlega smekkvís í þeim efnum. Mikið af ljóðum kunni hann utan bókar. Vænst þótti honum um Kristján Jónsson, enda höfðu þeir verið kunningjar á yngri árum Jósefs. Af yngri skáldum þótti honum mest varið í Hannes Hafstein, elskaði þrótt hans og þrek. Þá hafði Jósef ekki síður yndi af sönglistinni. Hann komst allur á loft ef hann heyrði fagran söng. Sjálfur var hann söngmaður og er viðbrugðið hve fagra og mikla söngrödd hann hafi haft á yngri árum. Sjaldan fekst hann til að syngja fyrir aðra á síðari árum, og er kunningjar hans leituðu á hann með það, var hann vanur að svara með vísu Bjarna: ,,Ungur þótti eg með söng, o. s. frv.'' Það voru sæludagar fyrir Jósef,

dagarnir, sem próf. Sv. Sveinbjörnsson dvaldi í Minneota. Þeir voru kunnugir frá fornu fari og fanst Jósef ekkert jafnast við sönglist Sveinbjörnssons. Ekki var Jósef trúmaður í venjulegum skilningi, seinni part æfi sinnar að minsta kosti. Ekki er þeim, sem þetta ritar, kunnug tildrög þess að Jósef varð fráhverfur trúarbrögðunum, en það veit hann, að í þeim efnum sem öðrum var Jósef hreinskilinn og einlægur. Aldrei leitaði hann á trúarskoðanir annara, og lotningu bar hann fyrir alvöru trúarinnar hjá öðrum mönnum, en alla hræsni og hálfleik allan í trúarefnum fjáði hann af öllu hjarta. Hann var svo mikið prúðmenni, að aldrei myndi hann særa trúartilfinning vina sinna.

Jósef var hár maður vexti og hinn karlmannlegasti, bar sig allra manna bezt og lýsti allur framgangsmáti því, að hann hafði sniðið sig að háttum heldri manna. Svipurinn var mikilúðugur, en þó blíður, enda bar hann ávalt barnslegt hjarta í brjósti. Með Jósef Jósefssyni er hniginn til moldar sannur höfðingi og verulegt mikilmenni.

B. B. J.



# SIGFÚS MAGNÚSSON.

Í Duluth-borg í Minnesota hafa Íslendingar átt heima síðan snemma á tímum að vesturflutningar hófust frá Íslandi, og um eitt skeið var þar all-margt þeirra, en nú síðari árin hefir þeim fækkað mjög. Hér áður fyrr var Duluth lendingarstaður innflytjenda til Norðvesturlandsins, þegar komið var að austan eftir Superior-vatninu. Engin járnbraut var þá lögð inn í Manitoba og Norðvesturlandið og var þá oftast farið vatnaleiðina frá Owen Sound í Ontario til Duluth og þaðan á járnbraut til Fisher's Landing i Minnesota, og þar stigið á skip, sem gengu eftir Rauðará til Winnipeg. Þá leið fór „stóri hópurinn“ svo kallaði 1876, sem það ár kom frá Íslandi og hélt til Nýja Íslands. Og mun frá því ári mega telja búsetu Íslendinga í Duluth. Almanakið mun síðar segja gjör frá Íslendingum þar og því verður eigi farið lengra út í það að þessu sinni.

Í Duluth á heima einn af elztu og merkari vesturförum frá Íslandi, Sigfús Magnússon frá Grenjaðarstað í Þingeyjarsýslu. Þar eð Almanakið flytur að þessu sinni sögu íslenzku nýlendunnar í Nebraska, þótti tilhlýðilegt að Sigfúsar Magnússonar væri meira getið en þar er gert, því hann var sá, er Milwaukee-Íslendingar sendu til að velja þeim þar nýlendu-svæði í byrjun. Síðar, er hann kom aftur frá Íslandi, nam hann þar land og bjó þar til þess er hann fluttist til Duluth 1892. Fór því útgefandi almanaksins þess á leit við Sigfús, að hann sendi sér helztu æfiatriði sín, og varð hann fúslega við þeirri bón; birtum vér þau hér á eftir orðrétt frá hans hendi, og efumst eigi um að mörgum verði ánægja að lesa þá æfisögu — auk þess sem hún er mikilsverð viðbót við sögu Vestur-Íslendinga.

Sigfús Magnússon var giftur Guðrúnu Emilíu Benediktsdótt-

ur frá Múla — alkunnri gáfu og myndarkonu — en varð að sjá henni á bak síðastliðinn vetur. Var hún stödd vestur á Kyrrahafsströnd, sér til heilsubótar, hjá dóttur og tengdasyni, er dauðann bar að. Gerði hún þá ráðstöfun fyrir jarðarför sinni, sem ó-



*Sigfús Magnússon og kona hans*

vanaleg er með Íslendingum, að lík hennar yrði brent. Var þeirri ráðstöfun fylgt og líkið brent við líkbrenslustofnan eina í bænum Tacoma í Washington. Höfðu þau búið í Duluth um 20 ár, heimili þeirra þar verið fyrirmynd og þau virt og elskuð af Ísl. þar í borginni.

Sigfús er mesta ljúfmenni í allri framkomu og göfugmenni hið mesta í sjón og reynd. Hann er nú nær sjötugur að aldri, en þó ern og fjörugur og fylgist vel með því sem er að gerast bæði hér í landi og heima á Íslandi, því hann les mikið. Hann ann fósturjörð sinni af alhug og sárnar, þegar eitthvað fer þar öðruvísi en vel.

EG er fæddur á Garði í Kelduhverfi í Norður-Þingeyjarsýslu 19. marz 1845. Foreldrar mínir voru síra Magnús Jónsson, Jónssonar prests að Grenjaðar stað, sem eitt skifti var Konrektor á Hólum, líklega um 1700 eða fyrr. Móðir mín var Þórvör Skúladóttir frá Múla í Aðalreykjadal, Tómassonar prests, og Þórvarar Sigfúsdóttur prests í Höfða.

Eg ólst upp í Garði hjá foreldrum mínum, þar til 7 ára að aldri, þá fluttust þau austur að Ási í Fellum í Norður-Múlasýslu og dvöldu þar tvö ár, en árið 1855 fluttust foreldrar mínir norður að Grenjaðarstað, því þá gjörðist faðir minn aðstoðarprestur hjá föður sínum, síra Jóni, sem áður er nefndur. Hinn fyrsta vetur á Grenjaðarstað 1855—6[1], vorum við 3 bræðurnir sendir út á Húsavík, til þess að njóta tilsagnar í skrift og reikningi, hjá húskennara Jakobs Johnsens. Kennari okkar var Bjarni Gunnarsson, sem ritaði hina snotrustu hönd, er til var á Islandi í þá daga. Undir próf þurfti eg að ganga hjá Johnsen gamla með því að skrifa nafnið mitt, og fekk þann vitnisburð, að eg skrifaði meðal hreppstjórahönd, sem víst hefir ekki verið burðug í þá daga, og var eg þá á 10. ári. Um veturinn dvaldi eg og elzti bróðir minn, Björn, hjá Sigfúsi sýslumanni Schulesen, móðurbróður mínum, en Jón Skúli hafði aðsetur hjá Johnsen og föðursystur minni, Hildi. Næsta vetur eftir fekk faðir minn fyrir heimiliskennara síra Benedikt Kristjánsson aðstoðarprest í Múla, (sem síðar varð tengdafaðir minn), til þess að kenna mér og okkur bræðrum skrift, reikning og dönsku. Þegar síra Benedikt fór frá Múla, kom í hans stað síra Magnús Jónsson, síðast prestur í Laufási, og bættust þá fleiri námsgreinar við,

1) Þetta haust, eða snemma um veturinn, brann að kalla allur bærinn að Múla, og fluttist þá mikið af heimilisfólkinu ofan að Grenjaðarstað, þar á meðal amma mín, Þórvör Sigfúsdóttir; var hún þá búin að liggja í kör nokkur ár, og man eg að hún var borin í brekánum ofan að Grenjaðarstað.

svo sem réttritun, landafræði, danska, enska og þýzka, þótti þetta mikið, eftir því sem þá gerðist, og kom mér að góðu gagni síðar meir. En eitt virtist mér þó vanta, sem mér síðar varð ljóst, en það er að benda unglingum á einhvern vissan atvinnuveg, helzt þann sem hann kýs sér sjálfur, ef vit er í, svo hann síðar geti haldið að einhverju vissu takmarki. En á Íslandi er þó ekki um margt að kjósa, og þess vegna vilja víst allir komast á landssjóð, sem engum er í sjálfu sér láandi, því fátt annað er lífvænlegt. Þó hefir nú þetta mikið breyzt til hins betra, síðan eg fór af Íslandi.

Samkvæmt því sem áður er skýrt frá, hafði eg nú í uppeldinu fengið nokkurn forða og gott nesti, til þess að byrja ferðina út í lífið, og eftir þetta liðu unglingsárin og eg vandist flestri sveitavinnu, stundum í góðum félagsskap og stundum líka í hinum lakari, eins og geta má nærri, þar sem oftast voru í heimili um 20 manns á Grenjaðarstað í þá daga. Eg var bráðþroska og fullvaxinn hér um bil 18 ára gamall. Glímur og fleiri aflraunir voru þá tíðar í sveitunum, ásamt sundkenslu.

Á þessum árum, eða 1865 og þar eftir, var farið að hreyfa útflutningum frá Íslandi, og var eg einn sem snortinn varð af utanfarar fýsn. Einar Ásmundsson í Nesi var hinn fyrsti maður, sem hreyfði þessu; útvegaði hann sér ýms rit og landalýsingar, bæði á dönsku og þýzku; gekk þetta milli manna í sveitunum, sem gátu notið þess, og svo sögðu þeir sem þetta lásu hinum, því allir gjörðust nú forvitnir um þessa nýlundu. Dreyfðist þetta ótrúlega fljótt út um Þingeyjar- og Eyjafjarðar-sýslur. Fyrst hafði þó verið minst á Grænland svo Brasilíu og síðast Kanada og Bandaríkin. Mig fýsti þá að leita gæfunnar í útlöndum, og óáran og misindisstjórn hertu á útfararlönguninni. Jón Ólafsson var þá meðal annars að gefa út

,,Baldur" og margt fleira mætti telja. Utanferð mín drógst þó ein tvö ár fyrir sérstakar ástæður, en loksins varð þó af því 1873, að eg lagði af stað frá Íslandi ásamt 9 öðrum og var ferðinni heitið til Bandaríkjanna. Ekki var kostur á öðru en seglskipum til þess að komast frá norðurlandinu, tók eg mér því fari með verzlunarskipi Örum & Wulfs frá Húsavík. Var það gamalt skip, sem nefndist Hjálmar. Skipstjóri var Sivert, alþekt sjóhetja og vanur Íslandsferðum; hafði verið í förum í mörg ár. Hjálmar átti að fara til Noregs og urðum við að hlíta því. Skipið lét í haf 1. eða 2. júní á hvítasunnudag, að mig minnir, því til Bergen komum við 12. s. m., en fyrsti lendingarstaður var þó Christianssand, þar sem við höfðum dvalið fáa daga. Höfðum bezta leiði og skamma útivist. Vindur stóð af landi þegar við létum í haf frá Húsavík og lá moldviðrismökkur yfir Sléttunni og Langanesinu; var það hið síðasta, sem eg sá af landinu í það skifti. Fjallasýn var engin fyrir rykmekkinum. Í Bergen skiftum við peningum og fleira. Gufuskipið, sem við fórum með, tilheyrði norsku félagi, enda voru á skipinu 5 eða 6 hundruð Norðmenn, alt útflytjendur til Bandaríkjanna. Á Atlantshafi vorum við 14 daga og lentum í New York 26. júní. Inn á höfnina komum við um hánótt, og vöknuðu þá margir þegar er skipið lagðist; gat eg þá séð lengd borgarinnar strandlengis, sem öll var sett rafmagnsljósum. Næsta morgun fórum við inn á Castle Garden, keyptum þar farbréf og lögðum af stað degi síðar vestur í þetta stóra land, ókunnugir með öllu bæði stöðum og landsháttum. Hraðfrétt hafði eg þó sent Jónasi Jónssyni, sem nú er í Winnipeg, og ætlaðist til að hann mætti okkur á vagnstöðvunum í Milwaukee. Hraðfrétt þessi barst Jónasi daginn eftir að við komum þangað.

Þegar er lestin var að renna inn á vagnstöðvarnar í Chicago, þyrptust að lestinni hópar af skríl með ópi

og óhljóðum, og var eg ekki sérlega hrifinn af þeirri kveðju; gefur það manni dálitla hugmynd um alt það mannfélags sorp, sem lifir í Chicago, og það jafnvel enn þann dag í dag. Til Milwaukee kom eg 4. júlí og leizt mér ekki vel á skothríðina, heyrði þó bráðum hvernig á henni stóð; náði þó með heilu og höldnu í gistihús þar sem eg mætti þegar nokkrum löndum, er flestir höfðu komið til bæjarins árið áður. Eftir að hafa hvílt mig fáa daga, réðst eg í vinnu hjá írskum bónda; eitthvað vann eg þó áður í húsbúnaðar verksmiðju, og um haustið réðst eg hjá öðrum bónda til vistar yfir veturinn, en um vorið 1874 hvarf eg aftur til Milwaukee, sem um þá daga var eins og heimili mitt, af því að þar héldu til nokkrir Íslendingar, eins og áður er sagt.

Nokkru eftir að eg kom til Milwaukee, um sumarið, var farið að tala um landaleitir, því flestir landar vildu verða óðalsbændur, ef þess væri kostur; var því skotið á fundi til að ræða landtökumál. Meðal annarra voru á þeim fundi : síra Páll heitinn Þorláksson, Jón Halldórsson frá Stóruvöllum, Arni Sigvaldason, Ólafur Ólafsson frá Espihóli, Sigurður Kristopherson o. fl. Var á þessum fundi áfráðið að eg færi, ásamt öðrum manni, að grenslast eftir landnámi fyrir Íslendinga. Ferðaðist eg þá yfir ríkin Iowa og Nebraska, og gat eg stansað hvar sem vera vildi. Þessi ferð varð þó að mestu árangurslaus, því alt land var upp tekið í þessum ríkjum, nema járnbrautarlönd. Samferðamaður minn, Jón Halldórsson, og eg, festum þó kaup á landi sem við síðar sleptum.

Þetta sumar vann eg hjá bændum við uppskeru, og þótti mér sú vinna erfið. Um haustið, 16. október, lagði eg af stað heim til Íslands. Fór eg þá um Quebec og þaðan til Skotlands; þurfti að bíða á aðra viku í Leith eftir póstskipinu, sem fara átti til Reykjavíkur. Í Reykjavík beið eg þangað til norðanpóstur

lagði af stað, 3. desember 1874, og náði eg alla leið heim rétt fyrir jólin; var eg þá búinn að vera burtu hér um bil 1 ár og 7 mánuði. Af þeim tíma hafði eg dvalið 15 mánuði í Bandaríkjunum, en hitt af tímanum gekk til ferðarinnar fram og aftur.

Í þetta skifti var þó dvölin á Grenjaðarstað ekki langvinn, en í sambandi við hana skal eg þó geta þess, að það var eitt af verkum mínum heima að vefa. Var þar sem víða annarstaðar í Þingeyjarsýslu vönduð mjög öll dúkagjörð, og vakti það mig til að þýða stutta, danska Litunarbók, kom hún út á Akureyri árið 1877 og hafði hún þá verið notuð nokkur ár af Ingibjörgu systur minni.

Sumarið 1876, þann 29. júlí, gekk eg að eiga jungfrú Guðrúnu E. Benediktsdóttur frá Múla, og hið sama sumar fluttist eg að Múla og tók næsta ár við búi tengdaföður míns. Bjó eg þar þangað til árið 1882; þá fluttist eg ásamt konu og þremur börnum austur á Seyðisfjörð. Til þess að komast þangað þurfti eg að bíða fram undir haust á Akureyri, því hafísinn fylti þá alla firði og þokur voru á hverjum degi í heilan mánuð eða meir. Bjargarskortur var þá víða og fleiri ókostir, sem fylgja reglulegri óáran eins og þá átti sér stað.

Eftir rúmra fjögra ára dvöl á Seyðisfirði, réð eg af um veturinn 1886 að flytjast í annað sinn til Ameríku, og hafði eg þá komist í samband við Anchorlínufélagið, með því að útvega félaginu nokkra vesturfara, svo samferðamenn mínir urðu um 40 manns. Sameinaða fjelagið flutti hópinn til Skotlands og Laura lagði af stað frá Seyðisfirði 12. júlí og hélt til Granton, en þaðan fórum við til Glasgow og biðum þar eina 5 daga; kom öllum sú dvöl vel eftir sjóferðina frá Íslandi. Frá Glasgow fórum við um 20. júlí til Liverpool og svo þaðan beint til New York. Þar skildist nú að ferðamannahópurinn, því allir sam-

ferðamenn mínir fóru þaðan til Kanada, en eg hélt áfram vestur eftir Bandaríkjunum. Til Long Pine í Nebraska komum við loks 6. ágúst, eftir næstum mánaðar mjög svo þreytandi ferð. Í Long Pine (mjög lítið þorp) hitti eg strax fornvin minn og leikbróður, Jón Halldórsson, því eg hafði ákveðið, áður en eg fór af Íslandi, að setjast að nálægt honum og öðru fólki, er eg þekti þar. Um landgæði vissi eg lítið eða ekki neitt. Fyrsta veturinn dvaldi eg hjá Jóni Kristjáni, hálfbróður Jóns, sem áður er nefndur. Þegar um haustið tók eg út rétt á 160 ekrum af stjórnarlandi, og öðrum 160 ekrum, sem eg fekk með þeim skilmálum að planta á því 10 ekrur af trjám. Í sama mund tók eg líka mitt fyrsta borgarabréf.

Um vorið 1887 fluttist eg á landið, eftir að eg hafði bygt á því hús úr hnausum; var það skjólgott og ekki mjög heitt á sumrum. Í þessum moldarkofa lifði eg svo í 5 ár, gjörði allar þær umbætur á löndunum, sem lögin kröfðu, en af því að jarðvegur var ekki góður, hæðóttur og sendinn og langt var fyrir börnin í skóla, sem líka var léleg kensla í, sá eg að þetta gat ekki orðið mitt framtíðar heimili, svo eg afréð að flytja til Minnesota, með því eg var líka þá búinn að fá fullan rétt á löndunum og gat farið hvert sem eg vildi. Eftir að hafa spurt mig fyrir hjá manni, sem eg þá ekki þekti, Leifi Hrútfjörð að Baldur Manitoba, réð eg af að flytja til Duluth, þar sem eg hefi lifað síðan, og kom eg þangað seint í apríl 1892. Börnin 3 byrjuðu nú strax fyrsta haustið að ganga á alþýðuskólann og svo á lýðháskólann (High school) í 4 ár. Þau luku námi í þessum skólum og eitt þeirra í ríkisháskólanum.

Í endalok vertíðar eru nú börnin mín orðin 5, 4 stúlkur og 1 drengur (ekkert dáið), og þau tvö sem bættust við í þessu landi, hafa nú lokið sama námi og hin; þó er nú það yngsta enn í lýðháskólanum hér í

bænum. Ein af dætrunum og svo drengurinn, eins og áður er sagt, hafa tekið próf frá ríkisháskóla. Tvær stúlkur kenna hér í alþýðuskóla í bænum, en sonur minn vinnur í bókhlöðu í Washington D. C.. Ein dóttir mín er gift Baldri Benediktssyni og búa vestur á Kyrrahafsströnd; hafði hún áður verið kennari í nokkur ár.

Í þessum fáu síðustu línum er nú uppskeran talin, eftir alt stritið, og er ekki mitt að dæma um það, hvernig hún hefir orðið, en svo mikið er víst, að eg hefi aldrei iðrast eftir að hafa fluzt til þessa lands, og efast mjög um, að árangurinn hefði orðið meiri á mínu kæra föðurlandi, Íslandi.

Til verðugrar minningar um konu mína, sem dó síðastliðinn vetur, skal þess getið, að hún átti mestan þátt í uppeldi barnanna. Sjálf hafði hún haft allgott uppeldi í föðurgarði bæði til munns og handa, og á iðnaðarsýningu, sem stóð yfir í Reykjavík árið 1883, hlaut hún verðlaunapening fyrir útsaum, er þar var sýndur.

Ritað í októbermánuði 1913.

*Sigfús Magnússon.*



# REGNIÐ KOM.

(Saga vestan af sléttunum).

(Eftir David Lyall. — Þýdd af Eg. Erl.)

Ledward vaknaði í dögunina og læddist hljóðlega eftir gólfinu, sem var dúklaust, til þess að vekja ekki konuna sína.

Hann dró gluggaskýluna til hliðar og leit áhyggjufullur út á skrælnaða akrana. Þá varð honum litið til himinsins, sem að vísu var heiður og blár, en virtist honum ógnandi; þangað höfðu ótal augu mænt síðasta mánuðinn, en alt af jafn-árangurslaust; ekkert merki sást þess, að þurkurinn mundi taka enda.

Ef regnið kom ekki mjög bráðlega, þá vissi hann það, að vinna sín og mörg hundruð annarra manna, varð algerlega einskis verð það árið. Dögunin í þessum strjálbygðu héruðum er undur dásamleg. Ekkert er betur fallið til að vekja lotnigu hjá hverjum óspiltum manni, sem ekki hefir alveg gleymt að dýrka guð sinn. Ledward hafði ekki gleymt því, þó oft væri trú hans og traust að þrotum komið, eftir að hann kom vestur á slétturnar. Sjaldan hafði reynt á staðfestu hans jafn-mikið, og nú af því að það var sunnudagsmorgunn, fanst honum hann þurfa að heilsa deginum með því að nálgast hinn alvalda í innilegri bæn.

Hann fór hljóðlega í fötin. Áður en hann læddist út, varð honum litið á andlit konu sinnar; hún svaf vært. Hann tók eftir fölleikanum og þreytufell-

ingunum, sem eru órækur vottur um ofreynslu. Sléttulífið er þreytandi fyrir konur. Edith Ledward leit út eins og þreytt barn. Hún hafði lagt útitekna hendina undir vangann; Ledward mundi að sú hönd var áður hvít og mjúk. Edith var enn þá ung, ekki nema þrjátíu og fimm ára, en hún hafði elzt mikið sjö síðustu árin. Ledward varð þungt í skapi, og á leiðinni niður stigann spurði hann sjálfan sig, eins og hann hafði oft gert áður, hvort nokkur maður hefði rétt til að bjóða þeirri konu sem hann elskaði að lifa því lífi, sem kona hans hefði orðið að gera. Þau virtust vera glöð og ánægð eins og börn, sem vilst hafa út á eyðimörk, en kæra sig ekkert um það á meðan þau að eins fá að vera saman. Edith var þó svo indæl, að hún hefði átt betra skilið.

Litla, gula húsið stóð í útjöðrunum á breiðri flöt, sem einu sinni hafði verið græn og mjúk og nágrannarnir höfðu öfundað hann af. Nú var flötin brún og skrælnuð eins og heitu járni hefði verið strokið yfir hana. En Ledward skeytti því engu. Þau gátu lifað án flatarinnar, en áttu líf sitt undir hveitinu.

Hann gekk frá húsinu, niður brekkuna, yfir götuslóðann, hallaði sér fram á girðinguna og horfði yfir hveitiakurinn, sem var fimtíu ekra stór. Hveitið hafði komið upp ljómandi vel. Það hafði vaxið dagvöxtum fram í júnímánuð og Ledward hafði daglega lofað hinn örláta gjafara. Fáir eru mjög trúræknir vestur á sléttunum. En þegar Ledward leit yfir skrælnaða akrana og fann fyrstu verkanir hinnar upprennandi morgunsólar, var hann eitt andartak í efa um hvort hann mundi standast raunina eða yrði að gefast upp, eins og Job, hallmæla guði og deyja. Ef uppskeran brygðist, þá vissi hann að vesalings Edith hans mundi ekki geta heimsótt foreldra hennar, eins og hann hafði þó lofað henni; jörðina yrði hann að veðsetja og framtíðin var eyðilögð.

Ekkert útlit var fyrir að veðrið mundi breytast í bráð. Innan fárra stundarfjórðunga mundi hitinn verða svo óþolandi, að allar lifandi verur yrðu að leita sér fylgsnis. Þetta var eini tíminn, sem komandi var út. Eftir nokkra baráttu við sjálfan sig, ásetti hann sér að nota stundina til að lyfta huganum til hæða. Hann kraup á kné niður á heita jörðina, studdist við einn girðingarstólpann og úthelti hjarta sínu. Hann bað ekki beinlínis fyrir sjálfum sér, heldur um tákn sem gæti sannfært alla vantrúaða um, að alvaldur guð stjórnaði viðburðum lífsins. Í þessum svifum vaknaði Edith. Knúð ómótstæðilegu afli rauk hún upp úr rúminu og leit út um gluggann. Þegar hún kom auga á Ledward skildi hún hvers kyns var og gerði bæn sína líka.

Glöð og endurnærð í huga, borðuðu þau morgunverðinn og reyndu að gleyma því sem bæði þeim og öðrum lá þyngst á hjarta, rétt þann daginn.

,,Eg held það verði ekki margir við guðsþjónustuna í dag, Edith'' sagði hann nokkru seinna, þegar hún hafði minst á, að hún ætlaði að gæta að, hvort alt væri til búið í hlöðunni. Það voru fimtán mílur til næstu kirkju, svo að Ledward hafði haldið guðsþjónustur á sunnudögum í hlöðunni heima hjá sér í fimm ár; höfðu nágrannar hans sótt þær samkomur mæta vel. Síðustu fimm sunnudagana höfðu þau beðið innilega um regn.

En veðuráttan hafði ekkert breyzt fyrir það, og mörg gáleysis orð hafði hann heyrt í þá átt eftir að guðsþjónustunni var lokið sunnudaginn næsta á undan. Því hélt hann, að nú mundi enginn koma. En það fór á annan veg. Kirkjan, eða öllu heldur hlaðan, var full, og það var skrítin sjón að sjá alla smávagnana á flötinni sem fjarst trjánum, því að nálægt þeim var ekki lífvænt fyrir flugum.

Hér um bil fimtíu manns höfðu komið. Söfnuð-

urinn reyndi að gleyma hinum kveljandi áhyggjum á meðan hann sat í snoturri hlöðunni. Ledward var prestssonur og fór því guðsþjónustugjörðin vel úr hendi.

Edith lék á litla organið, sem var flutt á hverjum sunnudegi úr íbúðarhúsinu út í hlöðuna. Gömlu sálmarnir voru sungnir, sálmarnir sem vöktu en sefuðu þó um leið heimþrána, er margur bar í brjósti. Ledward gleymdi ekki að biðja um regn, en honum fanst söfnuðurinn ekki taka jafn-innilegan þátt í þeirri bæn og hann var vanur. En Ledwards eigin bæn varð því heitari og innilegri.

Aldrei var nein ræða flutt við þessar guðsþjónustur nema þegar svo bar við, að einhver prestur var á ferð. Þennan morgun breytti Ledward út af vananum og flutti stutta ræðu. ,,Þér eruð mín vitni'', var textinn. Þessi texti gaf honum ástæðu til að hvetja fólkið til að standast raunina og halda fast við traust sitt á guði, þó að hann af vísdómsráði sínu, sem mönnum væri um megn að skilja, hefði svo lengi synjað þeim um hið frjóvandi regn. Það var svo mikill þróttur og hiti í framsetningunni, að tárin glitruðu í augum flestra, þegar þeir hneigðu höfuð sín til bænar.

Fólkið var rólegra og í léttara skapi eftir guðsþjónustuna, og einstöku gamanyrði hraut sumum af vörum.

,,Regnið kemur í tæka tíð'', sagði Ledward við bændurna, þegar þeir kvöddu hann. Hann hafði engar frekari líkur að fara eftir en aðrir; honum að eins ,,fanst það á sér''. En það var nóg til þess að gleðja bændurna og hughreysta, og þegar þeir komu auga á mjóa, dökka rák á blárri hvelfingunni út við sjóndeildarhringinn, vaknaði vonin í hjörtum þeirra.

Einn af hlöðugestunum var læknirinn úr næsta þorpi. Hann var skozkur að ætt og góðkunningi

Ledwards. Hans hafði verið vitjað um nóttína frá næsta bændabýli, og þegar hann mintist bænasamkomu Ledwards, gat hann gert sér það til erindis, til að fá miðdagsverð hjá honum.

Edith var farin að búa til miðdagsverðinn. Læknirinn og Ledward sátu á svölunum.

,,Þú prédikaðir djarflega í dag", sagði læknirinn. ,,Skil ekki, hvernig þú getur það. Eg var alinn upp hjá ströngum presbýtérum og þó gafst eg upp, þegar eg kom til þessa undarlega lands. Þú heldur þó ekki að við séum eins og börn í höndum skólakennara?"

,,Ef eg tryði því ekki, mundi eg örmagnast undir byrðinni", sagði Ledward, og það mundi Edith líka gera. Sléttulífið hefir enn þá meiri áhrif á konur en karlmenn ; þær geta ekki verið án trúarbragðanna og því er það skylda karlmannanna að hjálpa eins mikið og þeir geta".

Þetta kom lækninum á óvart. Hann hafði dvalið alla nóttina við sjúkrasæng Galizíukonu, sem bar byrði sína með þögn og þolinmæði, og aldrei hafði komið til hugar aðstoð annarra í erfiðleikum lífsins. Læknirinn sat og var hugsi góða stund.

Öðru máli var að gegna með Ledward og konu hans. Læknirinn vissi um erfiðleikana, sem þau höfðu átt við að stríða síðustu fimm árin,. Þau höfðu barist glöð og hugrökk, ekki á móti heldur í samræmi við það sem að höndum bar. Og það var eitthvað það fegursta sem hann hafði séð.

,,Mér þykir það verst, að eg er svo hræddur um að eg geti ekki lofað Edith heim um jólin. Hún hefir reitt sig á það og hlakkað svo mikið til þess, en ef uppskeran bregst, þá er það ómögulegt".

,,Eg held að hún verði að fara", sagði læknirinn. ,,Eg var að horfa á hana í hlöðunni áðan, og mér virðist, að hún verði að fara. Eg ætla að tala við hana eftir miðdagsverðinn. Mér liggur ekkert á, svo

að eg ætla að fá að hvíla mig hjá ykkur fram eftir deginum, þangað til kólnar i veðrinu".

,,Ágætt, ef til vill verður þú þá gegnvotur á leiðinni heim", sagði Ledward hlæjandi.

Edith kom og kallaði á þá til miðdagsverðar. Læknirinn sat þar fram eftir deginum og rifjaði upp gamlar minningar, svo að þau gleymdu daglegu áhyggjunum.

,,Það er einkennilegur staður, þetta — og þið eruð það líka", sagði læknirinn um kveldið um leið og hann steig upp í kerruna, ,,en eitt er víst, að maður hefir gott af að koma hérna. Eg er ekki sá eini, sem kem hérna til að fá næringu fyrir líkama og sál. Standið stöðug ; þið eruð að vinna að hinu mikla verki, verkinu Hans".

Læknirinn benti til himins og ók af stað, hrærður í huga. Ledward og kona hans litu brosandi hvort til annars. Hún greip í hönd hans og hallaði sér upp að öxlinni á honum.

,,George", sagði hún lágt.

,,Já, hvað er það, góða?"

,,Eg talaði við læknirinn áðan og hann sagði að það væri á leiðinni".

,,Regnið, já auðvitað er það á leiðinni".

,,Nei, annað sem er miklu dýrmætara. Heyrðu!"

Hún tók um höfuðið á honum og hvíslaði einhverju að honum, sem kom honum, barnlausum manninum, til að hrökkva við.

,,Nei, er það mögulegt?" sagði hann með ákefð.

,,Já, og það fæðist í janúarmánuði".

,,Heima, Edith, á fornu slóðunum. Eg fer þangað með þér", sagði hann og tók utan um hana. Þau fundu að eins sín eigin hjartaslög og þeim virtist þau hafa nálgast guð og hvort annað.

,,Við höfum enga peninga nema uppskeran hepnist".

,,Það verða einhver ráð með peningana. Þú verður að komast til hennar mömmu þinnar. Eg hætti ekki á að láta þig vera hérna.

Draumurinn var indæll og hún gleymdi öllu nálægu um stund. En þegar minst varði heyrðist hljóð, sem hreif þau bæði. Edith brosti.

,,Regn, George, já, regn", sagði hún. ,,Stjörnurnar eru allar horfnar. Guð er ekki fjarlægur neinum af oss. Nei, hann er nálægur, nálægari en við höldum".

# HELZTU VIDBURDIR OG MANNALÁT MEDAL ÍSLENDINGA Í VESTURHEIMI.

---

Í apríl 1913 var Baldwin L. Baldwinson, þingmaður Gimli-kjördæmis, skipaður aðstoðar-ráðgjafi *(Deputy Minister)* í fylkisritaradeild Manitobafylkis

---

Vorið 1913 var Elín Thorsteinsson sæmd meistaranafnbót [M. A.] við ríkisháskólann í Norður-Dakota. Elín er dóttir Þorsteins Þorsteinssonar [frá Mýrarlóni í Eyjafirði] og konu hans Sigríðar Jónsdóttur [frá Gvöndarstöðum í S.-Þingeyjarsýslu], er búa í Garðar-bygð í N.-Dakota.

---

5. maí 1913. Doktor í heimsspeki varð Sturla Einarsson, sonur Jóhanns Einarssonar í Duluth við háskólann í Kaliforníu. Prófverkefni: Brautir litlu fastastjarnanna Hektors [624] og Akkilesar [588] í Trjón-kerfinu.

---

Vorið 1913 útskrifuðust við Collegedeild Manitoba-háskólans: Skúli Johnson, Ólafur T. Anderson, Lawrence A. Jóhannsson, Jóhannes Eiríksson, Matthildur Kristjánsson, Margrét Paulson, Magnea G. Bergmann, Jón Árnason, Jón Jónasson.

---

Í maí 1913 útskrifaðist af læknaskólanum í Winnipeg Ágúst Blöndal.

---

Með nóvembermánuði 1913, var stofnsettur íslenzkur skóli í Winnipeg að tilhlutan Hins ev. lút. kirkjufélags Ísl. í Vesturheimi. Síra Rúnólfur Marteinsson er forstöðumaður skólans.

---

# MANNALÁT.

4. des. 1913: Júlíana Ragnheiður Benediktsdóttir kona Gríms Jóhannssonar í Grunnavatnsbygð í Man. (Voru þau til heimilis á Íslandi á Skarðsströnd í Dalasýslu, þar til 1894 að þau fluttust hingað vestur), 76 ára gömul.

7. des. 1912: Guðfinna Kristín Eiríksdóttir kona Sveins Halldórssonar bónda við Bertdale-pósthús í Sask. (fluttust þau hingað vestur 1887 frá Kálfholti í Holtamannahreppi í Rangárvallas.), 52 ára gömul.

7. des.1812: Jón Sigurðsson hjá syni sínum Metúsalem bónda í Lincoln Co. í Minnesota (frá Hróaldsstöðum í Vopnafirði; kominn hingað til lands fyrir 30 árum), 88 ára.

14. des. 1912: Kristjana Soffía Stefánsdóttir kona Árna Sigurðssonar við Mozart í Sask., (var ættuð úr Eyjafirði, hétu foreldrar hennar Stefán Vigfússon og Guðrún Gísladóttir, er bjuggu mörg ár á Barði við Akureyri), 74 ára.

15. des.1912: Rannveig Jónsdóttir, kona Þ.Þ. Þorsteinss., skálds í Winnipeg. Foreldrar hennar Jón Einarsson og Ingigerður Hannesdóttir (ættuð af Suðurlandi), 24 ára.

16. des. 1912: Guðbjörg Eyleifsdóttir (Proctar) í Marietta, Wash. (Foreldrar hennar voru Eyleifur Guðmundss. og Arnheiður úr Mýrdalnum í Vestur-Skaptafellssýslu), 39 ára.

24. des. 1912: Jón Jónadabsson Líndal, bóndi við Mary Hill-pósthús í Álftavatnsbygð. Ekkja hans heitir Ingibjörg Tómasd., bæði Húnversk. (Fluttu þau frá Víðidal í Húnaþingi 1873 til Ameríku og voru því með fyrstu útflytjendum frá Íslandi), nær sjötugur að aldri.

28. des. 1912: Sigurður Bjarnason(póstur) að heimili sínu í Pembina, N.-Dak. (var póstur milli Rvíkur og Akureyrar mörg ár og síðan austur í Skaftafellss. Ekkja hans heitir Sigríður Bjarnadóttir; fluttu hingað til lands fyrir 35 árum), 96 ára.

29. des. 1912: Guðjón Þorkelsson bóndi í Marshlaud-bygð vestan Manitobavatns (ættaður úr Hvammssveit í Dalas.), 53 ára.

29. des. 1912: Guðný Matthildur Jónsdóttir Guðmundssonar Westdal, kona Stefáns Hofteig bónda í Vesturheimsbygð í Minnesota, 33 ára.

Í des. 1912: Margrét Þórðardóttir (Olson) kona Guðna Ólafssonar bónda við Vita-pósthús í Man. (fluttust þau hjón hingað vestur frá Gíslastöðum í Suður-Múlas.), 46 ára.

## JANÚAR 1913.

5. Sigurveig Þorláksdóttir, Einarssonar(frá Garði í Þistilfirði í Þingeyjars.) kona Kristjáns Agústs Arnasonar Brynjólfssonar bónda við Mozart, Sask., 43 ára.

5. Bjarni Ólafsson bóndi í Geysis-bygð í Nýja Íslandi (Skaftfellingur að ætt), 66 ára.
7. Bjarni Stephansson bóndi við Fox Warren í Man. (ættaður úr Miðfirði í Húnav.s.; fluttist frá Óspaksstöðum í Hrútaf. hingað vestur 1883. Ekkja hans heitir Elín Eiríksdóttir.
10. Ingibjörg Árnadóttir, Sveinssonar kona Einars H. Johnson í Spanish Fork, Utah (ættuð úr Norður-Múlasýslu. Fluttist til Ameríku 1876), 54 ára.
11. Þórný Þorsteinsdóttir hjá dóttur sinni Björgu húsfreyju í Straumnesi við Íslendingafljót (ættuð úr Borgarfirði eystra), 86 ára.
12. Einar Jónatansson til heimilis hjá syni sínum Jóhanni bónda við Matlock í Wash. (var hann úr Eyjafirði, átti heima á Laugalandi á Staðarbygð um langt skeið), 76 ára.
14. Kristín Brown, ekkja í Winnipeg (dóttir Magnúsar heit. Jónssonar, hafnsögumanns á Akureyri og konu hans), 55 ára.
22. Magðalena Helga Lindal dóttir Jakobs Lindal (frá Þóreyjarnúpi í Húnavatnss.), 16 ára.
25: Guðrún Tómasdóttir hjá dóttur sinni Pálínu og manni hennar, Stefáni Eiríkssyni við Gimli (frá Þverá í Skagafirði), 92 ára.
26. Guðrún Emilía Benediktsdóttir, Kristjánssonar prófasts að Múla í Þingeyjars., kona Sigfúsar Magnússonar til heimilis í Duluth.
27. Margrét Jónsdóttir á Gimli, ekkja Magnúsar Magnússonar d. 1892 (úr Húnavatnssýslu), 80 ára.
28. Halldór Einarss. bóndi við Vestfold-pósth., Man.(úr N.-Múlas.).
31. Rebekka Guðmundsdóttir í Winnipeg, ekkja. Fluttist hingað ásamt manni sínum, Jóni Árnasyni og börnum þeirra, frá Máná á Tjörnesi í Þingeyjars. á öndverðri landnámstíð Vestur-Ísl., gegndi hún ljósmóðurstörfum um langt skeið bæði í Nýja Íslandi og Winnipeg, 83 ára gömul.

## FEBRÚAR 1913.

1. Sigfús Hannesson til heimilis hjá syni sínum Sigurði bónda við Narrows, Man. (ættaður úr Húnav.s.), 75 ára.
4. Guðfinna Vilhjálmsdóttir til heimilis hjá dóttur sinni Guðfinnu og tengdasyni S. M. S. Askdal í Minneota. Ekkja Gunnlaugs heit. Magnússonar; fluttu þau hingað til lands 1878 frá Eiðum í Eiðaþinghá; 82 ára.
5. Guðrún María, dóttir hjónanna Björns Þorsteinss. og Þuríðar Hjálmsdóttur að Marshland-pósthús, Man.
5. Sigríður Arndís Halldórsdóttir, kona Þorgils smiðs Þorsteinss. að Langruth, Man. (ættuð úr Húnav.s.), 38 ára.
12. Kristín Þorsteinsdóttir kona Björns Walterson (Sigvaldasonar). Sjá almanak þetta fyrir 1909.
14. Guðrún Ólafsdóttir hjá syni sínum Sigurgeir Stefánssyni, bónda

í Pembina Co., N.-Dak. Ekkja Stefáns heit. Jónss.; fluttu þau hingað vestur 1882, frá Miðvöllum í Skagafirði, en ættuð var hún úr Eyjafirði, fædd á Rauðalæk 1830, 82 ára.

19. Guðrún Erlendína Sigurðardóttir kona Friðbjörns Jóhannssonar bónda við Ísafoldar-pósthús við Manitobavatn (ættuð úr Dalasýslu), 36 ára.

MARZ 1913.

15. Guðbrandur Narfason að heimili sínu við Foam Lake í Sask.; var hann sonur Narfa Halldórssonar frá Kálfhóli í Árnessýslu og Ástríðar Árnadóttur; fluttist með þeim hingað vestur þá ungur að aldri.
23. Eygerður Jónsdóttir kona Brynjólfs Eiríkssonar Holm í Winnipeg (ættuð af Akranesi), 35 ára.
23. Vigfús Jósepsson í Minneota, Minn. (frá Leifsstöðum í Vopnafirði), 83 ára.
24. Sigurður Gíslason til heimilis í Winnipeg (œttaður af Eskifirði í S.-Múlas., foreldrar hans voru Gísli Árnason og Þorbjörg Þorbergsdóttir, er um eitt skeið höfðu greiðasölu á Eskif.), 57 ára.
27. Friðrik Ólafsson til heimilis hjá foreldrum sínum í ísl. bygðinni í Norður-Dakota. Sonur Ólafs Ólafssonar (frá Hvammi í Eyjafirði) og konu hans Friðriku Friðriksdóttir Möller (frá Lögmannshlíð í sömu sýslu), 26 ára.
27. Ingibjörg, kona Guðlaugs Johnsons, mjólkursala í Winnipeg, 66 ára gömul.
28. Magnús Brandsson (vélasmiður) í Chicago, sonur Egils Guðbrandssonar til heimilis í Selkirk, Man., 41 árs.
31. Grímur Snjólfsson til heimilis að Lundi í Álftavatnsbygð (fluttist hingað frá Ytra-Núpi í Vopnafirði fyrir 20 árum), 89 ára.

Guðrún Jónsdóttir að heimili tengdasonar og dóttur við Stony Hill-pósthús í Manitoba.

APRÍL 1913.

1. Guðmundur Guðmundsson að Winnipeg Beach (af Tjörnesi í Þingeyjarsýslu), 62 ára.
3. Jón Guðmundsson Westdal hjá tengdasyni sínum Jóni Ísfeld, bónda í Minnesota-nýl. (fæddur á Vakurstöðum í Vopnaf.) 72 ára.
4. Guðrún Ingveldur Guðmundsdóttir kona Guðm. bónda, Bjarnasonar að Mary Hill-pósthús, Man., 24 ára.
6. Sigrún Ólafsdóttir (Anderson's) kona síra Kristins K. Ólafssonar á Mountain, N.-Dak., 30 ára.
8. Ólafur Þorvaldsson til heimilis í Winnipeg (voru foreldrar hans Þorvaldur Hannesson og Ástríður Hallbjörnsdóttir, er um langt skeið bjuggu í Krossholti í Hnappadalssýslu. Ólafur fluttist hingað 1883 frá Litla-Hrauni í Hnappad.s.), 83 ára.
10. Þorgrímur Guðmundsson í Seattle, Wash. (fluttist úr Reykjavík), 48 ára.
18. Jósep Jósepsson í Minneota, Minn. (frá Haukstöðum í Vopnafirði), 78 ára.

21. Benedikt Tryggvi Hallgrímsson í Seattle, Wash., 34 ára. Sonur Þorst. bónda Hallgrímss. við Arborg, Man. (úr Þingeyj.s.).
23. Sigurður Eiríksson til heimilis á Big Point, Man. (var ættaður af Melrakkasléttu í Þingeyjarsýslu; bjó lengi að Daðastöðum í Núpasveit), 82 ára.
24. Þórður Gíslason í Winnipeg — frá Red Deer, Alta. (ættaður úr Reykjavík), 34 ára.
26. Guðmundur Jóhannsson til heimilis í Winnipegosis, Man. (ættaður af Skagaströnd), 53 ára.
30. Sigríður Sigurðardóttir á heimili sonar síns, Jóhanns E. Sigtryggssonar, bónda í Argyle-bygð (af Húsavík í Þingeyjars.), 82 ára.

Magnús Björnsson til heimilis í Winnipeg.

MAÍ 1913.

5. Guðlaug Þorgeirsdóttir í Foam Lake-bygð í Sask.
20. Sigfús Gíslason við Brown-pósthús í Man. (Voru foreldrar hans Gísli Ólafsson frá Húsey í Skagafirði og Rannveig Sigfúsdóttir frá Svaðastöðum í sömu sýslu. Ekkja hans heitir Rannveig Árnadóttir úr sömu sveit. Fluttu þau hingað 1876 og voru með fyrstu landnemum Nýja Íslands), 91 árs gamall.
26. Oddný Hannesdóttir til heimilis í Arborg, Man. Ekkja eftir Sigurð Jónsson, er bjuggu lengi rausnarbúi á Stóru-Vatnsleysu í Gullbringus. Hún flutti til Ameríku með börnum sínum 1876.
31. Guðrún Filippusdóttir, Einarssonar, ekkja Guðm. Sölvasonar, d. 1862 (ættuð úr Fljótum í Skagafjarðars.), 79 ára.

Guðmundur Sigfússon, Þórarinssonar í Winnip. (úr N.-Múlas.), 45 ára.

JÚNÍ 1913.

1. Sigmundur Guðmundsson í Winnipeg (af Vesturlandi), 65 ára.
2. Sigurður Sveinsson í Selkirk (ættaður af Akranesi), 23 ára.
8. Þorleifur Helgi Kristjánss. Thorlacius bóndi í Mikley, á Winnipegvatni (úr Barðastrandars.), 60 ára.
8. Margrét Einarsdóttir í Winnipeg, ekkja Kristjáns Kristjánss. Eyford, 48 ára.
8. Jón Lárus, sonur þeirra hjóna Jóns Júlíusar og konu hans Jónínu í Winnipeg, 21 árs.
8. Guðlaugur Jónsson í Winnipeg (af Vesturlandi), 77 ára gamall.
8. Jenny Eggertína Sigtryggsdóttir kona Kristjáns Péturssonar, bónda við Siglunes-pósthús, Man. (ættuð af Húsavík í Þingeyjarsýslu), 47 ára.
10. Katrín Þorláksdóttir til heimilis í Spanish Fork, Utah (ættuð af Álftanesi), 55 ára.
11. Elías Magnússon á Gimli (úr Miðfirði í Húnav.s.), 78 ára.
13. Jón Þorsteinsson (Sivertson) í Leslie, Sask., aldraður maður.
13. Anna Eiríksdóttir, ekkja Guðbrandar Narfason. bónda í Foam Lake-bygð er lézt 15. marz þ. á.

21. Björn Skaftason hjá syni sínnm Jósep í Winnipeg. Fæddur 1837 á Hnausum í Þingi, sonur Jóseps læknis Skaftasonar.
30. Stefán Stefánsson Hjaltalín í Baldur, Man. (af Vesturl.), 54 ára.

JÚLÍ 1913.

3. María Kristjánsdóttir til heimilis í Winnipeg ekkja Magnúsar Magnússonar í Lykkju á Akranesi, á áttræðis aldri.
4. Jóhannes Jónsson bóndi að Reynivöllum við Íslendingafljót (frá Geitavík í N.-Múlas.), 76 ára.
5. Sigurður Guðlaugsson í Winnipeg (frá Stapaseli í Mýrasýslu), um áttrætt.
5. Anna Jónsdóttir í Winnipeg, kona Jóns Benjamínssonar frá Háreksstöðum á Jökuldal, 57 ára.
8. Sigurður Jónsson í Mikley, 62 ára, hjá bróður sínum Brynjólfi.
15. Jón Jónsson bóndi í Spanish Fork, Utah (frá Vestmannaeyjum), hafði búið í Spanish Fork 57 ár. 79 ára.
30. Skarphéðinn J. Þorgeirsson við Bredenburry, Sask. (sonur Jens J. Þorgeirssonar er lézt í Winnipeg fyrir nokkrum árum), 21 árs.
31. Medonia Guðmundsdóttir ekkja á heimili sonar síns Ragúels Johnson, við Mozart, Sask. (ættuð úr Húnav.s.), 88 ára.

Sigurður Hákonarson til heimilis hjá Sigmundi bónda Stefánssyni við Kandahar, Sask., 98 ára.

ÁGÚST 1913.

1. Sigurður Jakobsson að Mountain, N.-Dak., (úr Dalasýslu; einn af fyrstu landnemum Nýja Íslands 1875) 83 ára.
4. Jóhannes Einarsson hjá dóttur sinni Aðalbjörgu Halldóru í Selkirk, Man. (flutti frá Hrappstöðum í Vopnafirði 1905), 82 ára.
5. Halldóra Brandsdóttir, ekkja Kristjáns Vigfússonar (Þingeyings); hún ættuð af Skagaströnd, 65 ára.
19. Sigfús Jónsson, bóndi á Blómsturvöllum í Geysis-bygð í Nýja Íslandi (frá Dæli í Svarfaðardal. Ekkja hans heitir Björg Jónsdóttir), 82 ára.
21. Friðjón Friðriksson í Winnipeg. (Sjá æfisögu hans í þessu almanaki 1908).
23. Sigurlaug Guðmundsdóttir í Blaine, Wash., 87 ára.
25. Kristmundur Benjamínsson, Guðmundssonar, bóndi í Ardalsbygð í Nýja Íslandi (úr Vatnsdal í Húnav.s.), 73 ára.
26. Jóhanna Bjarnadóttir ekkja hjá syni sínum Eyjólfi Thorsteinssyni í Winnipeg (fluttist hingað af Eskifirði 1910), 69 ára.

SEPTEMBER 1913.

2. Vigdís Bjarnadóttir Holt í Spanish Fork, Utah.
9. Bjarni Helgason við Siglunes-pósth., Man. Rúmlega sextugur.
9. Jakob Hákonarson Espólín til heimilis í Pembina, N.-Dak. Hann var sonur Hákonar síðast prests á Kolfreyjustað, son

Jóns Espólíns, sýslumanns og Sigríðar dóttur Jóns „lærða“ prests í Möðrufelli í Eyjafirði), 84 ára.

13. Ingigerður Sigurbjörg Björnsdóttir (Erlendssonar að Stóra-Búrfelli í Húnav.s.), 57 ára.

14. Sigmundur Jónatansson til heimils í Minneota, Minn. (fæddur á Hofi í Flateyjardal í Þingeyjars., var um nokkur ár gestgjafi á Húsavík áður hann flutti hingað vestur 1873, ásamt konu sinni Hólmfríði Magnúsdóttur frá Sandi í sömu sýslu, sem enn er á lífi), 76 ára.

17. Ingibjörg Benediktsdóttir, bústýra Isaks bónda Jónssonar í Framnes-bygð í Nýja Íslandi.

19. Guðni Runólfsson í Winnipeg, 29 ára gamall.

22. Sigurbjörg Gísladóttir hjá dóttur sinni á Gimli, 91 árs gömul.

24. Einar Þorvaldsson Dalmann í Selkirk, Man. (Bróðir Ólafs Þorvaldssonar sem lézt í Winnipeg 8. apr. þ. á.), 79 ára.

25. Valgerður Dorothea Melsted kona Einars Magnússonar Melsted, bónda við Gardar, N.-Dak. (Dóttir Bjarna Jónssonar er bjó á Hallgilsstöðum í Fnjóskadal í Þingeyjarsýslu, prests Þorsteinssonar í Reykjahlíð), 39 ára.

28. Ingibjörg, kona H. B. Johnson í Blaine, Wash., dóttir hjónanna Péturs og Guðlaugar Hansen í N.-Dak., 31 árs gömul.

## Október 1913.

2. Helga Magnúsdóttir til heimilis hjá systur sinni Guðnýju og manni hennar, Jóni Eiríkssyni bónda við Winnipeg Beach (ættuð úr Norður-Múlasýslu), 82 ára.

8. Jakob Oddsson, bóndi á Lundi í Gimlisveit (ættaður af Tjörnesi í Þingeyjars. Ekkja hans heitir Sigurbjörg Jónsdóttir), 82 ára.

9. Oddur Magnússon, bóndi við Wynyard, Sask. (ættaður úr Haukadalshreppi í Dalasýslu), 69 ára.

11. Regína Sigríður Indriðadóttir (frá Ytri-Ey í Húnav.s.), kona Guðjóns Sólbergs Friðrikssonar í Winnipeg (frá Haukadal í Dýrafirði), 55 ára.

12. Þorvaldur Jónas Johnson í Omaha, Nebraska, sonur Jónasar Jónssonar (Johnson) og konu hans Kristínar Jónsdóttur frá Elliðavatni; 27 ára gamall.

17. Kristín Rósinkransdóttir kona Jóns Kristjánssonar bónda við Barons-pósthús í Alberta (ættuð af Ísafirði).

19. Eyjólfur Guðmundsson í Spanish Fork, Utah (af Vatnsnesi í Húnavatnss.; kunnur á Íslandi fyrir ræktun æðarfuglavarps. Fluttist til Utah fyrir 25 árum síðan), 84 ára.

23. Indriði Sigurðsson bóndi við Amalia-pósthús í Saskatchewan (ættaður úr Fnjóskadal í Þingeyjarsýslu, en fluttist hingað vestur frá Laugalandi í Eyjafirði 1876), 63 ára.

23. Guðjóna Einarsdóttir, kona Sigfúsar Ólafssonar bónda við Hallson, N.-Dak., um fimtugt.

28. Ólöf Sveinsdóttir að heimili sonar síns Jóns Sigfússonar kaupmanns í Álfavatns-bygð, Man. (frá Viðfirði í S.-Múlas., ekkja Sigfúsar Sveinssonar frá Nesi í Norðfirði í N.-Múlas.), 82 ára.
29. Björn Andrésson í Gladstone, Man. (úr Skagafirði), 65 ára.

NÓVEMBER 1913.

4. Ingibjörg Björnsdóttir, dóttir Björns Björnssonar og konu hans Sigríðar í Baldur, Man., 23 ára.
10. Ingveldur Sigurðardóttir hjá syni sínum Jóni Vídalín Friðrikss. í Winnipeg. Var hún ekkja Friðriks Davíðssonar (frá Hvarfi í Víðidal í Húnav.s.), 82 ára.
13. Sæbjörn Magnússon að Lundar, Man., ungur maður.
14. Páll Sigfússon hjá syni sínum Sigfúsi í Winnipeg (fæddur 1846 í Gilsárvallahjáleigu í N.-Múlas.; fluttist vestur um haf 1886), 67 ára.
14. Þuríður Gísladóttir til heimilis í Portage la Prairie, Man,, ekkja Guðm. Björnssonar (d. 1905) frá Lokinhömrum í Ísarjarðarsýslu, fluttist hingað vestur 1887), 88 ára.
15. Ólafur Sigfús Ólafsson, foreldrar hans voru Tryggvi Ólafsson og Berglaug Guðmundsd. er búa í Argyle-bygð, Man., 19 ára.
16. Magdalena Sigurðard., kona Guðjóns Hermannssonar í Winnip., (ættuð úr Reykjavík), 43 ára.
16. Helga Jónasdóttir, kona Jóns Ólafssonar á Brú í Argyle-bygð (sjá almanak þetta fyrir 1909).





# Til kaupenda Almanaksins.

---

Með þessu ári 1914 hefi eg gefið út almanak þetta í tuttugu ár. Í tilefni af því, að það hefir nú náð tvítugs aldri, hefi eg gert það stærra að blaðsíðufjölda og fjölbreyttara að efni en nokkuru sinni áður. Mér er það mikil ánægja að geta sagt með sönnu, að það hefir náð *sérlega miklum vinsældum*, ekki einungis hér á landi, heldur einnig á ættjörðu vorri, Íslandi, og annarstaðar, þar sem Íslendingar dvelja. Enginn vafi er á því, að vinsældir þessar eru að langmestu leyti af því sprotnar að almanakið hefir á hverju ári — í sextán ár — flutt þætti í safn til landnámssögu Vestur-Íslendinga. Hefir landnáms-sögusafn þetta fengið viðurkenningu okkar beztu manna hér í landi og eins á Íslandi. Má þar til nefna Björn heitinn Jónsson, ráðherra og ritstjóra Isafoldar, og dr. Valtý Guðmundsson. Og nú síðast Þórhall biskup Bjarnarson í „Nýju Kirkjublaði" fyrir aprílmánuð þ. ár. Þar farast honum svo orð :

*„Skyldi nokkurum öðrum þjóðflokki en vorum hafa komið til hugar að skrásetja og geyma landnámssögu sína í Vesturheimi ?*

*„Landnámssaga þessi kemur árlega í Almanaki Ólafs S. Thorgeirssonar í Winnipeg. Í almanaki þessa árs eru tveir langir sögukaflar, og er fjöldi af*

*mannamyndum með, eru það myndarlegir svipir. Ættartölur eru allmikið raktar og töluverður sögufróðleikur í þáttunum. Þetta er orðið mikið mál, mun lengra en Landnámu fornu, og mikið mun þó víst óritað. Verður þetta stórmerkilegt rit fyrir eftirtímann, og mjög svo þýðingarmikill þáttur til verndunar íslenzku þjóðerni í Vesturheimi".*

Þegar eg í fyrstu fór að birta þessa þætti, var áformið að láta eigi við það sitja, sem hægt yrði að birta í hvert skifti, heldur halda áfram að viða að öllu, sem síðar vitnaðist að gleymst hefði, með það fyrir augum, að gefa út, síðar meir, sérstaka útgáfu alls safnsins, þegar ástæður leyfði, — aukið og endurbætt og leiðrétt, sem bezt mætti verða. Og þá um leið að láta fylgja æfisögur allra hinna merkari manna með Vestur-Íslendingum, sem frá fyrstu tímum alt til þessa dags hafa komið hér við sögu. Þessu áformi hefi eg haldið og held enn föstu í huga mér.

Þau söguleg heimildarrit eru álitin ábyggilegust fyrir þá, er síðar vilja fá glögt og greinilegt yfirlit þess, er gerst hefir, þar sem sjónarvottar viðburðanna segja frá því sjálfir, sem fyrir augun bar eða gerðist um lengri eða skemri tíma, eða sögumenn hafa skrásett beint eftir sjónarvottunum sjálfum. Slík söguleg heimild ætlast eg til að þessir þættir sé, sem birzt hafa í almanakinu, enda eru þeir færðir í letur af vandvirkum og gætnum mönnum, sem almenna tiltrú hafa og alið hafa mestan aldur sinn í þeim bygðarlögum, sem þættirnir lýsa.

Það er ofsnemt enn að rita nokkura sögu í samhengi, þar sem dómur væri feldur um menn og málefni. Til þess þarf miklu lengri tími að líða frá viðburðunum. Þeir menn, sem enga hlutdeild hafa átt í þeim, standa ólíkt betur að vígi en aðiljar sjálfir. En þá verða þeir að hafa glögg og greinileg gögn og skilríki á að byggja, er bregða upp eins ljósri mynd af söguvið-

burðunum og unt er. Slíkum ljósmyndum af íslenzkum landnámsmönnum vestan hafs, landnámi og bygðarlögum, lífi þeirra og baráttu, andlegri og líkamlegri, hefir almanakið verið að bregða upp fyrir lesendum sínum nú í sextán ár og mun halda því áfram nokkuð enn. Áður en langt um líður verður ef til vill eitthvað af þeim gefið út í bókarformi, eitt og eitt hefti í senn, eftir því sem það verður til smám saman

Af því að þessi árgangur almanaksins er svo miklu stærri að blaðsíðufjölda, en að undanförnu, var ógjörningur að binda sig við sama *afar-lága verð* og fyrri árgangar hafa verið seldir fyrir; þess vegna er það nú 50 cents, og þykist eg þess fullvís, að enginn af kaupendum þess fáist um heldur fagni yfir að fá svo mikið og vandað lesmál nú um áramótin.

Að svo mæltu árna eg öllum viðskiftavinum mínum og Íslendingum öllum, vestan hafs og austan, árs og friðar og góðs gengis 1914.

Winnipeg, á sólhvörfum 1913.

*Ólafur S. Thorgeirsson.*

---

*LEIÐRÉTTING.*

Slæm villa hefir slæðst inn í æfisögu Sigfúsar Magnússonar á bls. 174. Þar stendur: Ein dóttir mín er gift Baldri Benediktssyni, en á að vera *Indriða* Benediktssyni; er hann systursonur Jóhanns Einarssonar í Duluth og Indriða bróður hans í Reykjavík.

# INNIHALD:

